# Ágrip

af merkis atburdum

# Mannkyns Søgunnar,

útlagt, aukid og kostad

af


Páli Melsted

*Cand. philos.*


Kostar 1 rbd, í kápu.


Videyar Klaustri.

1844.

Födur mínum elskulegum

Herra **Páli Melsted,**

Sýslumanni í Árness-Sýslu,

Kammerrádi, og Riddara af Dannebroge

tileinkad.

Páll Pálsson Melsted.

# Til Lesenda.

Fyrir rúmu ári síðan rédist eg í að snara á íslenzku danskri sögubók, er heitir: Historiens vigtigste Begivenheder, fragmentarisk fremstillede af H. A. Kofod. Bókin er ætlud úngum mönnum, og þeim, sem skammt eru á veg komnir í veraldarsögunni. Hefir hún ordid ein med vinsælli bókum í Danmörku, og opt verid prentud. Í fyrstu var þad einúngis áform mitt, að íslenzka hana til þess, ad lærisveinar þeir, er eg þá hafdi til kennslu, skyldu ega hægra med ad komast nidur í veraldarsögunni; eg hafdi tekid eptir því, ad þeir sem ekki kunnu dönskuna, urdu ad vinna tvö verkin í einu; bædi læra málid og söguna. Vildi þá annadhvort eda jafnvel hvorttveggja fara í ólestri fyrir enum tornæmara. En síðan kom mér til hugar, ad fleirum kynni máské ad sýnast á sömu leid sem mér, og ímynda sér ad audveldara yrdi ad kenna sagnafrædi ef til væri þesshattar bók á íslenzku. Eg vissi líka vid hvada þjód eg átti. Því eins og Íslendíngar hafa lengi haft fæmd af sögum þeim er þeir ritudu, enir miklu meistarar: Ari Þorgilsson, Snorri Sturluson og Sturla Þórdarson, og margir adrir, svo hafa þeir og jafnan haft ást á sagnafrædum, og þó þessi ást nái ad mestu leiti — þegar um alþýdu vora er talad — einúngis til sögu Íslands og Nordurlanda, er þad bædi

edlilegt og mönnum oll vorkun á, þar sem ekki hefir verid til (svo eg viti) nokkur bók á íslenzka túngu er heitq megi veraldarsaga, edur almenn saga mannkynsins. Gallettis Agrip af sagnafrædinni gét eg valla talid, því bædi er þad svo stutt, og svo undarlega ljótt á því málid, ad eg skyldi aldrei trúa því, ef þad stædi ekki framaná kverinu, ad Jón Espólín hafi nokkurn tíma lagt þad út. Hann sem sídan ritadi svo merkilegt mál. Af þessu, og ödru fleira leiddist eg til ad láta prenta handrit mitt, og gefa löndum mínum kost á ad eignast þad.

Eg ætlast til ad þessi bæklíngur skuli benda þeim er hann lesa, á flestar þjódir í heiminum sem nokkrar talsverdar sögur hafa geingid af, og nefna þeim helztu menn og helztu atridi í sögum þeirra. Ein dansk bók er eg hafdi fyrir mér var þann veg lögud, og sídan eg hætti ad fylgja henni hefi eg haldid áfram í sama anda, svo þessi bók yrdi ekki mjög ólík sjálfri sér, fyrst og sídast, ad öllu skipulagi. En eg hefi fyrir þá sök vikid frá Rosöds ágripi á midri leid, og fylgt ödrum bókum, og aukid ýmsu vid, (eins og ráda má af því, ad ágripid danska er 14 arkir, en bæklíngur þessi rúmar 20 arkir, og letrid á þessum þó engu ódrýgra enn á hinu), ad mér þókti ágripid vesna þegar aptur í þad sókti. Registur ætladi eg í fyrstu ad láta fylgja, eins og gjört er í enni dönsku bók, en eg hvarf frá því sídan, þegar eg sá, ad eg gat ekki bætt því vid, svo gagn yrdi ad, nema til ad gjöra bókina dýrari.

Til þess ad hafa full not af bók þessari verda menn ad hafa hlidsjón af Landaskipunarfrædi, en svo er, og svo verdur ad vera med hvörja verald-

ársögu. En eg veit, ad bædi ega landar mínir, Landaskipunarfrædi Sra. Gunnlaugs sáluga Oddssonar, og Sra. Olafs Pálssonar, og er þeim þá borgid í þeirri grein.

Eg býst vid, ad morgum þyki þad kynlegt, ad eg skuli lítid sem ekkert minnast á Island í ágripi þessu, en margt bar til þess: hvorki þóktist eg vera, ad svo stoddu, fær um ad semja laglegt ágrip, og þó ekki of lángt, af sögu vorri — misti líka í vetur, þegar hjá mér brann, nokkur blod þar ad lútandi — vissi og ad margir ega Sturlúngu, og Arbækur Espólíns, og hafa þar vid mikid ad stydjast; svo vonast eg líka eptir og óska, ad sá madur, sem eg álít færastan til þess, gefi Islendíngum, londum sínum, sogu sjálfra sín, ádur lángt um lídur.

Prentvillur eru margar í bók þessari, og má kénna þad bædi mér og odrum. Þær helztu hefi eg sett hér:

Bls. 3 i nótu, línu 2 les: i Nordurálfunni. Bls. 12 l. 24 les: mindaletrinu. Bls. 18 l. 5 les: Akkilles. Bls. 19 l. 8 les: 1200 árum. Bls. 25 l. 10 les: gleymdi. Bls. 28 l. 11 les: uppeldi. Bls. 48 l. 13 les: Tebu og Tespiu. Bls. 49 l. 18 les: Maratons. Bls. 59 l. 25 les: kunngjort. Bls. 73 l. 20 eru kollud, les: og kollud eru. Bls. 76. l. 12 les: vansæmd. Bls. 78 l. 8 les: grida. Bls. 89 l. 7 les: Masinissa. Bls. 90 l. 6 les: fridarkostium. Bls. 93 l. 24 les: rakad. Bls. 94 l. 2 les: Viriatus. Bls. 113 l. 19 les hittist hvorutveggi herinn. Bls. 149 l. 18 Punctum eptir) strikist burt. Bls. 167 l. 21 les: forfedurna. Bls. 200 l. 10 henni les: því, Bls. 208 l. 27 les: drotning. Bls. 231 l. 28 les: þar eins og annarstadar. Bls. 239 l. 12 les: Richelieu. Bls. 245 l. 29 les: lokid. Bls. 249 l. 27 les: ófridi þeim. Bls. 254 l. 15 les: Prússalondum. Bls. 263

l. 2 les: Elfingston. Bls. 265. l. 8 les: Maczievits. Bls. 266 l. 16 les: Maskerade. Bls. 283 l. 23 les: Þýzkaland. Bls. 291 l. 18 les: skadabótum. Bls. 292 l. 21 les: 1793. Bls. 295 l. 10 les: Austerliz. Bls. 297 l. 1 les:, Kadore. Bls. 298 l. 15 les: 1500, línu 17 les: mildi. Bls. 304 l. 22 les: Rómana. Bls. 308 l. 21 les: hvorsu. Bls. 311 l. 26 les: samþykktist. Bls. 312 l. 7 les: 1811. Bls. 316 l. 22 les: Napóleons. Bls. 319 l. 6 les: fullu.

---

Þannig skilst eg við þetta starf, er eg hefi hvað mest unnið að seinni hluta vetrarins sem leið, stundum dapur í huga og átt við margt misjafnt að stríða. Eg óska, fremur enn vona, að bókin verði vinsæl í landinu, og að góðir menn virði á betra veg þessa fyrstu tilraun mína.

Skrifað á Brekku á Alptanesi í Majo 1844.

P. Melsted.

# Gamla Sagan.

Veraldarsaga heitir frædi sú er skírir frá enum helztu atburdum er ordid hafa medal mannkynsins. Segir ýmislega frá því hvørnig heimurinn hafi ordid til, en hvørgi er því lýst svo einfaldlega, og þó med svo føgrum ordum, sem í fyrstu bók Mósesar. Þar segir svo: Gud baud og heimurinn vard til. Hann skapadi tvo menn Adam og Evu. Þau bjuggu um hríd í Paradís, enum yndæla aldingardi, en urdu þó þadan ad fara, því þau hlýddu ekki bodum drottins. Nú er mannkynid tók ad fjølga, løgdu sumir stund á akuryrkju og kvikfjárrækt, en sumir gjørdu þarflegar uppgøtvanir, t. a. m. þeir er kenndu mønnum málma-smídi. En fyrir þá søk ad menn hneigdust til lasta, lét Gud koma syndaflód yfir jørdina, og fórust þá menn allir nema Nói og hyski hans, er af komst á einu skipi (Ørkin). Nói og synir hans byggdu jørdina á ný, og nidjar þeirra dreifdust smámsaman út um vída verøldu. Fyrst stýrdu húsfedurnir øllum ættmønnum sínum og eignum þeirra, og kallast stjórn sú fedra stjórn (patriarkalsk Regjering). Sídan er mannkynid fjølgadi hófust þjódféløg edur ríki, þ. e. féløg manna, er til

þess mida ad hvørr verji annan og adstodi, en yfir-rádin sén hjá einum manni edur fleirum, og allir fylgi ákvednum reglum, er menn kalla løg. Þó eru án efa ríki þessi margvíslega til ordin, stundum þannig, ad einn madur hefir haft til ad bera sálar edur líkama algjørfi yfir adra menn, og fyrir því nád yfirrádum yfir þeim. Hin elztu ríki voru ad øllum líkindum í Austurálfu heims (Asíu), því þar voru enir fyrstu menn. En fráságnir um þau og stjórn þeirra, eru mjøg svo á sundríngi, og vída hvar ýkjur einar eda skrøk-søgur.

## Frá Asyríu, Babyloníu og Medíu.

Allt lýtur ad því ad Asyríu ríki sé eitt hid elzta í Austurálfu. Er þess getid, ad þar hafi snemma á øldum verid sá høfdíngi er Ninus hét; hafi hann lagt undir sig mørg lønd, og byggt eina ágæta-borg á Tigris ár bøkkum, er hann nefndi eptir sér, og kalladi Ninive, (hérumbil 2000 árum fyrir Krists burd); Lét hann eigi þar vid lenda, en herjadi á Babylon, Armeníu, Medíu, og Egyptaland, sem urdu ad lúta veldi Asyríu. Því næst fór hann med miklu lidi til Baktria lands, og settist um Baktra-borg, en fékk ekki unnid fyrr enn laungu seinna, med rádi Semíramisar, konu Menonar hershøfdíngja sins; Hún gaf honum þad rád, ad hann skyldi velja þá menn af lidi sínu, sem alist hefdu upp í fjallbygdum, og væru vanir ad gánga í bjørg, þá menn skyldi hann láta klifra þar uppí borgina sem hamrar væru mest-

ir ad henni, en minnst væri manna vørn fyrir. Nínus fylgdi þessu rádi og fékk nád borginni, en hann launadi Semíramisi heilrædid, og gjørdi hana ad drottníngu sinni, og lét hana segja skilid vid Menon. Þegar Nínus var dáinn settist Semíramis ad vøldum, og var eingu minni í framkvæmdinni enn hann hafdi verid. Eitt hid mesta þrekvirki sem eptir hana liggur var ad prýda Babýlons borg. En sá er nefndur Nimrod ér fyrstur reisti hana, og kvad verid hafa mikill og djarfur veidimadur. Borgin var 12 mílur umhverfis, ferhyrnd, og horfdi sín hlid vid hvørri heims átt *). Borgar múrarnir voru eitt af furduverkum heims, þeir voru svo breidir, ad hæglega mátti aka 6 vøgnum samsída uppi á þeim. En á hæd voru þeir 288 feta. A hvørri hlíd þeirra voru 25 borgarhlid. En virki voru gjør á þeim uppi til varnar borginni. Evfrat fljóti mátti veita um síki inní borgina, og vard hún fyrir því mikla torsóktari. Til voru þau stræti í borginni er 3 mílur væri á leingd. En þad sem mønnum fannst þar mest um, var Belusar hof og hengi gardarnir; þeir voru gjørdir á lopti á bogum, og voru med smá brekkum, uxu þar allskonar aldini og stórar eikur, og mátti úr þeim sjá yfir borgina. Semí-

*) Borgir í Austurløndum eru jafnvel á vorum døgum stærri ummáls enn stadir á Nordurálfunni. Kemur þad til af því, ad húsin eru ekki áføst heldur standa ein sér, og audt pláss umhverfis þau. Voru og margir af høfdingjum þeim er í øndverdu reistu borgir austur í heimi vanir hyrdara lifi, vidum sléttum og nógu útrými.

ramis vildi ekki líkjast manni sínum einúngis í því, að reisa skrautlegar byggíngar, heldur og í hernaði. Fyrst herjaði hún á Libyu og Ethjópíu (Bláland), og þvínæst bjó hún út óvígan her til Indlands, en Indar voru manna auðugastir. Til þess að koma Ind' um á þá trú, að hún hefði fíla, lét hún slátra 300 þúsundum nauta, flá af þeim húðirnar, og breiða yfir úlfalda. Að sönnu vann hún sigur á Indum, en skömmu seinna beið hún mikinn ósigur og snéri við það heim aptur. Fékk hún þá völdin í hendur Ninyasi syni sínum, og dó eptir það. En aðrir segja að Ninyas hafi vikið henni frá völdum og settst sjálfur að. Eptir hann komu ýmsir konúngar, og finnst lítið um þá í sögum ritað, til þess er endir var gjörður á ríki þessu á dögum Sardanapals konúngs. Það er sagt um Sardanapal, að hann hafi verið sællífur, og látið sig litlu varða hvörju fram fór í ríkinu, en alið aldur sinn í búri kvenna sinna. Jarlar tveir eru nefndir, hét annar Belesis, hann réði fyrir Babylon, en annar hét Arbaces, og réði fyrir Medíu. Þeir hugðu gott til að hagnýta sér afskiptaleysi Sardanapals, og losast undan yfirráðum Assyríu konúngs. Fóru þeir með her manns til Niníve borgar, en þar var meiri vörn fyrir, enn þeir höfðu gjört sér í huga. Sardanapal var orðinn allur annar maður, og varði borgina með svo mikilli hreysti, að jarlarnir fengu ekki aðgjört, og urðu opt frá að hverfa, voru þeir þvínær afhuga orðnir að fá unnið borgina, en þá bjó eitt atvik þeim sigurinn til handa. Goðasvarið hafði áður

sagt, ad þegar Tígris á yrdi óvinur Niníve borgar, þá mundi borgin hrynja. Svo vard og. Áin gékk yfir bakka sína, og braut mikid af borgar múrum; komust uppreistarmenn þannig inní borgina. En er Sardanapal sá ad hann gat ekki leingur varist, tók hann þad rád, ad láta fyrr lífid enn komast í hendur fjandmanna sinna. Hann lagdi eld í høll sína, og brann þar inni, og konur hans og audæfi øll. Þad var nálægt 900 vetrum fyrir Krists burd.

Þessi urdu endalok Assyríu ríkis-ens forna; en þeir skiptu løndum med sér sem sigurinn unnu. Eru þessi ríki nefnd sem þá hófust: Assyría en nýa, Babylon og Medía. Medal konúnganna í Babylon er Nebukadnesar talinn hinn voldugasti. Hann lagdi undir sig Júda ríki og vann Týrus borg eptir lángt umsátur, en borgarmenn fluttu allt sem fémætt var útá eyu eina, og bygdu þar bæ þann er þeir køll-udu Týrus í eynni. (hérumbil 600 vetrum f. K. b). Svo er sagt ad Nebukadnesar yrdi vitstola, eda, eins og ritníngin kemst ad ordi, fyrir sakir ofmetnadar síns hafi ordid ad villidýri.

Í Medíu var sá madur, (700 árum f. Kr. b.) er Dejóces hét, hann hafdi dómara størf á hendi, og var hinn vitrasti madur og réttlátasti. Þá er fulltrúar þjódarinnar áttu fund med sér, til ad rádgast um hvørnig best yrdi rádin bót á vankvædum ríkisins, var hann í einu hljódi til konúngs tekinn, og þókti vera enn ágætasti konúngur. Hann bygdi Ekbatønu, helztu borg í Medíu, med mikilli rausn og vidhøfn, og lét gjøra

konúngs høll í borginni, með 7 múrum umhverfis, prýdda gulli og silfri. Øll þessi ríki er hér voru nefnd, komust seinna undir yfirráð Sýrusar Persa konúngs, er sídar mun getið verda.

## Frá Fønisíu mønnum.

Ekki einúngis þær þjódir og þeir menn, sem lagt hafa undir sig lønd og lídi, eiga skilid að seinni alda menn geti þeirra; vér hljótum einnig að halda á lopti minníngu þeirra, sem með ødru móti hafa unnid mannkyninu gagn. Fremur øllum þjódum í fornøld voru Fønisíſkir nafnfrægir af verzlun sinni, ferdaløgum og uppgøtvunum. Í þessu øllu voru þeir líkastir því sem Englismenn eru á vorum døgum. Þeir bjuggu fyrir botni Midjardarhafs, þar sem nú heitir Sýrland. Týrus og Sætt (Sídon) voru helztar borgir í því landi. Svo er sagt að Fønisíu menn hafi fyrstir fundið upp purpuran og glerid: sendu þeir hvørutveggja þenna varníng á skipum til annara landa, og seldu jafn dýrt gulli. Sagan segir þeir hafi af hendíngu komist að þessum audæfum. Hundur einn fann purpura skelina, og kom raudur um trýnid til húsbónda síns, kom honum þá til hugar að reyna purpura litinn. Sjófarendur nokkrir sudu mat sinn á sjáfarstrøndu þar sem sandur var undir, og høfdu látid saltpéturs mola undir ketil sinn, þeir tóku eptir því að þá saltpéturinn brádnadi og rann saman við sandinn, vard þar af gagnsær og rennandi vøkvi, og þannig var glerid fundid.

Fønisíumenn áttu verzlun um allar strendur Miðjarðarhafs, einkum á Spáni, og þó sjóferðir væru á þeim tímum miklum hættum undirorpnar, feingu þeir samt þrautir sínar meir enn bættar í landi þessu, með ógrynni gulls og silfurs. Menn þekktu þá ekki leiðarsteininn; en höfðu leiðarvísir af himintúnglum, og þræddu með löndum fram; er sigling sú laungum hættuleg, og brjóta margir á því skip og týna lífi. Þeir sem fyrstir komu til Spánar utan af Fønisíu landi, fundu silfur svo mikið, að sagt er þeir hafi smíðað af því atkeri til skipa sinna. Þeir bygðu borg á Spáni, er þeir kølluðu Gaðir. Þá borg kølluðu Rómverjar síðan Gades, en seinni alda menn Kadix. Fønisíumenn héldu enn leingra norður, sóktu þeir tin og skinnavøru til Bretlands, og menn halda jafnvel, að þeir hafi farið í Austurveg, og keypt rafur, við land það er nú heitir Prússaland. Þeir áttu og siglingar um rauða hafið, og verzluðu við Gyðinga. Þeir komust leingst til ens gullauðuga Ofírs. er menn halda verið hafi austan á Suðurálfu (Afríku).

Af øllum nýlendum Fønisíumanna, er eingin svo víðfræg orðin sem Kartagó. Segir þannig frá uppbafi hennar: Fyrir Týrus réði sá konúngur er Pygmalíon hét, (900 árum f. Kr. b.) allra manna grimmastur og fégjarnastur. Systur átti hann er Dídó hét, hún var gift þeim manni er Sikkeus er nefndur; hann var auðmaður mikill. Pygmalíon myrti hann til fjár. Fór Dídó þá úr borginni, og með henni margir ágætir menn af Fønisíu landi. Þau komu við land

nordan á Afríku ströndum. Keypti Dídó þar land af þeim sem fyrir voru og bygdi Kartagó-borg*). Magnadist borg þessi svo mjög, ad hún lagdi undir sig ekki einúngis nágranna þjódirnar, heldur og flestar eyar í Midjardarhafi. Og vard einhvör hin mesta borg og geigvænlegasta, og átti þad verzlun sinni ad þakka, en þar kom þó ad hún vard ad lúta yfirgángi og drottnunargyrni Rómverja. Sagt er ad Pátur (Thaut) væri Föniciskur ad kyni, er fyrstur manna fann upp leturgjörd.

## Frá Gydíngum á Egyptalandi.

Þjód þessi lifdi á elztu tímum hyrdara lífi, undir svo nefndri fedrastjórn, voru þeir Abraham, Isak og Jakob þeirra helztir. Jakob, sem einnig hét Israel, átti 12 sonu, og var Gydíngum sídan skift í 12 ættkvíslar, og kénndar vid þá. Einn af þessum brædrum hét Jósef. Brædur hans seldu hann til Egyptalands, komst hann þar í mikla kærleika vid konúnginn, því hann var bædi vitur madur og framsýnn og frelsadi, í hallæri sem litlu sídar gekk yfir, bædi Egyptaland og ættmenn sína. Feingu þeir þá jardir til ábúdar á Egyptalandi og flutust þángad. Þegar Jósef var andadur, tóku Egyptalands konúngar smámsaman ad þraungva kostum Israels manna, því þeir héldu ad

*) Sagt er ad Dídó hafi mælst til ad fá svo mikid land keypt, sem hún gæti þanid uxahúd yfir, og þá rist hana í mjóa þveingi og teigt um landhluta þann er Kartagó sídan var bygd á.

þegar fram lidu stundir mundu þeir verda svo mann-sterkir ad þeir treystust ad ná aptur frelsi sínu, og brjót-ast undan yfirrádum Egyptskra.

Fyrir þá sök lögdu þeir á þá þúngar þrautir, en er það dugdi ekki, skipudu þeir ljósmædrum ad taka af lífi öll sveinbörn Gydínga. Hjón ein reyndu ad bjarga syni sínum nýfæddum og létu í körfu útá Níla. En dóttir Faraós*) fann barnid, kalladi þad Móses, og lét kenna því egyptsk frædi. Allt fyrir þad kviknadi skjótt ást Mósesar til ættmanna sinna. Var hann laungum med þeim, og einhverju sinni bar svo vid, ad madur nokkur egypzkur lék gyding einn hardt. Pad sá Móses og vóg þann mann; en vard þá ad leita und-an austur á Arabaland, og hafdist þar vid 40 ár. Loks kom honum til hugar ad frelsa úr ánaud ætt-menn sína. Fór því, og Aron bródir hans med hon-um, hann var manna best máli farinn, á fund Egypta kongúngs, og sær hann til eptir lánga mædu og mörg furduverk, sem heilög Ritníng segir frá, ad veita gyd-íngum burtfararleifi. Pó ydradi Faraó þess brádum, og eltir þá med her manns, en drukknadi í enu Rauda hafi og menn hans allir. En þad er frá Móses ad segja, ad hann kom mönnum sínum heilum og höldn-um inná Arabalands öræfi (hérumbil 1500 árum fyr-ir Krists burd). Par létu Israels menn fyrirberast í 40 ár, og á þeim árum gaf Móses þeim lög, og reglur fyrir helgihöldum, og leitadist hann einkum vid ad banna þeim alla sidblendni vid heidnar þjódir er í

*) Svo hétu Egyptalands konúngar í fornöld.

grend vid þá bjuggu. Til þess ad gefa lögum sínum og tilskipunum enn meira álit, sagdi Móses, ad sjálfur Gud (Jehovah) hefdi birt sér þau á Sinai fjalli. Skömmu seinna andadist hann, og eru honum eignadar enar elztu frásagnir um gydínga, er vid hann eru kendar og kalladar Mósis = bækur. Eptir lát hans, leiddi Josva, foríngi gydínga, þá inní Kanaansland, og eyddu þeir ýmist eda ráku burt þá sem þar bjuggu fyrir; var sídan landinu skipt med þeim 12 ættkvíslum, sem ádur eru nefndar. Þó gátu gydíngar ekki ætíd varid sig fyrir yfirdrottnun nágranna þjódanna. Urdu þeir optar enn einusinni ad beygja sig undir ok þeirra, en miklir menn voru þá jafnan med þeim, sem ráku heidna menn af höndum sér. Þeir menn kölluduſt Dómarar. Einn þeirra var Samson hinn sterki sem flestum mun kunnur.

## Frá konúngum Gydínga: Sáli, Davíd, Salómoni. (Ríkid skiptist).

Samúel hét hinn sídasti af dómurum Gydínga. Hann setti sonu sína tvo til þeirra valda eptir sig. En þeir urdu brátt svo óvinsælir ad Gydíngar beiddu Samúel ad gefa sér konúng. Vard hann ad láta þad eptir þeim, þó honum likadi midur, og setti þann mann er Sál hét til konúngs yfir þá. Sál var höfdi hærri enn adrir menn á Gydíngalandi. Nú þegar hann var ordinn konúngur vildi hann ekki hlýda Samúeli, gjördust þeir þá ósáttir. Samúel var ædsti prestur, og þóttist því vera Gudi handgenginn, og

lýsti því yfir, að Sál vildi ekki hlýða Guðs boðum; og væri hann því þess ómaklegur að vera konúngur. Æðsti presturinn smurði þá Davíð til konúngs. Hann var þá úngur maður. Nokkru síðar féll Sál í orrustu við Filistea, varð Davíð þá konúngur fyrst yfir Júða ættkvísl, og síðan, er Isboset sonur Sáls var andaður, yfir öllum Israels ættkvíslum. Á dögum hans varð Jórsalaborg konúngasetur (1015 árum f. Kr. b.). Davíð konúngur lagði lönd undir ríki sitt, og þótt hann væri í sumu ærið óréttvís, var þó ríkisstjórn hans í mörgu hin ágætasta. Eptir hann kom Salómon sonur hans til ríkis, er Gyðíngar hafa kallað hinn spaka. Hann lét reisa margar skrautlegar byggíngar og var ein af þeim musterið í Jórsölum, er kallað var Salómons musteri. En smíðar þessar ollu því að fé eyddist mjög fyrir honum, og varð hann því að leggja þúnga skatta á þegna sína, en þeir undu því ílla og hófu uppreist móti honum. Hann lét og konur sínar er heiðnar voru telja sig á heiðinna manna trú. Þá er Róbóam sonur hans var kominn til ríkis eptir föður sinn, gjörðist hann enn mesti harðstjóri, og er þjóðin beiddi hann að létta á sér sköttum, svaraði hann: Faðir minn barði yður með svipum, en eg mun gjöra það með sporðdrekum. Þetta sveið mönnum sárt, geingu þá 10 ættkvíslir undan konúngi, og tóku Jeróbóam til konúngs yfir sig. Þannig skiptist ríkið í tvo hluti, (975 árum f. Kr.): Júða ríki sem Róbóam réði fyrir, og Israels ríki sem Jeróbóam stýrði. Hvorttveggja þessara ríkja, sem opt áttust ílls

við, mistu loks frelsi sitt. Ísraels ríki var yfirunnið af Salmanassar, Assyríu konúngi (722), en Júda ríki nálægt 150 vetrum síðar, af enum volduga konúngi Nebúkaðnesar frá Babylon (588).

## Frá Egyptskum í fornöld.

Norðan og austan á Suðurálfunni er land það er Egyptaland heitir. Þjóð sú er þar bygði var í fornöld öðrum fremri að fróðleik og allri mentun, átti hún það að nokkruleiti landslagi og loptslagi að þakka. Þar er móða ein mikil í landi er Nílá heitir, hún flæðir á hverju ári yfir bakka sína, og ber þá leðju yfir, þar sá landsmenn í korni og vex það þar afbragðs vel. En vatnsvöxtur í Nílá kemur af því að mjög er regnasamt inná óbygðum þaðan sem áin kemur. Menn þeir sem upp með henni búa, brenna sef það er með henni vex, en áin ber öskuna niður eptir þegar hún er í vexti, en þegar hún minkar aptur verður askan eptir um merkurnar. — Á elztu tímum var en egyptska þjóð greind í ýmsa flokka. Var hermanna flokkurinn og presta flokkurinn helztir af þeim. Konúngar voru jafnan teknir af enum fyrrnefnda flokki. Í þeim flokki voru 410 þúsundir manns, og höfðu þeir í stað mála, jarðir til umráða. Fróðleikur var allur hjá prestunum, þeir voru einir færir um að lesa úr mindletrinu (Hieroglyfer) í musterunum. Þeir voru ráðgjafar konúnganna, og allt að því eins voldugir og þeir. Auk hermanna og presta flokksins voru akuryrkjumenn, handiðnamenn og hirðarar. Hirðarar voru aptur tvenn-

slags, nautahirdarar og svínahirdarar. Lögdu menn mjög óþokka á svínahirdara, og þóktu þeir vera svo litid ad manni, ad einginn vildi hafa mök vid þá. Þad var einkenni allra þessara flokka, ad jafnan skyldi sonur verda þad sem fadir hans var, hvört sem hann svo var fær um þad edur ekki. Egyptskir menn dýrkudu marga gudi, þar á medal Osíris og Isis og svartan gridúng er þeir kölludu Apis. Þeir trúdu enu svo nefnda Sálnaflakki, og héldu ad sálir manna færu eptir daudan í eitt edur annad kvikindi. Þeir kunnu þá list ad smyrja dauda menn svo, ad rotnan felngi eigi unnid á þeim um margar aldir; eru enn til á vorum dögum líkamir er enir fornu Egyptar hafa smurt; þá kalla menn múmíur (smyrdlínga?) Ymsir af Egyptalands konúngum létu reisa stórbyggíngar og minnisvarda. Má einkum nefna steinvardana (Pýramídar og Obeliskar). Pýramídarnir voru ferhyrndir, uppmjóir steinvardar fjarska háfir. Er sá einna mestur (hérumbil 600 feta hár) er Keops konúngur lét gjöra, enda var hann svo ákafur í störfum sínum ad hann lét loka öllum hofum, svo þeir sem ad verkinu unnu skyldu ekki tefja sig vid helgi höldin. Obeliskarnir voru ferhyrndir vardar af einum steini, nokkru minni enn Pýramídarnir, sá hærsti var 180 feta hár. Hinn elzti pappír var gjördur á Egyptalandi af berki pappírsplöntunnar. Seinna fundu menn upp Pergament, er gjört var af kálfsskinni, og kent er vid Pergamusborg í Asíu minni, hvar þad var fyrst tídkad.

## Sesostris, Psammetikkus og Amasis

voru nafnkendastir allra Egyptalands konúnga í fornöld. Sesostris fór einhvörju sinni, en vér vitum ei gjörla hvönær, herferd til Blálands, þad er sudur af Egyptalandi, þadan til Arabalands og ens auduga Indlands. En er hann hafdi farid yfir þessi lönd, herjad þar og rænt, hélt hann til Nordurálfu, þángad sem Tracia heitir. Lét hann allstadar reisa minnisvarda, til þess ad seinni alda menn gæti sjed nokkurn vott afreksverka sinna. Medan hann var á ferdum þessum, hófst uppreist á Egyptalandi; vard hann þá ad snúa heim aptur. Fékk hann sefad uppreistina, og vardi því sem eptir var æfinnar til ad efla hag þjódar sinnar. Hann lét grafa síki um landid, til þess menn gæti veitt Nílá yfir þad. Hann lét og hlada mikinn gard austur á landamærkjum, til varnar móti árásum þeirra Asíu manna. En þad er sagt um Sesostris ad hann ofmetnadist svo mjög af sigursæld sinni, ad hann léti konúnga, þá er hann hafdi sigrad, draga vagn sinn. Einn af konúngum þessum hafdi þad ad venju ad skoda eitt af hjólunum undir vagni Sesostris. Sesostris spyr hann, því hann gjördi svo. Konúngur svaradi: þegar eg sje hjólid snúast, þá kemur mér ætíd hamíngja manna til hugar, sem ýmist hefur þá mjög hátt, edur varpar þeim í afgrunn nidur. Sagt er ad Sesostris hafi látid sér þetta ad kenníngu verda, og ordid betri madur eptir.

Nokkrum öldum seinna vard Psammetikkus frægur konúngur á Egyptalandi. Fyrst rédi hann ásamt

ellefu konúngum ödrum fyrir landinu. Medan þessir 12 menn sátu ad völdum, var hid nafnfræga Völundarhús (Labyrinth) á Egyptalandi bygt. Því var skipt í 12 adalhluti, en alls voru í því 3000 herbergi, voru 1500 nedanjardar, en önnur 15 ofanjardar. Má vera ad híbýli þessi hafi verid ætlud til legstadar þessum 12 konúngum. Loks nádi Psammetikkus einn yfirrádum yfir Egyptalandi. Sagt er at honum ok sá sem offradi af koparskál skyldi komast til valda. Eitt sinn er enir 12 konúngar geingu til musteris þess erindis ad færa gudunum fórnir, hafdi prestirinn ekki nema 11 offurker. Psammetikkus var yngstur og var því látinn mæta afgángi. En honum vard ekki rádafátt; hann tók hjálminn af höfdi sér og offradi af. Nú héldu hinir ad godasvarid hefdi rætzt á honum, og, til þess ad sjá sjálfum sér borgid, viku þeir honum frá stjórninni. En einmidt þetta vard honum til upphefdar: hann fékk menn til lids vid sig úr Jóníu og Karíu, og sigradist med adstod þeirra á medstjórnendum sínum. Þannig rættist annad godasvar sem sagt hafdi, ad sá sem hefdi í lidi med sér stálklædda edur málmklædda menn skyldi sigur vinna. Karir og Jónar geingu í fágudum herklædum, og mátti því vel kalla þá málmklædda. Þegar Psammetikkus var kominn til valda, lét hann sér mjög annt um ad efla kaupverzlun ríkisins, og leitadist einkum vid ad koma egyptskum í kunníngskap vid Grikki. Karir og Jónar gjördust landvarnarmenn hans, og fyrir því fóru margir af hermannaflokknum til Blálands. Eptirkomendur hans stýrdu

lengi síðan Egyptalandi; var Apries konúngur þeirra síðastur. Hann var rekinn frá ríkjum af Amasis, er í fyrstu var málamaður en varð að lyktum konúngur. Apries herjaði á Syreneborg og fekk ósigur; gjørðu þá liðsmenn hans uppreist. Var Amasis sendur til að sefa uppreistarmennina, en þeir tóku hann til foríngja yfir sig, og hélt hann þá til móts við Apries og neyddi hann til að leggja niður stjórnina. Amasis var hinn vitrasti konúngur, og þó sýndist sem menn gæti ekki gleymt því að hann var af lágum stigum. Fyrir því kom honum til hugar að sýna þjóðinni, að hið innra ágæti manns ætti einúngis virðíngu skilið. Hann lét bræða gullskál eina, er áður hafði verið brúkuð til handlauga, og gjøra úr henni líkneski; var það svo dýrkað eins og ønnur skurðgoð. Amasis sagði nú frá til, hvørs gullið hefði áður verið haft, og bar svo líkneskju þessa saman við sjálfan sig. Hann var góður konúngur, gjørði nánara samband við Grikki, og gifti sig grískri konu. Skømmu eptir andlát hans urðu Egyptalandsmenn að lúta veldi Kambysesar, ens grimma og volduga Persa konúngs. Hann braust inní Egyptaland með her manns, á døgum Psammenítusar sonar Amasis konúngs (525) vann sigur á egyptskum hjá Pelúsíum, og gjørði landið að persisku skattlandi. Svo er sagt að Kambyses léti vera fremst í liði sínu fjølda mikinn þeirra dýra er egyptskir menn blótuðu, svo þeir yrðu því deigari til aðsóknar, en honum því vissari sigurinn. Herfør hans til Blálands tókst miður; týndist mestur hluti liðsmanna hans á

eydimørkum, og vard hann ad snúa aptur vid svo búið. Líkadi honum þad stór illa, og lét egyptska menn gjalda, og vann á þeim mørg grimdar verk, drap hann fyrir þeim uxa þann er þeir blótudu og Apis hét, og gjørdi þad til spotts vid trúarbrøgd þeirra. Fyrir þá søk hafa egyptskir klerkar borid Kambysesi illa søguna, þar sem þeir hafa hans getid.

## Unnin Trójuborg.

Nordan og vestan á Litlu Asíu, í héradi því er Mysía hét, stód Trójuborg. Segja menn ad sá héti Tevser, og væri úr Krítey, er fyrstur bygdi hana. Krítey var mjøg nafnkunn í fornøld medan þeir Satúrnus og Júpíter sátu þar ad vøldum. Trójuborg fekk þau afdrif er sídan hafa gjørt hana alkunna. Príamus, er þar var seinastur konúngur, átti þann son er París hét. Hann fór til Grikklands, og sókti heim Menelás Spartverja konúng. Í þeirri ferd sá hann drottníngu Menelásar, Helenu føgru, og lagdi á hana ástarhug og hafdi brott med sér til Trójuborgar; en Menelás konúngur var þá ekki heima í ríki sínu. Einusinni ádur var Helena numin burt frá Tyndareifi fødur sínum; hétu þá allir høfdíngjar Grikkja honum, ad þeir skyldu sækja hana, og allur her þeirra, í hendur þess manns er næstur hlypi burt med hana. Efndu þeir nú þad heit. Gjørdist Agamemnon konúngur, er rédi fyrir Argos og Mykene, og bródir Menelásar, foríngi fyrir Grikkja her. Héldu Grikkir flota sínum yfir til Litlu Asíu, og voru saman 100 þúsundir

manna á 1200 skipum, og settust um Trójuborg. En Asíumenn, þeir er næstir bjuggu, komu til liðs við borgarmenn. Feingu Grikkir eigi unnið hana í 10 ár, og olli því einna mest sundurþykkja enna grísku herforíngja. Akkilles teisaliskur kóngsson, enn hraustasti meðal Grikkja, deildi við Agamemnon um Briseidi ena fögru, er hann hafði tekið frá Akkillesi, og þó hinn málsnjalli Nestor frá Pýlusborg reyndi að koma sætt um á, gjörðist með þeim fullur fjandskapur, svo Akkilles streingdi þess heit, að gánga eigi framar í lið með Grikkjum. Liðu svo lángir tímar. En er Hektór Príamusson hafði fellt Patróklus félaga hans, mátti Akkilles ekki leingur sitja hjá, og æddi fram á móti enum ágæta Hektóri, vóg hann og dróg dauðan eptir vagni sínum. Þó fekk Príamus konúngur síðan líkama sonar síns hjá honum. Enn stríðið stóð leingi, og hallaðist heldur á Grikki, einkum eptir að Paris hafði skotið Akkilles til bana, liðu svo 10 ár að Grikkir örvæntu þess að fá unnið borgina. Þá fann Odysseifur Iþöku konúngur upp þá vél, að Grikkir náðu borginni. Grikkir smíðuðu ógurlega stóran tré-hest, létu sem þeir mundu burt fara, en leyndu flota sínum í leyni undir Tenedus ey. Einn af Grikkjum varð eptir, og taldi Trójumönnum trú um, að það mundi verða þeim til mikillrar hamíngju ef þeir kæmi hestinum inní borgina. Og með því Trójumenn fögnuðu mjög yfir burtför Grikkja, urðu þeir heldur til auðtrúa. Til þess að koma hestinum inní borgina, urðu þeir að rífa stór skörð í múrana; settust síðan að veizlu og voru

vel kátir. En það er frá Grikkjum að segja, að þeg-
ar nótt var komin, snéru þeir aptur til borgarinnar,
og fóru þar inn um, er brotið hafði verið skarð í múr-
ana. Voru borgarmenn þá allir í svefni, og fundu
þeir ekki fyrri enn hús þeirra stóðu í ljósum loga.
Sló nú á þá miklum ótta. Féll þar nálega hvert
mannsbarn, og Príamus konúngur og ættmenn hans
allir, nema Æneas og Antenór, (hérumbil 1200 át
f. Kr.). Æneas bar Ankíses föður sinn á herðum sér
úr eldunum, og lét í haf, en fékk volk mikið og hrakn-
ínga, til þess er hann náði landi á Italíu. Fékk
hann beztu viðtökur hjá Latínusi Aborigína konúngi;
gaf konúngur honum dóttur sína er Lavinia hét. Frá
honum eru Rómverjar komnir. Antenor nam land
upp frá Feneya botni, og er mælt hann hafi byggt þar
sem nú stendur Padúaborg. Þeir hétu Henetar sem
með honum voru.

En sem Trójuborg var unnin, snéru Grikkir apt-
ur heimleiðis, og rötuðu margir af þeim í miklar
raunir áður þeir kæmust heim. Einn þeirra var O-
dysseifur, er leingi hraktist milli landa. Hann kölluðu
Rómverjar Ulysses. Hefir Hómerus, hið elzta skáld
Grikkja, orkt um ferðar hans drápu þá er kölluð er
Odysseifs drápa (Odyssea). Aðra drápu hefir Hó-
merus orkt um Trójumanna stríð, einkum afrèksverk
Akkillesar, sú drápa heitir Ilíu drápa (Ilias), því
Trójuborg hét Iliuborg öðru nafni.

## Frá Grikklandi fyrir Trójumanna stríd.

Laungu fyrr enn Trójumanna stríd vard, var þjód sú mönnum kunnug er Hellenar nefndist, eptir Hellennsi syni Deifkalions konúngs. Þá þjód kölludu Rómverjar Grikki (Græci), líklega eptir einhverjum fyrirlida edur ættkvísl, er þeir hafa þekkt. Elztu frásagnir um Grikki eru mjög ósennilegar. Á dögum Deifkalions er mælt ad vatnsflód mikid hafi komid yfir landid. Sagt er og, ad Grikkir væri framanaf viltir mjög, höfdust þeir vid á skógum og mörkum úti, og lifdu af aldinum, en áttu sér hvörki stjórn edur bygdar borgir. Smámsaman nádu þeir framförum í allskonar mentum, var þad einkum tvennt er ad því studdi, bædi landskostir Grikklands og landnám útlendra manna. Nálægt 1550 árum f. Kr. b. kom Sekrops þángad sunnan af Egyptalandi, og nam land í Attíku, og bygdi þar sem sídar var Atenuborg. Um þær mundir kom Kadmus frá Føniśíu og bygdi Kadmusar borg eda Tebu borg í Bøjótíu. Nokkru seinna komu þeir Danaus frá Egyptalandi og Pelops frá Litlu Asíu til Grikklands. Vid Pelops er kénnd Pelopsey (Peloponnesos). Med því nú landnámamenn þessir komu frá þeim þjódum er í þá tíd voru best mentadar, áttu þeir mikinn þátt í framförum Grikkja, er seinna gjördust svo miklar, ad þeir bátu lángt af ödrum þjódum. Þeir kénndu Grikkjum nýja og betri lifernisháttu, ad flytja saman og búa í borgum, lifa í hjónabandi, leggja stund á akuryrkju, verdslun og siglíngar. Þá lærdu Grikkir málmsmídi og leturgjörd, og gudafrædi þeirra

varð skipulegri enn áður, þó henni væri enn í mörgu ábótavant, og þeir dýrkuðu mörg skurðgoð (Polýtheïst-ar) eins og aðrar þjóðir í fornöld. Var guðafræði Grikkja einkum komin frá Egyptalandi og Föníþíu*). Prestarnir stóðu fyrir öllum helgihöldum, er að mestu-leiti voru innifalin í offurgjörð og útvortis helgisiðum, fór það jafnan fram í goðahofum. Þegar eitthvört vandamál bar að hendi, leituðu Grikkir frétta hjá guð-unum, hvör verða mundi málalok. Svör þau er prest-arnir gáfu í nafni guðanna hétu Véfrétt (Orakel), og sama nafni nefndist einnig sá staður, hvar véfréttin var gefin. Apollos véfrétt í Delfis var hin nafnfrægasta.

Géta verður hér, og þó með fáum orðum, hins Argonátiska leiðángurs, er var einhvör hin fyrsta sjóferð Grikkja. Jason hét einn kóngsson í Tessa-líu, hann heyrði gétið gullreifisins í Kolkalandi (lík-lega meinast með því mikil auðæfi). Jason fýsti að ná reifinu, gekk því á skip (Argó), og með honum einir vöskustu menn af Grikklandi; var einn af þeim Her-kúles sterki (1250 f. Kr.). Á þeim tímum voru siglíngar mjög skjaldgæfar; fóru þeir með löndum fram

*) Seifur (Zeus, Jupiter) var allra guða æðstur, og hafði aðsetur sitt á Olympus fjalli með öðrum stór guðum. Meðal þeirra var Hera (Juno) kona Seifs. Posidón (Neptunus) Sjáf-ar Guð. Hades (Pluto) Undirheima guð. Ares (Mars) Her-manna guð. Afrodite (Venus) Ástar gyðja. Atena (Minerva) Visdóms gyðja. Apollo Skáldmanna guð. Artemis (Diana) Veiði gyðja, og fleiri. Auk þessara guða dýrkuðu Grikkir aðra smærri guði sem þeir héldu að ættu sér búústaði í hofuðskepnun-um, og þar að auki ymsa helga menn og hálf guði (heroes)

þar til þeir komu við Kolkaland; tóku þeir þar gullreifið og létu þar eptir nýlendu menn. Jason hafði og á brott með sér Medeu dóttur Aetesar konúngs er þá réði fyrir Kolkalondum.

Herkúles var strax eptir dauða sinn settur í guða tölu og dýrkaður, hann var sonur Amfitryós og Alkmene. Á únga aldri varð hann mannsbani, og sendi því faðir hans hann til Tebuborgar, og ólst hann þar upp. Meðan hann dvaldi þar, tók Evrysteifur frændi hans undir sig Tirynþu ríki, er Herkúles var borinn til. En sem Herkúles kom heim aptur, óttaðist Evrysteifur afl hans, og lagði því fyrir hann þær þrautir, er Herkúles þrautir eru síðan kallaðar, og menn héldu óvinnandi. En Herkúles leysti allar þrautirnar, og varð mjög frægur af. Auk þessa eyddi hann víða ránsmönnum og spillvirkjum og villidýrum, var af hvorutveggjum enn mesti grúi þar í landi. Þókti Grikkjum Herkúles vera fyrirmynd annara manna á þeim tímum að öllum hetjudygðum, þó hann væri í sumu nokkuð stórbrotinn. Sagt er að Deianíra kona hans hafi þókt hann vera sér ótrúr, og hafi því birlað honum þann drykk, er jók honum svo mikilla kvala, að hann fleygði sér á bál og brann til dauða.

## Frá afkomendum Kadmusar, einkum Odipusi.

Höfðíngjar þeir sem frá Kadmusi eru komnir, og sátu að völdum í Tebuborg eru þjóðkunnir orðnir af ógæfu þeirri er sumir af þeim ratuðu í. Lajus hét

madur, hann var þridji madur frá Kadmusi; kona hans hét Jókasta. Son áttu þau er Ödipus hét. Því var spád fyrir honum, ad hann mundi koma mørgu íllu af stad. Létu foreldrar hans fyrir þá søk bera hann út, en hann fannst, var fluttur til Korintuborgar og ólst þar upp. En er vefréttin seinna varadi hann vid ættjørdu sinni, festi hann ekki leingur yndi í Korintuborg, er hann hélt ad vefréttin hefdi meint. Á leidinni mætti hann Lajusi fødur sínum, og þekkti hvørigur annan. Urdu þeir missáttir og lauk svo vidskiftum þeirra, ad Lajus féll fyrir Ödipusi. Sídan fór Ödipus leidar sinnar og kom til Tebuborgar. Þar voru menn hljódir mjøg vegna býsna þeirra er skrímsl þad gjørdi, er Sfinx hét. Sfinx sat á hamri einum, og bar upp gátu fyrir hvørn mann sem um veginn fór, og hratt þeim øllum ofan fyrir bergid er ekki gátu rádid gátuna. Því hafdi verid spád ad hvønær sem gátan yrdi rádin, skyldi vandrædum þessum létta, og fyrir því var þeim sem rédi hana heitid drottníngunni og ríkinu ad verdlaunum. Ödipus fékk rádid gátuna og giptist svo módur sinni*). Fylgdi þeim ósköpum en mesta drepsótt í landinu. Um sídir komust menn ad orsøkunum, vard Ödipus þá vitstola, en Jókasta fyrirfór sér af mikilli ørvílnun. Eptir þad áttu þeir brædur synir Ödipusar, Eteokles og Polynífes, ad ríkja til skiftis, en brátt urdu þeir missáttir, og

*) Sfinx bar upp gátuna þannig: hvør er sú skepna er á morgnana geingur á fjórum fótum, um middegi á tveimur, og á kvøldum á þremur. Ödipus svaradi: madurinn.

varð Polyníses að flýa til Pelopseyar. Gjörðust þar ýmsir høfðíngjar til að styrkja hann til hefnda móti bróður sínum. Þeir bræður hittust og børðust á hólmi, lauk svo að báðir féllu, en af høfðíngjum þeim er voru með Polyníſesi, kom ekki nema einn heim aptur. Synir høfðíngja þessara (Epigonar) hefndu síðan feðra sinna og løgðu í eyði Tebuborg; reis hún ekki aptur úr rústum, fyrr enn eptir viðureign Grikkja og Trójumanna.

## Frá Teseisi.

Þá er Jason fór að sækja gullreifið, var í før með honum Teseifur, sonur Egeifs konúngs í Attíku eður Atenuríki, er Sekrops enn egyptski hafði fyrstur lagt grundvøllinn að. Egeifur konúngur átti á ferðum sínum Teseif við Aëtru, dóttur kóngsins í Troëzene. Er sagt að Egeifur hafi, áður hann fór úr Troëzene, lagt sverð sitt og skó undir stein einn mikinn, og mælt svo fyrir, að Teseifur skyldi þá vitja á sinn fund, er hann feingi hafið upp steininn. Á leiðinni til Atenuborgar mætti Teseifur stigamønnum og drap þá. Hitti síðan Egeif, og gekkst hann við faðerni hans. Um þær mundir hófst uppreisn mikil þar í landi, fékk Egeifur konúngur sefað hana með aðstoð Teseifs. Litlu síðar vann hann ættjørðu sinni hið mesta þarfaverk. Mínos Kríteyar konúngur átti þann son er Androgeifur hét; hann drápu Atenumenn, og fyrir því þraungvaði Mínos þeim til að gjalda sér í skatt, sjø sveina og sjø meyjar, er árlega skyldi sendo til Krít-

eyar, og, ad því er sagan segir, offra Mínótárusi. Var þad hinn mesti óvættur og hafdist vid í Vølundar húsinu þar á eynni. Teseifur bauzt ad fara þá ferd, til ad leysa Atenuborgar menn undan skattinum. En sem hann kom í Krítey lagdi Ariadna kóngsdóttir ástarhug á hann, og segir honum hvornig hann fengi komist úr Vølundar húsinu. En sem hann hafdi drepid Mínótárus, hljóp hann á brott med kóngsdóttúrina, en lét hana þó eptir á Naxey. Eptir þad hélt hann til Athenuborgar, en gleymdist ad láta fødur sinn vita, ad hann væri sloppinn úr hættu og heim kominn, var þad þó ádur rádgjørt med þeim. Hélt því Egeifur hann daudan, og hljóp fyrir bjørg í haf þad er sídan er vid hann kénnt og kallad Egeifshaf. Teseifur vard konúngur eptir fødur sinn, og sameinadi allar þær smá borgir, tólf ad tølu, er ádur til samans kølludust Atenuríki, setti þeim øllum løg, og skifti þjódinni í 3 flokka: Lenda menn, Akuryrkju menn og Handidna menn. En þó Teseifur væri þarfur konúngur, vard hann þó ad láta ríki sitt og rýma af landi burt søkum óeyrda, er hófust gegn honum, og andadist hann á Skýrus-ey í Grikklandshafi. Padan flutti Símon, 800 árum seinna, moldir hans til Atenuborgar, og reistu menn honum þar musteri.

## Frá Kódrusi.

Kódrus var sídastur konúngur Atenuborgar manna. Pá er Heraklídar (svo nefndust afkomendur Herkúles-

ar) og Dórar höfdu lagt undir sig Pelops ey, rédust Dórar á Attíku (1068 árum f. Kr.). Leitudu menn þá, eins og vandi var til þegar eitthvört stórrædi bar ad höndum, frétta hjá gudinum í Delfis hvör endir mundi verda á ófridi þessum. Gudinn svaradi: ad sú þjód er léti konúng sinn, mundi sigur fá. Rédi þá Kódrus þad af, ad láta lífid fyrir ættjördu sína. Þessu næst fór hann til herbúda óvina sinna, og hitti þar einn mann af lidi þeirra. Vid þann mann bardist Kódrus og féll. En sem Dórar frétta ad konúngur Atenumanna er fallinn, hverfa þeir burtu sem skjótast. Þá lýstu Atenumenn því yfir, ad einginn væri þess verdur ad vera konúngur þeirra nema Seifur einn. Breyttu þeir þá landsstjórn sinni, og í stad þess ad ádur voru þar konúngar, tóku þeir yfir sig þá menn er þeir kolludu landstjóra (Arkontar). Skyldu þeir vera 9, hafa völdin á hendi æfilángt, og þau í erfdir gánga. Fyrstur þessara landstjóra var Medón sonur Kódrusar. En Níleifur bródir hans fékk eingan þátt í stjórninni, og fór því yfir í Asíu, og med honum mikill fjöldi Jóna; námu þeir lönd vestan á Litlu Asíu, þar sem sídan hétu Jóna-Nýlendur, og nádu mikilli frægd í vísindum og íþróttum, en ad lokunum brutu Persa konúngar þau lönd undir sig.

## Frá Lykúrgusi, Löggjafa Spartverja.

Í Spörtu (í Pelopsey) sátu jafnan tveir konúngar, af ættum Heraklída, ad völdum. Einn þeirra er nefndur Polydektes. Þegar hann dó, átti hann

eingan son eptir sig; skyldi því bródir hans er Lykúrgus hét, taka rikid eptir hann, en med því drottníng Polydektesar var med barni, og verda mátti hún ætti son, vildi Lykúrgus einúngis hafa tilsjón med rikis stjórninni. En drottníng fór því á flot vid hann ad hann ætti sig, kvadst hún mundi fyrirfara barni sinu svo hann kæmist til rikis. Lykúrgusi reis hugur vid illrædi þessu, en lézt þó mundi fallast á þad, og beiddi hana sá sér barnid þá þad fæddist, svo hann gjæti sied fyrir afdrifum þess. Drottníng játadi því, þar hún hélt ad þetta væri hans einlægur vilji. En þad brást, því hann lét kalla sveininn Karilás, og taka til konúngs yfir Spartverja. Sveid nú Drottníngu mjøg sáran, og leitar allra bragda ad hún mætti ná hefndum á Lykúrgusi. Til þess ad komast hjá ofsóknum hennar, fór Lykúrgus af landi burt, og hélt til Kríteyar og Litlu Asíu: er þad søgn manna ad medan hann dvaldist á Krítey, hafi hann kynnt sér løg Mínós ens spaka. En frá Asíu hafdi hann med sér kvædi Hómers skálds. Medan Lykúrgus var erlendis, gjørdust ýmsir til ad vekja óeyrdir heima í Spørtu, urdu menn þá ad leita hans ráda til ad sefa óeyrdirnar. Því næst var honum falid á hendur ad semja løg, og tók hann ad sér þann starfa, en leitadi ádur ráda hjá gudinum í Delfis, og fékk þad svar: ad Sparta mundi verda en frægasta borg fyrir sakir laga hans. Hann hóf ad semja løgin 880 vetrum fyrir Krists burd. Er þad eitt í þeim løgum: ad konúngar skyldu vera tveir eins og fyrr, en til þess

þeir vanbrúkudu eigi vøld sín, skipadi hann jafusídis þeim 28 mønuum í ráð, er allir væri sextugir að aldri. Það var tilgángur Lykúrgusar að gjøra Spartverja hardfeinga menn og hrausta. Fyrir því vildi hann eyða øllum ójøfnudi og øllu óhófi medal þeirra. Landinu skifti hann øllu í jafna hluti, og feingu borgarmenn 9000 jardir, en sveita menn (þeir sem á landsbygdinni bjuggu) feingu 30.000. Ekki mátti adra peninga brúka enn járnpeninga, voru þeir svo stórir og óþægir í allri medferð, að þeir voru naumast hafandi medal manna. Uppheldi barna var alþjóðlegt og einkar strángt. Menn møtuðust allir saman, og var matur mjøg vidhafnar lítill og gómleidur, t. a. m. hið svo nefnda spartverska saup. Hernaður var en helzta sýslan þeirra; geingu þrælar að búsýslu allri og jardyrkju, þeir hétu Helótar. Voru Spartverjar vid þá enir grimmustu. Þegar þeir héldu að þrælar þessir mundu fjølga um of, sendu þeir únga menn og hrausta úr Spørtu til að drepa þá hraustustu af þrælunum. Þá er Lykúrgus hafði samið þau løg, er hann hélt Spartverjum mundi verða að mestum notum, bjóst hann til utanferdar, en ádur hann færi lét hann landsmenn vinna sér þaun eið, að þeir skyldu halda løg hans til þess er hann kæmi aptur. Eptir það fór hann af landi burt, og sá það aldrei sídan; en til þess Spartverjar gætu ekki sagt sig lausa af eidnum, baud hann að brenna líkama sinn að sér látnum, og varpa øskunni í sæinn.

# Vidureign Spartverja og Messeníu manna.

Sá var tilgángur Lykúrgusar er hann samdi løgin, ad Spartverjar skyldu verda hraust þjód, ekki til þess ad vada uppá adrar þjódir ad fyrra bragdi, heldur til hins, ad géta varist óvina áráſum þegar á þá væri leitad. En skjótt gleymdu þeir þessu, og urdu Messeníu menn nágrannar þeirra fyrstir er sæta máttu yfirgángi þeirra. Messenía liggur vestur af Spartverja landi, eru þar landskostir betri enn í Spørtu. Tóku nú Spartverjar ad ásælast þetta land, og skorti þá eigi þrætu efni. Fyrst gáfu þeir Messeníu mønnum þad ad søk, ad nokkur úngmenni þeirra hefdu misþirmt Spartverskum konum er geingid hefdu til Díønu hofs þar á landamærum. Því næst jókst hatur þeirra til fulls og alls af þeim atburdi er nú skal gétid: Madur hét Polykares. Hann bjó í Messeníu. Hann var audugur madur ad gángandi fé. Eitt sinn kom hann fé sínu á beit hjá spartverskum manni þeim er Eisefnus hét. Hann var madur ágjarn og hugsar nú þad rád, hvørnig hann megi ná undir sig hjørdinni. Selur hann féd kaupmanni einum, og lætur berast út ad ræníngar hafi hrifsad þad, voru og til þess mikil líkindi á þeim tímum. En svo fór, ad svik þessi spurdust, og heimtar Polykares skadabætur; lofar Eisefnus þeim, ef hann sendi son sinn ad vitja þeirra á sinn fund. Polykares gjørir svo; en í stad þess ad láta bætur koma fyrir féd,

vegur Eifefitus hinn únga mann. Nú leitar fadir hans til Spørtu og krefst ad hefndir komi fyrir ill-verk þessi. Því var finjad, og þarf ekki ad undra, þótt Polykares reiddist og dræpi nokkra menn spart-verska er mættu honum á heimleid sinni. Nú heimt-udu Spartverjar, ad Polykares væri framseldur, en sem því var neitad, hófst hid fyrra messeniska strid er stód í 19 ár, (frá 743 til 724 f. Kr. b). Spart-verjar héldu lidi sínu til Messeníu, og streingdu þess heit, ad snúa ekki heim aptur fyrr enn þeir hefdu lagt landid undir sig. En þeir hittu þá vørn fyrir er þá hafdi sist grunad. Messeníu menn bjugguft fyrir i Iþómu kast-ala, og vardi Aristódemus konúngur þeirra hann dreingi-lega. En um sídir þrutu fyrir þeim vistir, og þá biladi Aristódemus svo hug, ad hann fyrirfór sér, en kastalinn gáfst upp fyrir Spartverjum, og Messenia komst í hønd-ur þeim. Medan á ófridi þessum stód, var Tarentu-borg á Italíu reist, og bar þad þannig til: Spart-verjar høfdu, eins og ádur er sagt, heitid því ad snúa eigi heim aptur fyrr enn þeir hefdu sigrast á óvinum sínum. En med því þeir óttudust ad mannfólkid mundi fækka um of í Spørtu, ef þeir væri leingur ad heim-an, sendu þeir únga menn heim, er ekki høfdu svar-id eidinn, til þess ad halda vid lídi mannfjølgun. Børn þau er þannig voru tilkomin kølludust Parþenar. En sem ófridnum linnti, vildu Spartverjar ekki kannast vid ætterni þeirra og borgara rétt. Undu hinir því illa og gjørdu samtøk vid Helóta, en rádagjørd þeirra vard mønnum kunnug, voru þeir þá reknir burt úr Spørtu.

Gjørdist sá madur er Falantus hét, fyrirlidi þeirra, og fóru til Italíu, bygdu þar Tarentuborg, er um lánga æfi var einhvør en hélzta borg og ríki á Vallandi enn Sydra.

Nú voru Messeníumenn um hríd undir veldi Spartverja. En þar kom ad lyktum, ad þeir gátu ekki leingur rísid undir ánauð þeirra; skorti þá nú þann mann er verid gæti oddviti þeirra, og útvegad þeim aptur frelsi sitt. Madur hét Aristomenes, hann var kominn af enni fornu konúnga ætt þeirra Messeníumanna; bjó honum hvørttveggja í brjósti, bædi hatur til Spartverja og ást á ættjørdu sinni. Hann gjørdist fyrirlidi landa sinna, áttu þeir margar orrustur vid Spartverja, og høfdu jafnan sigur. Þókti Spartverjum nú horfa til vandræda og spurdu gudinn til ráds; en hann svaradi, ad þeir skyldu leita á fund Atenumanna, og bidja þá um lidshøfdíngja. Þetta ráð þekktust þeir, og var þeim sendur Tyrtæus halta skáld. Og þó hann gæti eigi geingid í orrustur, kveiktu hersaungvar hans hug og dug í brjóstum Spartverja. Loksins unnu þeir sigur á Messeníumønnum med svikrádum Aristókratesar Arkadíu konúngs, er þó var bandamadur þeirra. Bjuggust þeir nú fyrir í kastala þeim er á Eiri hét, brauzt Aristomenes opt úr kastalanum med flokk manna, og rænti akra Spørtumanna. En eittsinn hætti hann sér ofláungt og vard þá handtekinn. Sídan var honum og félø.um hans kastad í afardjúpa grvfju er Keada hét, skyldu þeir láta þar líf sitt med miklum harmkvælum. Var nú eigi annad líklegra enn úti væri um Messe-

níu. Enn merkllegur arburdur frelsadi líf kappans. Haun kom ófkemdur nidur í grysjuna, en þar var ekki annad ad líta enn ógn og skelfíngu, þar lágu menn í andarslitrum, rotnir manna búkar og órotnir. Situr hann þar um hríd og væntir dauda síns. Því næst heyrir hann ad eitthvad bærist í kríngum sig, leitar nú fyrir sér og verdur var vid kvikindi nokkurt, er komid hafdi innum smugu á bjarginu og var ad eta mannabúka. Aristomenes grípur í skott dýrsins, en þad leitar út med hann, og med því móti kémst hann úr gryfjunni. Þóktust menn hans hafa heimt hann úr helju, og vard þar mikill fagnadar fundur. Stód Spartverjum enn um stund ótti af hreysti hans. Um sídir komust Spartverjar ad kastalanum, og feingu tekid hann, en þó med vélum. Svo bar vid, ad þræll einn er hlaupid hafdi úr lidi þeirra var staddur á Eiri. Hann hlýddi á tal Messeníumanna, sagdi einn er úti hafdi verid, ad vardmenn allir hefdu geingid af vördunum vegna ofvidurs er á var úti, mundi nú óvinum þeirra veita hægt ad ná kastalanum ef þeir vissi þad. En er þræll inn hafdi heyrt þad, skundar hann sem fyrst til sinna landa og segir þeim frá. Fara nú Spartverjar leynt stíg einn og komast uppí kastalann ad þeim Aristomenesi óvörum. Hlaupa þeir til vopna, og verjast af mikilli hreysti, en er þeir sáu ad þeir mundu eigi leingur fá varist, búast þeir til ad yfirgefa kastalann. Gjördu þá Spartverjar hlid á fylkíngar sínar og létu Aristómenes gánga þar út um í fridi; verdur ei med sanni sagt hvört heldur þeir gjördu þad af ótta, edur af virdi-

íngu við hann. Tóku nú Spartverjar Eiri, og gjörðu Messeníumenn þá er eptir urðu að þrælum sínum. (668 f. Kr. b.).

Aristómenes hélt nú til Arkadíu, og ætlaði sér að vinna þar eitthvört gagn ættjörðu sinni, en er það vildi ekki heppnast, fór hann til Litlu Asíu, og andaðist þar. Hann átti þann son er Gorgus hét, og fór sá með svelt manna úr Messeníu til liðs við Rhegíuborgar menn móti víkingum frá Zankles borg. Tóku þeir Gorgus borg víkinga og settust þarað og kölluðu hana Messana; en nú heitir hún Messína. Það er á Sikiley.

Litlu fyrir hin messenisku stríð hófust enir svo nefndu Olympisku leikar. Frá þeim reiknuðu Grikkir tímatal sitt. Leikar þessir voru í raun réttri haldnir Seifi til heiðurs, fimmta hvört ár, og stóðu yfir í fimm daga; fóru þar fram bæði blót og íþróttir: ekið á vögnum, glímt, kastað til marks, og fl. Sá maður hét Ifitus er endurnýaði þá, höfðu þeir lagst niður um hríð. Voru þeir haldnir hið fyrsta sinni 776 árum f. Kr. b., í bæ þeim er Olympía hét í Elis héraði, höfðu þeir þaðan nafn sitt.

## Frá Sóloni, Löggjafa Atenumanna.

Frá því er Lykúrgus hafði gefið Spartverjum lög sín, liðu lángir tímar til þess er Sólon var á dögum og samdi lög fyrir Atenumenn. Þess er getið, hér að framan, að Atenumenn tóku yfir sig þegar kóngsvaldinu lauk, landstjóra (Arkonta). En sem þeir tóku

ad stjórna eptir eginn gedþótta, sjölgudu menn þeim, en styttu stjórnartíma þeirra, fyrst til 10 ára, sídan til eins árs. En það kom fyrir ekki; var þá Drako Landstjóri feinginn til að semja lög. Vóru þau svo stráung, að menn sögdu um þau: að þau væru med blódi rituð. Þau létu allt vera jafnt smásyndir og mestu ódádaverk, og lögdu lífstjón vid öllu; og sem menn spurdu hann hvör orsök væri til slíks, svaradi hann, að hin minnsta synd ætti daudan skilid, en vid þeim stærri vissi hann ekki þýngra straff að leggja. Leid nú eigi á laungu ádur Atenumenn gjördust ónægdir med þessi lög, og það svo mjög að Drako vard að rýma landid.

Litlu sídar var Sóloni landstjóra falid á hendur að semja ný lög (590 árum f. Kr.). Ádur hafdi Sólon unnid þjód sinni þarft verk, og nád aptur Salamisey, er Atenumenn höfdu misst í innanlands deyrdum. Hann lét landstjóra vera 9 eins og ádur hafdi verid; skipti þjódinni í 4 flokka; skipadi 400 manna rád; og gaf þjódinni sjálfri til leyfis að ransaka og samþykkja öll alþjódleg málefni. Sóloni er og eignad að hafi endurnýad þingid á Aresar hvoli (Areopagus). Á því þingi sátu merkustu menn þjódarinnar, voru öll yfirvöld landsins; ef þau gegndu eigi skyldu sinni, og jafnvel landstjórarnir sjálfir skyldir að mæta þar, og svara til gjörda sinna. Þing þetta var háð undir berum himni á næturþeli, svo dómendurnir skyldi eigi vekjast til medaumkunar af því að sjá sakamennina. Margt var og í lögum Sólonar skrád um vid-

skifti manna. Þannig var hvörjum manni bodid ad annast foreldra sína á elli árum, ef þeir hefdu látid hann læra eitthvad þarflegt, en annars ekki. Ekkjur og børn þeirra er fallid høfdu í orrustum fyrir fødurlandid, skyldi annast og ala á alþjódlegan kostnad. Løg Sólonar voru í øllu mildari enn Lykúrgusar, og áttu án efa mikinn þátt í ad Atenumenn urdu betur ad sér um flesta hluti, enn adrar þjódir á Grikklandi. Þegar Sólon hafdi samid løgin, fór hann úr landi, og kom á þeirri ferd til Krøsusar ríka, Lydíu kóngs. Krøsus hélt ad sæla manns væri fólgin í audæfum, og bjóst vid ad Sólon mundi verda frá sér numinn er hann sæi alla sína dýrd. En Sólon gaf ad því lítinn gaum, og hafdi ekki ord um. Þá spyr Krøsus hann, hvør honum þyki sælastur manna á jørdu. Sólon nefnir honum fyrst mann einn í Atenuborg er Tellus hét, børn hans urdu mestu audnu menn og sjálfur lét hann lífid á gamal aldri, fyrir fósturjørdu sína. Þvínæst nefndi Sólon tvo brædur argíviska, Kleobis og Bíton, er med ágætu dæmi sýndu hvø mjøg þeir unnu módur sinni. Loksíns mælti Sólon: kalla þú eingan sælan fyrir sitt skapadægur. Sídan snéri hann heim aptur, vann þjód sinni margt til þarfa og andadist í elli. Sólon er talinn einn medal enna sjø spekínga Grikklands *).

Skømmu seinna gjørdi Písistratus, einn af ættmønnum Sólonar, breytíngu nokkra á stjórnarløgum

*) Hinir eru nefndir: Tales, Bias, Pittakus, Periander, Kilon og Kleóbúlus.

haus. Písistratus var atgjørfis madur mikill, en met=ordagjarn meir enn hófi gegndi; hann gjørdi sér mikid far um ad koma sér í mjúkinn hjá løndum sínum, med mildi sinni og ségjøfum, og er þad haft til sanninda=merkis, ad þegar hann gekk um stræti borgarinnar, lét hann þræla gánga á eptir sér, og gefa fé á bádar hend=ur snaudum mønnum. Med þessu móti komst hann í mikla kærleika vid alþýdu, og til enna ædstu valda. Ad sønnu mætti hann mikilli mótspyrnu, og var jafn=vel optar enn einusinni vikid frá vøldum, en um sídir bar hann þó hærra hlut, og sigradist á óvinum sínum og stýrdi svo Atenuborg med mesta viturleika. Hann safnadi kvædum Hómers, er ádur voru á sundrúngi, og gjørdi ymsar þarflegar rádstafanir. Máttu Atenumenn telja ríkis ár hans einna blómlegust sinnar æfi.

## Frá Rómúlusi, høfundi Rómaveldis.

Nú víkur søgunni til einnar þjódar, er hófst laungu fyrr enn Sólon var uppi. Þessi þjód eru Rómver=jar. Svo voru þeir sigursælir, ad þegar tímar lidu fram, féingu þeir nálega yfirrád yfir øllum þeim lønd=um er þá voru bygd. Einn af konúngum þeim er komu eptir Eneas hinn trójaniska, og sátu í Ølbu laungu (Alba longa), hét Númitor. Bródir hans hét Amúlíus, og rekur hann Númitor frá vøldum, og lætur ei þarmed búid, heldur leitast vid ad drepa ætt hans alla. Númitor átti dóttur er Rhea Sylvía hét, hana setti Amúlíus til ad þjóna Vestu eldgydju. Vestu mey=ar skyldu vardveita eim helga eld í Vestu hofi. Máttu

þær eigi giptast fyrr enn að ákvednum tíma lidnum. Allt fyrir það ól Rhea Sylvía tvíbura, og var hvor-tveggi sveinbarn. Sögdu Rómverjar seinna ad Herguð-inn Mars væri fadir þeirra. Vard nú Amúlíus á-kaflega reidur, og lætur kasta sveinunum úti Tíberá, en med undarlegum hætti komust þeir bádir lífs af, og óluſt upp hjá einum hirdi. Sagan segir ad áin hafi þornad þar upp sem sveinunum var í hana kastad, hafi þá komid úlfa módir og borid þá í bæli sitt og fóstrad sídan. Annar þeirra var kalladur Rómúlus en annar Remus. En sem þeir komust nokkud á fót, var þeim sagt til ætternis síns og styrktu þeir afa sinn Númítor til ríkis aptur í Ölbu. Gaf hann þeim svo í þakkar skyni, leyfi til ad byggja borg, en bráð-um reis sundurþykkja med þeim brædrum, lauk svo ad Rómúlus drap Remus. Segja sumir ad þeir kæmu sér eigi saman um hvar borgin skyldi standa, eda hvad hún skyldi heita. En adrir segja ad Remus hafi hlaup-id yfir borgar múrana, og gjört þad til smánar vid bródur sinn, hafi þá Rómúlus vegid hann og mælt, ad einginn skyldi ad ósekju dyrfast ad smána múra Rómaborgar. Nú er lokid var borgarsmídinni, 753 árum fyrir Krists burd, vantadi innbúana. Tók þá Rómúlus þad til bragds, ad taka móti hvörjum sem koma vildi, bædi sekum mönnum og þeim er óánægdir voru med ættjardir sínar. Þannig fékkst kallmanna-fólk í borgina; en nú vantadi konurnar. Sendi því Rómúlus til granna þjódanna til ad beidast þar kvon-fángs fyrir menn sína, en honum var svarad því, ad

hann skyldi afla sér kvenna með sama hætti sem hann hefði kallmenn feingið. Petta kom honum til að hefna sín, og bæta úr þörfum sínum. Hann lét efna til helgra leika til heiðurs við Guð sinn Konsus (hann r. ði fyrir öllum huldum ráðagjörðum manna) bauð hann til sín öllum grannaþjóðum sínum, og komu þær til leikanna. En er leikarnir stóðu sem hæðst, hlupu allir úngir menn af Rómverjum þar að sem þjóðirnar voru, og greip hvör sína konu. Flýðu hinir við það heim til sín, en snéru bráðum aptur til að hefna á Rómverjum vanvirðu þeirrar, er þeim var gjörð. En voru þá ei svo viti bornir, að þeir færu í sameiníngu að Rómverjum, heldur isgðu þeir til móts við þá hvör í sínu lagi, og vann Rómúlus þá svo hvörn af öðrum. Voru Sabínar einir eptir, er hann fékk ei sigrast á, og urðu þeir Rómverjum skæðir. Bjuggust nú hvörutveggju til bardaga, og er að því var komið að þeir mundu berjast, hlupu dætur Sabínumanna, er nú voru konur Rómverja, milli þeirra og beiddu þá gráandi að berjast ekki. Létu þeir að orðum þeirra, og komst svo friður á; var þá ákveðið, að Tatius Sabína konúngur, skyldi vera meðstjórnarmaður Romúlusar, og eitt hundrað manna af Sabínum takast í hið rómverska ráð. Ráð þetta hafði Rómúlus skipað, og voru í því hundrað manns, hétu þeir Feður (Patres) eður **Öldúngar** (Senatores), vegna þess þeir voru eldstir, og skyldi þjóðin álíta þá sem feður sína. Afkomendur þeirra kölluðust **Feðrúngar** (Patricii), voru þeir eðalmenn Rómverja. Hinn hluti þjóðarinnar var

vædri, hétu þeir er í honum voru Alþýdumenn (Plebeji). Áttu þessir tveir þjódflokkar í sífeldum óeyrdum hvør vid annan. Rómúlus setti til 12 menn er gánga skyldu fyrir konúngi, hafa axir í høndum og vendi, og framkvæma dóma á mønnum; þeir hétu Lictores (Kóngs bødlar?) Hann lét fedurna hafa ótakmarkad veldi yfir børnum sínum, svo bædi máttu þeir drepa þau og líka selja, og nærri því eins mikid vald hafdi madurinn yfir konu sinni. Þegar Tatius féll frá, vard Rómúlus á ný einvalds konúngur yfir Rómverjum. Og sem hann hafdi setid leingi ad vøldum, segja menn ad Øldúngarnir (rádherrarnir) hafi látid drepa hann, af því hann hafi leitast vid ad takmarka veldi þeirra. En einu þeirra lét þad í vedri vaka, ad Rómúlus hefdi ordid uppnuminn til himna í þrumuvedri, byrzt sér nórtina eptir, og bodid ad dýrka sig og kalla Qvirínus. Þegar lidin var næstum eins árs millistjórn, var Núma Pompilíus, sabínskur madur frá Kúresborg til konúngs tekinn. Hann var þjódkunnur fyrir réttvísi og gudhrædslu, og reyndi til ad mýkja sidu Rómverja, er mjøg voru hardir og óþýdir, med því ad efla hjá þeim blótskap og helgihøld. Bar hann fyrir sig, ad allt sem hann starfadi hefdi hann frá gydjunni Egeríu, svo þad feingi því heldur álit hjá mønnum. En elztu trúarbrøgd Rómverja voru komin frá Etrúríu, en þau breyttust mjøg, og feingu mikla vidbót úr trúarbrøgdum Grikkja, blótudu Rómverjar hartnær en sømu god sem Grikkir. Júpíter og Mars og Vesta voru einna helztir af gudum þeirra. Menn

eigna Núma ad hann hafi skipad hússar prestastéttir, voru Salisku (edur Mars) prestarnir einir þeirra; skyldu þeir geyma skjaldar þess ens helga, er átti ad hafa fallid nidur af himnum, og þókti mønnum sem undir honum væri komin kjør þjódarinnar. Þó voru prestar Rómverja ekki stétt manna fyrir sig. Þá voru og hjá Rómverjum, spásagnarmenn, er søgdu fyrir ókordna hluti, annadhvørt af fuglakvaki og flugi (Augures), edur af inniblum offurdýra (Haruspices).

Eptir Núma komu þessir konúngar: Túllus Hostilius, Ankus Martius, Tarqvinius Priscus (gamli), Servíus Túllíus ag skipti hann Rómverjum í flokka eptir eignum þeirra, og loksins Tarqvinius Súperbus (drambláti). Alls ríktu konúngar þessir (frá 753 til 509) í 244 ár.

## Frá Sýrusi eldra, høfundi Persaveldis.

Lángur var addragandi ad því, ad Rómaveldi magnadist. Þarámóti hófst austur í Asíu ríki eitt mjøg skyndilega, er nádi austan frá Indus fljóti vestur ad Midjardar hafs botni. Persar høfdu um lánga æfi verid undir Medíu konúngi. Ad sønnu voru þeir sidavandir, hraustir og djarfir í orrustum (er sagt þeir hafi einkum lagt stund á þrjá hluti: rída hestum, skjóta af boga og tala sannmæli), en þá vantadi þann mann er verid gæti fyrirlidi þeirra, og barst þeim hann svo sem af hendíngu. Astyages Medíu konúngur hafdi géfid dóttur sína er Mandane hét, persiskum manni Kambyses ad nafni. Konúng dreymdi

draum, er sagdi honum ad dóttursonur hans mundi mik-ill høfdíngi verda, óttadist hann því, ad hann mundi steypa sér úr vøldum, en til ad sporna vid því, ásetti hann sér ad láta drepa hann og fékk til þess þann mann er Harpagus hét; einn af gædíngum sínum. En Harpagus þirmdi sveininum, og ólst hann upp hjá einum hirdi, eins og Rómúlus, og var kalladur Sýr-us. Tóku menn brádum eptir atgjørfi hans, og í einum leik komust menn ad því hvørrar ættar hann var. Astyages hefndi sín grimmlega á Harpagusi er svo ódyggilega leysti þad af hendi er fyrir hann hafdi verid lagt. Lét Astyages drepa son hans, matreida og setja fyrir Harpagus. En er Sýrus kom til hirdar afa síns, gat hann aldrei sættst vid hann, var líka medfram hvattur til hefnda af Harpagusi, er eins og ad líkindum rædur, þóttist eiga um sárt ad binda. Sýrus sá sér og færi til uppreistar. Eittsinn þá er hann dvaldi í Persíu, kalladi hann saman mikinn manns fjølda, og lét þá alla standa ad stritvinnu einn dag, frá morgni til kvølds. Daginn eptir lét hann þá alla koma á sinn fund, en í stad þess ad láta þá vinna, heldur hann þeim nú øllum kostuglega veizlu, og hefir allskonar skémtun. Þegar kvøld var komid spurdi hann þá, hvør dagurinn þeim hefdi líkad betur. Þeir svør-udu, sem von var: hinn sídari. Segir þá Sýrus þeim, ad ef þeir vilji verda sínir menn, og segja sig undan veldi Medíu konúngs, skuli þeir ætíd lifa eins og hinn sídari daginn. Þekktust þeir bod hans gladir, og hélt Sýrus med her manns til fundar vid afa sinn,

og vann sigur á honum í grend við Pasargada borg (560 á. f. Kr.). Setti hann nú á stofn hið persíska einvaldsdæmi; en Sýrus lét eigi þar með búið; smámsaman réðist hann á þjóðir þær er næstar bjuggu, og lagði þær undir sig. Þegar Krøsus ríki, Lydíu konúngur, heyrði sagt frá hernaði Sýrusar, bjóst hann til orrustu við hann, en áður hann færi, fýsti hann að leita frétta hjá guðunum. Þeir svöruðu: þegar Krøsus fer yfir Halys fljót, þá mun stórt ríki til grunna gánga. Þýddi hann goðasvarið svo, að hann mundi sigur fá, og heldur nú til móts við Sýrus. Fékk Krøsus konúngur þar ósigur, var Sardes höfuðborg hans tekin, og hann sjálfur settur í fjötur. Bauð Sýrus að láta brenna hann, og er að því var komið að Krøsusi væri hrundið á bálið, komu honum til hugar orð Sólonar, fannst honum þá svo mikið um þau, að hann kallar hárri röddu: Sólon, Sólon, Sólon! Sýrusi þókti þetta kynlegt og lætur spyrja hann, hví hann gjöri svo. Segir þá Krøsus honum frá viðtali þeirra Sólonar, og fékk það svo mikið á Sýrus, að hann gaf Krøsusi líf, og gjörði hann að ráðgjafa sínum. Nú hafði Sýrus lagt undir sig Lydíu. Því næst hélt hann til Babylonar, og sat tvö ár um ena miklu borg, og fékk um síðir unnið hana með því að veita burtu Evfrat fljóti. Nabonnedus konúngur sat að veizlu með hirð sinni, er Persar brutust inn í borgina; féll hann þar, og Babylon varð skattgyld undir Persa. Var nú Sýrus búinn að ná undir sig enum fegursta hluta af Asíu; þó lét hann sér ekki þetta

nægja. Hann vildi leggja undir sig enn harðfengu Massageta, er var hirðara þjóð og bjó þar sem nú heita Tartaralönd. Tómyris hét drottning þeirra. Höfst nú ófriður milli hennar og Sýrusar, og gekk honum í fyrstu betur, en skömmu seinna áttu þau mikla orrustu (529), fékk Tómyris sigur og tók Sýrus höndum. Lét hún höggva höfuð af honum, og segja menn hún léti höfuðið í ker eitt fullt af blóði, og hefði yfir þessi orð: Svalaðu þér nú, Syrus, þú hefir leingi þyrstur verið. Hið mikla ríki er Sýrus hafði komið fótum undir, stóð að sönnu um hríð, en bráðum tók því að hnigna, bæði vegna þess að konúngar voru þar misjafnir, ófriður innanríkis, og utanríkis óvinir sóktu að, svo lagðist og þjóðin í sællífi og saurlifnað. Kambyses sonur Sýrusar kom til ríkis eptir föður sinn; hann var enn mesti harðstjóri, og lagði undir sig Egyptaland, en dó litlu síðar á heimleið er hann fór að sefa uppreist þá er Magus*) einn hafði gjört, er lézt vera Smerdis bróðir Kambysesar, er myrdtur hafði verið. Þessi svika Smerdis var síðan drepinn af sínum samsæris mönnum.

## Frá því er Róm varð þjóðveldi.

Nokkrum tíma eptir það Sýrus hafði stofnað hið persiska einvaldsdæmi, köstudu Rómverjar af sér konúngs okinu (509 á. f. Kr.). Lucius Tarqviníus hinn dramblátí var þar seinastur konúngur. Drottn

*) Svo nefndust prestar Persa.

íng hans hét Túllía, og þókti vera heldur stórráð; myrdti Tarqvinius fyrir áeggjan hennar, og til þess ad komast sjálfur til valda, teingdafødur sinn Servíus Túllíus, ágætan konúng. Og eins og íllvirki hans høfdu eflt hann til ríkis, svo reyndi hann og med sama hætti ad halda því er hann hafdi náð; gjørdist hann af því mjøg óvinsæll, og urdu enn meiri brøgd ad því, þegar sonur hans Sextus Tarqviníus, tók frillutaki Lúkretíu, konu høfdíngja þess er Tarqvinius Collatínus hét, var hún bædi en fridasta sýnum og en kurteysasta kona. Bar hún harma sína upp fyrir fødur sínum og Júníusi Brútusi, er allt til þess tíma hafdi komist undan ofsóknum konúngs med því ad látast vera vitstola. En sem hún hefir lokid tali sínu, grípur hún kníf, og rekur sig í gégn. Brútus tók vopnid úr sárinu, hleypur fram í mannþraungina, og skorar á lýdinn til hefnda á hardstjóranum. Var þá borgarhlidum læst fyrir Tarqvíníusi, en herlidid sagdi honum upp allri hollustu, og verdur hann nú ad leita burt úr borginni. Var nú afrekid konúngs valdid, en 2 Rædismenn (Consules) settir í þess stad, skyldu þeir veljast á ári hverju. Urdu þeir Tarq: Collatinus og Jún: Brútus fyrstir rædismenn. Leid ekki á laungu ádur enni nýu stjórn væri hætta búin. Høfdu menn svarist í félag, og voru synir Brútusar einir af sameris mønnum. Ætludu þessir menn ad drepa rædismennina, og koma Tarqvíníusi aptur til valda. Præll einn fékk njósn af samtøkum þessum, og sagdi frá. Vard þá Brútus ad meta ædra réttlætid enn føduástina,

og voru synir hans bádir af lífi teknir. Eptir þad reyndi Tarqviníus med ofríki ad brjótast til valda. Brútus fell í orrustu, og lág vid sjálft ad Rómaborg yrdi unnin af þeim Tarqviníusi og Porsenna konúngi frá Klúsíum, er komid hafdi til lids vid hann. Um þær mundir sýndu einstöku menn rómverskir afbragds hreysti, eru einkum til þess nefndir tveir, Hóratíus Kókles og Músíus Skevóla. Kókles vardi einnsaman brú á Tíberá fyrir Porsenna konúngi, er sókti ad med sveit manna, en sem konúngsmenn höfdu höggvid af brúna, hljóp Kókles í ána og syndti yfir. Músíus Skévóla tókst á hendur ad frelsa Róm med því ad ráda af dögum Porsenna konúng, var þad hin mesta hættuför. Hann kom til herbúda óvina sinna, og drap þar mann, er hann hugdi vera konúnginn, var svo tekinn höndum og leiddur fyrir konúng. En til ad sýna honum hvörsu litid hann hirdti um píntingar þær er á hann yrdu lagdar, rétti hann fram adra höndina í offurbál er þar brann nærri, og brann svo höndin ad hann lét eigi á sér sjá hid minnsta. Konúngur undradist mjög slíka kallmennsku, og gaf sig á tal vid hann. Sagdi Skévóla honum, ad í borginni væru 300 úngra manna, er allir hefdu svarist í félag til ad drepa konúnginn, og mundi hann naumast sleppa undan. Þetta allt kom Porsenna til ad semja frid vid Rómverja, og segja Tarqviníusi upp allri lidveizlu; stód hann nú ad kalla einn uppi og fékk þá litlu áorkad móti Rómaborg. Þannig var frelsi Rómverja komid á fastan fót, og þó ríkid væri enn lítt magnad, fékk þad

þó brádum mikinn vidgáng eptir ad ófridur hófst vid nágranna þjódirnar.

## Vidureign Persa og Grikkja (Persa stridid).

Daríus Hystaspis hét einn af eptirkomendum Sýrusar eldra, kom hann til ríkis eptir víg Svika-Smerdesar, og átti kóngstignina ad þakka hesti sínum*). Á hans døgum gjørdu Jónar á litlu Asíu-strøndum uppreist, fyrir áeggjan Aristagóresar, Míletu jarls. Veitti Atenuborg og Eretriumenn á Evbœu þeim lid, og brendu til øsku Sardesborg (500 árum f. Kr.). En Daríus fékk aptur snúid þeim til hlýdni og hollustu vid sig; en einsetur sér ad hefna sín á Atenuborg, enda eggjadi Hippías Pisistratusar son, er Atenumenn høfdu rekid í útlegd, hann fast til hefnda. Á hvørjum degi er Daríus stód upp frá bordum, lét hann hirdmann einn minna sig á fyrirætlan sína med þessum ordum: herra, gleymid ekki Atenuborg! Fyrst gjørdi Daríus út her mikinn og skipaflota, og setur Mardoníus jarl yfir. En fyrir framan Atos, høfda á Makedoníu lestust skipin svo í stormi, ad leidángur þessi fórst fyrir. Nokkru sídar bjó Daríus konúngur aptur út her á hendur Grikkjum,

*) Sjø persiskir høfdingjar rédu Svika-Smerdis af døgum, kom þeim svo ásamt um, ad láta lukkuna ráda hvørr þeirra koma skyldi til ríkis. Var þad rádgért milli þeirra ad koma allir ridandi til eins stadar, og taka þann til konúngs hvørs hestur hneggjadi fyrstur.

100 þúsundir manna, og voru þeir Datis og Artafernes fyrir því lidi; segir eigi af ferdum þeirra fyrr enn þeir komu á Maraþons vøllu, og settu þar herbúdir sínar. Høfdu Atenumenn ekki annan lidsafla ad senda móti þeim enn 9000 manna, undir forustu Miltíadesar. Urdu og eigi adrar borgir til lidveizlu vid þá enn Platea, lítil borg í Bøiótíu; þadan feingu þeir 1000 vígra manna. En þó þetta væri lítid lid, þá skorti hershøfdíngjan hvørki dug, né lidsmenn djørfúng. Lagdi nú Miltíades til orrustu vid Persa her þar á vøllunum, og vann á þeim frægan sigur. Flýdu Persar en Grikkir eltu flóttan til skipa (490 á. f. Kr.). A heimleidinni mættu þeir Miltíades Spartverjum er þá komu til lids vid þá. Høfdu þeir ordid nokkud seinir til bragds, og snéru þar heim aptur vid lítinn ordstír. Nokkrum árum sídar fór Miltíades herferd til Parus eyar. Heppnadist sú før honum eigi vel, og var hann dæmdur í fjársekt, og gat ei goldid, var hann þá settur í fángelsi og dó þar.

En þad er frá Daríusi ad segja, ad þó leidángri hans reiddi ekki betur af enn nú var sagt, sleppti hann þó aldrei úr huga sínum því áformi, ad ná hefndum á Grikkjum, en honum vard þess ekki audid, því um þær mundir hófst uppreist mikil á Egyptalandi, og lézt hann medan á henni stód. Kom þá til ríkis Xerxes konúngur sonur hans, og var hann ekki meiri vin Grikkja enn verid hafdi Daríus fadir hans. Þegar uppreistin á Egyptalandi var sefud, bjó hann óvígan her til Grikklands, voru þar samankomnar 4 mil-

liónir manna, og höfdu menn aldrei sjed slíkan mann-grúa. Lét konúngur gjöra brú yfir Ellipalta (Hellu-sund, Hellespontus), og var herlid hans ad gánga þar yfir í sjö daga og sjö nætur, en skipin sigldu med ströndum fram. Mættu Persar hvörgi mótvörn fyrr enn þeir komu í Laugaskard (Thermopylæ), þar sat Leónídas Spartverja konúngur fyrir þeim med 4000 manna. Ætladi hann ad verja Persum yfir skardid. En Efíaltes svikarinn, vísadi þeim adra leid yfir fjöllin, og komust þeir ad baki Grikkjum. Og sem Leónídas verdur þessa var, vill hann eigi ad lidsmenn sínir skuli allir falla, og sendir þá frá sér, nema 300 af Spartverjum og nokkra menn frá Tepu og Terpíu er eptir urdu hjá honum. Tók þessi litli hópur svo hreystilega móti Persum, ad undrum gegndi, og féllu Persar þar svo þúsundum skipti, en hér kom samt ad því sem optar, ad eínginn má vid margnum, og féll þar Leónídas konúngur og kappar hans allir. Þar var sídan reistur steinvardi lítill og vidhafnarlaus, er minna skyldi seinni alda menn á afreksverk þessi. Medan þessu fór fram, rádgudust menn um heima í Atenuborg, hvörn vidbúnad skyldi hafa móti Persum. Menn leitudu frétta hjá gudinum í Delfis, og svaradi hann, ad menn skyldu verjast med trémúrum. Madur hét Temistókles, hann var kappi mikill og enn vitrasti madur, og keppti mjög um en ædstu völd í Atenuborg vid Aristídes hinn réttláta. Temistókles þýddi svo vefréttina ad menn skyldu verjast á skipum og urdu flestir á hans máli. Geingu Grikkir á skip út, en

Xerxes hélt til Atenuborgar, og brendi hana til ösku. Grikkir héldu flota sinum inná Salamis-eyar vík, og bjugguſt þar fyrir, ſékk Temiſtókles með brøgðum komið Perſum til að leggja þar til oruſtu við ſig. Feingu Grikkir þar mikinn ſigur (480), en Perſar miſtu fleſt øll ſkip ſín; flýði Xerxes konúngur á báti yfir til Aſiu. Lét hann Mardónius jarl eptir á Grikklandi norðanverðu með 300,000 vopnaðra manna; var það nóg lið til að vinna landið, hefði ſunnur þjóð átt að verja það enn Grikkir. Leitaði nú Mardónius um ſættir við Atenumenn, en er eigi gèingu ſaman með þeim friðarkoſtirnir, réð hann það af að leggja til orruſtu við þá, og fór þá enn ſem fyrri, að hreyſtin varð drjúgari enn høfðafjøldinn, og feingu Grikkir ſigur. Voru þeir Páſanías og Ariſtídes fyrirliðar þeirra. En bardaginn ſtóð ſkammt frá borg þeirri er Platea hét í Bøiótiu, og varð hún eins víðfræg af, ſem Salamis ey og Maratons vøllir. Féll Mardónius, en menn hans voru annaðhvørt drepnir eður ellt ir á flótta, og feingu Grikkir þar ógrynni herfángs. Hinn ſama dag vann Leotykkidas Spartverja konúngur ſigur á herſkipum Perſa og brenndi þau upp fyrir framan Mykale høfða á Litlu Aſíu. Upp frá þeim tíma tóku Grikkir að færa Perſum ſtríð á hendur, og náðu margir þeirra miklum orðstír meðan ſá ófriður ſtóð. Einn þeirra var Símon ſonur Miltíadesar kappans. Þegar faðir hans lézt áður hann hafði goldið fjárſekt þá er hann var idæmdur, gekk Símon í varðhald hans vegna, og ſat þar um hríð, til þeſs er ann-

ar galdt fé fyrir hann. Nokkru seinna fekk hann yfir- ráð yfir herskipum Atenuborgarmanna, og vann þá hvorn sigrinn á fætur öðrum, sögðu menn að hann hefði gjört samband við Sigurgyðjuna (Nike). Einkum varð hann frægur af tveim orrustum er hann vann á einum degi, bæði á landher og skipaliði Persa, við Evrymedons fljót í litlu Asíu (469 á. f. Kr.). En allt fyrir það hiant bæði Símon og Aristídes, hvörs áður er getið, að fara í útlegð eptir skeljadómi*) landa sinna. Litlu síðar var Símon kallaður heim aptur, og andaðist er hann sat um Citiu borg á Kyprus ey. Eptir lát hans neyddist Artaxerxes handalángur, er við ríki tók eptir Xerxes konúng föður sinn, að semja frið við Grikki, og var þá ákveðið: að nýlendur Grikkja í Litlu Asíu skyldu vera lausar allra mála við Persa. Skip Persa skyldu eigi koma í Grikklands höf, og herlið þeirra aldrei nær löndum Grikkja enn svo, að 3 áfángar væru á milli (449 á. f. Kr.).

Tveir af mönnum þeim er mest höfðu unnið fyrir frelsi og frægð Grikkja, Pásanías og Temistókles, urðu ekki aðrir eins lánsmenn og Símon, og áttu það heldur ekki skilið. Pásanías, sem bæði var metorða og drottnunargjarn, reyndi með aðstoð Persa að

*) Athenumenn voru mjög hræddir um að þeir mundu missa frelsi sitt, og héldu að hvör framúrskarandi maður mundi svipta þá því. Þessvegna var ráðgjört á þjóðfundum að reka slíka menn í útlegð. Voru menn vanir að rita nöfn þeirra er dæmast skyldu á skélja brot, og hét það skeljadómur, (Ostracismus).

ná yfirrádum á Grikklandi, en varð að lyktum sannur að því, að hafa ritað Persakonúngi landráða bréf, var síðan byrgður inni musteri einu er hann hafði flúið til, og lézt þar af húngri. Temístóklesi var gefið að sök, að hafa átt þátt í landráðum Pásaníasar, fór hann landflótta til Persíu, og fekk þar góðar viðtökur, og 3 borgir til uppheldis sér, en hvað loksins hafa ráðið sér sjálfur bana, til þess að komast hjá því að berjast móti löndum sínum, er hann átti að hafa heitið Persa konúngi.

## Ófriður með Pelopseyar mönnum.

Nú var svo komið, að Grikkir þurftu eigi að óttast veldi Persíumanna; friður hafði verið saminn milli þeirra, heiðarlegur fyrir Grikki. En nú hófust deilur innanlands með sjálfum þeim. Spartverjar höfðu leingi sjeð ofsjónum yfir frægð þeirri og veldi er Atenumenn öfluðu sér í Persastríðunum. Með herskipum sínum og með aðstoð bandamanna sinna, er þó opt máttu sæta sömu kostum sem þeir hefðu verið undir Atenumenn gefnir, eður verið þegnar þeirra, höfðu þeir aukið veldi sitt svo mjög, að Spartverjum stóð geigur af. Þessvegna hagnýttu þeir sér tækifærið þegar það bauzt til að gjöra Atenumönnum skaða. Deyrðirnar um Epidamnus, millum Korintuborgar og Korfýru er var nýlenda þaðan; kveiktu ófriðinn milli Spartverja og Atenumanna (431). Tóku Atenumenn taum þeirra á Korfýru, en Spartverjar veittu Korintumönnum. Með Atenumönnum voru því nær

allir eyamenn úr Grikklands eyum, og nýlendumenn af Litlu Asíu, Trasíu, og Masedoníu ströndum. Með Spartverjum öll Pelopsey, nema Argos og Akkaia, þar fylgdu hvörigum, þaradauki mestur hluti af Grikklandi sjálfu. Ófriður þessi hófst á dögum Periklesar, réði hann þá einn mestu í Atennborg; hann var manna málsnjallastur, en deydi ári síðar enn ófriðurinn hófst í landsfarsótt þeirri er gekk yfir alla Attíku. Períkles var enn mesti atgjörfis maður, og efldi mjög vísindi og íþróttir, er í það mund náðu einna mestum þroska þar í landi. En honum er eignað að hafa eydt um of fjármunum ríkisins, og leidt þjóðina útí stríðið. Það er mælt að einn af vinum hans, hafi, til þess að hug-hreysta hann á banasænginni, talið honum upp mörg afreksverk hans, og hafi þá Períkles sagt: það gleður mig nú mest, að eg veit að einginn maður í Atenu-borg hefir nokkrusinni klæðst í sorgarbúning min vegna. Eptir lát hans kom Kleon til æðstu valda, og þókti það ekki fara mjög að verðugleikum. Ófriður hélzt enn, sem fyrr, börðust hvörirtveggju af mikilli heipt, og höfðu ýmsir sigur. Um síðir leiddist mönnum stríðið og sömdu frið (422), er sá kallaður Nisíasar friður, og kenndur við Nisías hershöfðingja Atenumanna, er þar átti mest-an þátt í. Má og vera að sá friður hefði leingur haldist, hefði Alsibíades frændi Períklesar ekki komið til sögunnar. Hann var manna fríðastur sýnum, og best máli farinn, metorðagjarn, og gat lagað sig að hvörs manns óskum og vild, var því eigi að undra þótt því yrði framgeingt er hann vildi. Hann þóktist

sjá að hann einúngis í hernaði gæti náð frama og frægð, og fyrir því réri hann að því öllum árum að ófriður tækist á ný milli Spartverja og Atenumanna. En það voru óhöppin mest fyrir Atenumenn, að eptir hans áeggjan var sendur her manns til Sikileyar til liðs við Segestumenn móti Sýrakúsmönnum. Var Alsibíades einn af fyrirliðunum. En áður her þessi lagði af stað, varð sá atburður er hafði illar affarir bæði fyrir hann sjálfan og fósturjörð hans. Svo bar til, að Hermesar-varðar í Atenuborg hrundu um koll, féll gruninn á Alsibíades, og úngmenna flokk þann er með honum hafði verið á reiki um stræti borgarinnar þá nótt er varðarnir hrundu. Fékk Alsibíades að sönnu fararleyfi, og sigldi herinn á burt, en strax eptir burtför hans, tóku óvinir hans að sakbera hann, var þá sendt skip til að sækja hann, en hann beið ekki boðanna, og flýði til Spörtu, og æsti hana til hefnda móti löndum sínum. Leiðángurinn til Sikileyar tókst mjög óheppilega til; mistu Atenumenn bæði skip sín og menn, og hershöfðingjarnir teknir af lífi; voru Spartverjar í liði með eyarbúum. Nokkru seinna varð Alsibíades að rýma Spörtu, og leitaði aptur að komast í sátt við landa sína, og tókst honum það. Gjörðist hann nú fyrirliði fyrir skipaliði þeirra, vann sigur í mörgum orrustum, og fékk ógrynni fjár. Tóku menn þá tveim höndum við honum er hann kom heim. En Atenumenn voru of kviklyndir til þess að vinátta sú gæti leingi staðið. Alsibíades hafði feingið öðrum manni í hendur herstjórnina um tíma, og biðu þá Atenumenn

mikinn ósigur. En af því menn héldu ad Alsibíadesi væri ekkert um megn, var honum gefid þetta ad sök; vard hann þá ad leita undan til Trasíu. Þar þóktist hann ekki med öllu óhultur, fór því yfir til Asíu, og þar var hann loks ad undirlagi Spartverja, og med rádum eins af jörlum Persa konúngs, ráðinn af dögum. Eptir flótta Alsibíadesar, hélzt ófridur enn nokkra stund med Atenumönnum og Spartverjum. Unnu Atenumenn sigur í sjóorrustu vid Arginus-eyar, en af þeim sigri gjördist ofmetnadur þeirra svo mikill, ad þeir fyrirlitu herskip Spartverja er á ný voru send móti þeim undir forustu ens slægvitra Lysanders. Þennan hroka Atenumanna hagnýtti hann sér. Hvorirtveggju höfdu lagt skipum sínum nordur vid Ellipalta. Geingu Atenumenn dag hvörn á land, og hlýddu ekki foríngjum sínum, þó þeir segdu þeim ad vera vid skipin. Rédist þá Lysander ad skipum þeirra, en þau voru varnarlaus fyrir, og eyddi hann þeim því nær öllum. Þar hét Geitarfljót (Aigos potamos) á litlu Asíu ströndum, er þessi atburdur vard. Kónon hershöfdíngi komst undan á 9 skipum. Þessu næst hélt Lysander til Atenuborgar, og settist um hana, urdu borgarmenn ad géfast upp fyrir honum (404). Lauk þannig ófridi Pelops eyar manna, er stadid hafdi í 27 ár, ad Spartverjar báru hærra hlut. Lysander kvaddi 30 manna til stjórnar í Atenuborg, eru þeir nefndir enir 30 hardstjórar (triginta tyranni). Hann lét og rífa nidur borgarveggi og hafnarmúra Atenumanna, og tók skip þeirra öll, nema 12. Hardstjórarnir gjördu mörg

grimdar verk á Atenumønnum, og létu annadhvørt drepa edur reka úr landi alla ríka menn og málsmetandi. Var eigi ad undra þótt íllur kurr kœmi í landsmenn, og øllum sem báru ást til œttjardar sinnar svidi mjøg sárann. Madur hét Trasíbúlus, hann hafdi flúid undan ofsóknum hardstjóranna til Tebuborgar, hann safnadi ad sér nokkrum landa sinna, fór ad hardstjórunum, og frelsadi fedraborg sína, en afladi sér þess ordstírs er œ mun uppi vera.

## Frá Sókratesi.

Medan ófridurinn stód á Pelops ey (milli Spartv: og Atenum.) var sá madur uppi í Atenuborg, er hvørki var hershøfdíngi edur landstjórnarmadur, en þó vann hann œttjørdu sinni hid mesta gagn, og mun nafn hans uppi medan heimur stendur. Sá madur hét Sókrates, sonur myndasmids nokkurs, og vinur Alsibíadesar. Þad var ydja hans, ad laga hugarfar úngra manna, og kenna þeim ad rœkja skyldur sínar. Søgdu menn því um hann, ad hann hefdi fœrt heimsspekina af himnum ofan, og flutt hana inní borgir manna og híbýli. Ádur høfdu menn lagt mesta stund á mælíngarfrœdi og stjørnulist, en Sókrates leitadist vid ad kenna mønnum sidalærdóminn. Sýndi hann og í allri hegdan sinni, ad hann var spekíngur í fleyru enn kenníngum sínum. Hann rækti manna best allar skyldur, og þoldi med stakri gédprýdi allar skapraunir konu sinnar, ennar ofsagjørnu Xantippu. Hún reyndi alla vega til, ad gjøra honum sem beiskasta œf-

ina. Einhvörju sinni bar svo við er vinur hans einn var hjá honum staddur, að hún veitti honum harðar átölur, og sem hún hafði leingi látið dæluna gánga, gékk Sókrates út fyrir dyr, en hún veitti honum eptirför, og hellti yfir hann fullu vatnskeri. Sókrates lét sér ekki bilt við verða, og mælti: jeg bjóst nú altaf við því, að eptir þrumuna mundi koma regn. Mestir óvinir hans í Atenuborg voru enir svo kölluðu Vitríngar (Sófistar), er bæði ímynduðu sjálfum sér og öðrum, að þeir vissi alla hluti, jafnvel þó þeir í raun réttri vissi ekkért sem gagn væri að, og leiddi únga menn á villigötur. Móti slíkum mönnum flutti Sókrates kenníngu sína, og svipti þá öllu áliti með því að sýna mönnum ofaná fávitsku þeirra. Voru viðræður hans við únga menn, bæði lærdómsríkar og gamansamar, en ekki þá hann fé fyrir þær. En óvildarmenn hans spöruðu ekki að rógbera hann við borgarlíðinn, og leita allra bragða til að steipa honum, og tókst þeim það um síðir, með því síðir Atenumanna voru þá ordnir mjög spilltir. Var honum gefið að sök, að hann hefði einkis virdt guði þjóðarinnar, og leidt únga menn afvega. En þetta varð ekki sannað á hann. Sókrates var svo fjarlaga því að hrynda ákærunni af sér, að hann miklu heldur sagði með berum orðum, að hann ætti skilið, að alin væri önn fyrir sér af alþýðu manna. Þetta þókti dómendum sýna virdíngar skort hans, og dæmdu hann dauða sekan. Skyldi hann drekka eiturblöndu, er um þær mundir var alltíðt í Atenuborg. En dómur þessi var ekki strax framkvæmd-

ur á honum. Það var þá venja í Atenuborg, að senda skip eitt er kallað var skipið helga, til Delseyar með gjafir til Appollós musteris. Mátti eingan dauðadóm framkvæma áður það skip kæmi aptur. Sat því Sókrates 30 daga í fjötrum, og kéndi á meðan og hughreysti vini sína og ættmenn. Báðu þeir hann leita undan og forða sér við dauða. Sókrates brosti við því, og mælti: þekkið þér þá, vinir mínir, nokkurn þann stað utanborgar, að dauðinn komi ekki þángað. Loksins drakk hann eitrið, og lét svo líf sitt, að allir góðir menn grétu hann. Meðal lærisveina hans, eru þeir Plató og Senófon einkum frægir orðnir. Plató hefir ritað ýmsar heimspekilegar bækur, með mestu málsnilld, og gjörðist höfundur þess heimspekinga flokks, er kallast hinn akademiski, eptir stað þeim er hann kenndi í. Senófon hefir ritað söguból um Sókrates, æfi Sýrusar eldra, um herför Grikkja til Persíu og heimför þaðan. Sýrus ýngri hóf ófrið móti bróður sínum Artaxerxesi 2um, Persakonúngi, og safnaði að sér grísku málaliði, 10,000 manna, var Senófon þar með, en sem Sýrus var fallinn í orrustunni við Kúnaxa, urðu Grikkir að halda heim aptur. Tissafernes jarl Persa konúngs, fékk með svikum höndlað og drepið alla hershöfðíngja þeirra, tóku þeir þá Senófon til foríngja yfir sig. Og þó þeir væru í ókunnu landi, og óvinir á allar hliðar, tókst honum að frelsa herinn með ráðum sínum og dáð, og er hann talinn með enum mestu hershöfðíngjum.

Tímabil það er þeir menn lifðu á, er nú var

getið, og nokkurn tímakafla bæði undan og eptir, geta menn kallað gullöld grískra vísinda og íþrótta. Þá voru uppi, einkum í Atenuborg, enir mestu mælskumenn (Demostenes, Eskines) skáld (Eskýlus, Sofokles, Evripides, Aristófanes) heimspekingar, (Plató, Aristóteles) sagnaskrifarar (Heródót, Túsidídes, Senófon) og listamenn (Fidías myndasmiður) Seuxis og Apelles pentarar).

## Frá Epaminondasi og Pelópídasi.

Herför sú er Grikkir fóru móti Persa konúngi, og nú var getið, olli því að ófriður vaktist milli Persa og Spartverja; rak Agesilás konúngur þeirra hernað lángt austur í Persa lönd. En Persar keyptu til þess ýmsar grískar þjóðir, að bera vopn móti Spartverjum, var þá Agesilás kallaður heim aptur. Litlu síðar sömdu Spartverjar frið við Persa, og er sá friður kenndur við mann þann er samdi, og Antalkidas hét. Það var 387 vetrum fyrir Krists burð. Létu þá Spartverjar lausar við Persa nýlendur sínar í litlu Asíu, en feingu öll yfirráð á Griklandi, er þeir bráðum vanbrúkuðu til þess að kúga enar smærri þjóðirnar. Eitt sinn þá er Spartverjar héldu herliði sínu móti Olintuborg í Makedoníu gaf foríngi þeirra Föbídas sig í innanlands deilur Tebumanna, og lagði undir sig Kadmusar=vígi í Tebuborg. Þókti öllum það vera hinn mesti ójafnaður, þar sem eingin ófriður var milli Tebumanna og Spartverja. Allt um það samþykktist Agesilás aðgjörðir Föbídusar, hélt yfirráðum

yfir Tebu, og stýrdi henni eptir løgum Spartverja. Sýndu þeir hér eins og optar, hvílíkir hardstjórar þeir voru, og æstu mjøg landsfólkid móti sér. Stukkú margir úr landi, einkum til Atenuborgar. Einn af þeim mønnum hét Pelopídas, hann gjørdist oddviti nokkurra manna til ad ná aptur Tebuborg úr høndum Spartverja. Var Fyllídas skrifari hardstjóranna einhvør sá øtulosti af þessum bandamønnum. Pelopídas og nokkrir med honum, komust í bularklædum inní Tebuborg, og leyndust þar hjá einum vina sinna. Var þá nærri ad því komid ad þeir mundu verda teknir. Á medan stofnadi Fyllídas til stórveizlu, og hét enum sparrverfku stjórnendum ad allt skyldi verda sem kostuglegast. Medan þeir sátu ad veizlu þessari, kom bréf til eins þeirra, var þar á ritad allt um samsæri þeirra Pelopídasar. En hardstjórinn hafdi fest hugann á gledinni, og sinnti því ekki bréfinu, heldur lagdi þad hjá sér, med þessum ordum: Látum alvarleg størf bída morguns. En sá morgun kom aldrei yfir hann. Fyllídas hafdi heitid gestum sínum ad leida inn til þeirra meyar nokkrar, er skémta skyldu þeim med saunglist. Lét hann nú Pelopídas og félaga hans taka á sig búníng þeirra, og sem þeir voru komnir inní høllina þar sem hinir sátu ad drykkju, tóku þeir vopnin undan klædum sínum og drápu hardstjórana. Var sídan kunngjørt yfir alla Tebuborg, ad þjódin væri laus undan oki Spartverja, og sérhvør sem hefdi ást á ættjørdu sinni skyldi grípa til vopna.

Nú verdur ad nefna þann mann til søgunnar er

Epamínondas hét, hann gekk í lid med Pelópídasi. Ráku þeir nú Spartverja úr Tebu, en þeir safna þegar lidi og búast til hefnda. Leitadist Persa konúngur vid ad koma sættum á med þeim, en fékk eigi adgjört, fyrir því ad erindsrekar Grikkja voru svo mótsnúnir hvorir ødrum. Játudu flestir því er Agesilás Spartverja konúngur fór á flot, søkum rádríkis hans. En er hann spurdi hvort Tebu menn vildu gefa borgunum í Bøiótíu frelsi, svaradi Epamínondas eingu til þess, en spurdi konúng, hvort Spartverjar vildu gjøra slíkt hid sama vid Lakoníu (landid umhverfis Spørtu). Eptir þad sendu Spartverjar herlid til Bøiótíu, komu Tebumenn til móts vid þad hjá Levktraborg (371), vard þar orrusta mikil, og feingu þeir Epamínondas og Pelópídas sigur, en Spartverjar lidu hid mesta manntjón og mistu hershøfdingja sinn Kleombrótus. Sídan hélt Epamínondas sudur á Pelopsey, og lág vid sjálft ad hann tæki Spørtu, en Agesilás fékk hamlad því. Brá þá nokkud útaf því er Spartverjar høfdu ad málstaki: ad eingin spartversk kona hefdi nokkuru sinni sjed reyki leggja upp af herbúdum óvina sinna. Þvínæst frelsadi hann Messeníu úr ánaud Spartverja, og herjadi vída um Pelopsey, geingu þá ýmsar borgir til lids vid hann. Um þetta mund hafdi hann herstjórn á hendi leingur enn tiltekid var, var honum og herforíngjum þeim er med honum voru gefid þad ad dauda søk. Kvadst Epamínondas einn vera valdur ad því, gekk fram fyrir ákærumenn sína, sagdist einúngis beidast eins hlutar, þessa, ad sett yrdu á legstad sinn þessi ord;

Epaminondas var dæmdur til dauda af løndum sínum, fyrir þá søk ad hann neyddi þá til ad sigrast á Spartverjum, er einginn tebanskur hersforíngi þordi ádur móti ad líta, og søkum þess hann med einni orrustu hreif ekki einúngis Tebu úr óvina høndum, heldur frelsadi allt Grikkland undan þrældóms oki. Þegar dómendurnir heyrdu þessi ord, dirfdist einginn þeirra ad dæma hann sekan, og gekk hann svo síkn burt af þínginu. Eptir þad fór hann enn sídustu herferd til Pelopseyar. Atenumenn sem sáu ofsjónum yfir sigursældum Tebumanna, gjørdu félagsskap vid Spartverja. Héldu hvorirtveggju lidi sínu til Arkadíu, og bar fundum þeirra saman hjá borg þeirri er Mantínea hét (362). Tókst þar en hardasta orrusta, og vard Epamínondas sár á brjósti. Þóktist hann vita, ad ef dreginn væri oddurinn úr sárinu, mundi þad verda sinn bani, vildi því ekki gjøra þad fyrr enn hann sæi fyrir enda orrustunnar. En er honum kom sú fregn ad hann hefdi unnid sigur, mælti hann: Nú hefi eg lifad nóg, því eg hefi aldrei ósigur bedid. Sídan kippti hann oddinum úr sárinu og féll daudur nidur. Epamínondas var hinn ágætasti hershøfdíngi og spekíngur ad viti; hann var réttsýnn madur, og snaudur var hann ad fé er hann dó, þótt honum gæfist opt færi á ad safna miklum audi. Hann kvongadist eigi, og einhvørju sinni er Pelópídas, sem átti einn son er úrættist, brá honum um ad hann sæi illa fyrir hag þjódarinnar, med því ad láta eingan erfíngja eptir sig, svaradi hann: þjód vorri er þad litid gagn, þótt þú látir eptir þig slíkan son, sem

þinn er, auk þessa er eg ekki afkvæmislaus: Levktru bardagi mun halda uppi nafni mínu medan heimur stendur. Litlu fyrir fall Epamínondasar, var vinur hans Pelópídas látinn. Hann hafdi átt ýmsar orrustur vid Alexander hardstjórg í Feru, og féll í einni, en landar hans feingu þó sigur. Eptir lát þessara miklu manna, misti Teba aptur frægd þá og veldi er þeir höfdu aflad henni.

## Frá Filippusi Masedóníu konúngi.

Medan Grikkir áttu í ófridi sín á millum, kom sá madur til sögunnar í Masedóníu, er um sídir vann ad fullu á þjódfrelsi þeirra. Masedónía hafdi leingi verid ríki, útaf fyrir sig, og litlar sögur þadan geingid, og eigi var þad ríki talid med Grikklandi. En í beyrdum þeim er þar urdu medal landsmanna, var Pelópídas feinginn til ad koma sættum á. Tókst honum þad, og hafdi hann heim med sér aptur marga menn í gíslíngu, þar á medal Filippus konúngs son, úngan ad aldri. Ólst hann upp hjá Epamínóndasi, og þad ætla menn ad hjá honum hafi hann lært hernadar íþrótt. En sem Filippus fréttir lát Perdikkasar konúngs, bródur síns; fer hann sem skyndilegast heim í Masedoníu, gjörist forráds madur Amyntasar bródursonar síns, og sama ár verdur hann konúngur. Sídan tók hann ad leggja undir sig þjódir þær er næstar bjuggu og þar á medal land þad, er liggur millum Strýmons-elfar og Nestus-ár, var þar gnógt gulls, og kom þad Filippusi ad gódu haldi, því hann kunni vel med ad fara. Þad var

máltak Filippusar: ad taka mætti hvørja þá borg, er svo hefdi víd borgarhlid, ad þar kæmist innum asni klifjadur med gull. Filippus var einnig hraustur og vitur herhøfdíngi; tók hann upp nýjan fylkíngar máta á lidi sínu, og vann med því margan sigur. Hugsar hann nú ad hætta ekki fyrr enn hann hefir lagt undir sig allt Grikkland. Var þess ekki leingi ad bída ad Grikkir gæfu honum færi á því. Amfiktyóns rádid *) hafdi dæmt Fósíumenn í fjársektir, vegna þess þeir høfdu brúkad land nokkurt er Apollós hof í Delfis átti; en í stad þess ad gjalda féd, rédust þeir á hofid og rændu þadan ógrynni fjár, og med því móti gátu þeir feingid nógan lids afla til ad heia stríd vid Tebumenn og bandamenn þeirra, er tekist høfdu á hendur ad verja réttindi gudsins. Urdu Tebumenn um sídir ad leita hjálpar hjá Filippusi, vann hann sigur á Fósíumønnum í Tessalíu, og vildi svo halda sudrá Grikkland, en Atenumenn bønnudu þad. Vard svo ad vera sem þeir vildu í þad sinni, en þó nádi hann seinna meir tilgángi sínum, samdi þá frid vid Atenumenn, fór sudur um Laugaskard, sigradist aptur á Fósíumønnum, og svipti þá øllum atkvæda rétti í Amfiktyons rádinu. Ekki áræddi hann þó ad nema stadar í Grikklandi ad svo støddu, en hélt heim aptur. Eskínes mælskumadur þádi mútu af Filippusi, og rédi Grikkj-

*) Í Amfiktyons rádi sátu fulltrúar frá ýmsum grískum þjódum, skyldu þeir rádgast um, og leggja úrskurd á sameginleg málefni manna; sagt er ad Amfiktyon bródir Hellenusar hafi fyrstur stofnsett þetta þjódar þing.

um til, ad gjøra hann ad herøhøfdíngja móti Lókra-mønnum, er gjørt høfdu sig seka í sama glæp sem ádur Fósíumenn. Féllust Grikkir á þad, og fór Filippus á ný med herlid til Grikklands, vann sigur á Lókramønnum, og lagdi í eydi borgir þeirra. Vidureign Filippusar og þeirra Fósíu- og Lókra-manna, hafa menn kallad en helgu stríd. En sem Filippus hefir lokid seinna strídinu, hugsar hann ad Grikki skuli nú heldur minni til reka, ad hann hafi þar komid, enn hid fyrra sinnid, fyrir því setur hann setulid í Elataborg svo hann geti þadan gjørt áráfir á þá. Þá fékk Demostenes*) mælskumadur talad svo um fyrir Atenumønnum, ad þeir gjørdu samtøk vid Tebumenn móti Filippusi. Var áform þeirra ad vísu gott, en þad heppnadist ekki. Filippus átti orrustu vid þá, hjá Koróneu og fékk sigur (338). Setti hann nú Grikkjum løg eptir eginn gédþótta. Sídan var hann kosinn til herøhøfdíngja yfir øllan Grikkja her, bjugguft þeir þá ad fara móti Persum, en ádur Filippus færi, vildi hann sitja brúdkaup dóttur sinnar. Ad því brúdkaupi var hann veginn í Ægisborg af manni þeim er Pásanías hét (336). Er þad søgn sumra manna, ad þad hafi verid gjørt ad rádum Olimpíasar drottníngar hans, er hann hafdi rekid

*) Demostenes er talinn mestur allra mælskumanna á Grikklandi; sagt er, ad honum hafi verid medfædt ad hafa veikan róm, en til þess ad skíra hann og styrkja, skal hann hafa látid smá steina í munn sér, geingid þar ad sem brim skall á land, og talad svo hátt sem hann gat.

frá sér. En adrir segja ad Persar hafi látid ráda hann af døgum, svo herferd sú ónýttist er menn høfdu þá í hyggju.

## Frá Alexander mikla.

Svo mikill madur sem Filippus konúngur þókti vera, vard þó Alexander sonur hans miklu frægari. Hann ólst upp hjá enum nafufræga spekíngi Aristótelesi, og ritadi Filippus honum einkar vinsamlegt bréf, er hann beiddi hann takast á hendur uppfóstur Alexanders, segir hann þar medal annars, ad hann þakki ekki gudunum svo þad, ad hann hafi eignast son, sem hitt, ad þeir hafi látid hann fædast á þeim tímum, er hann gat feingid slíkan spekíng sem Aristóteles fyrir kennara. Alexander sýndi þegar á únga aldri mikla hreysti, og eitt sinn frelsadi hann fødur sinn úr lífs háska. Hann var tvítugur, er hann kom til ríkis, og hugdu þá margar af þjódum þeim, er Filippus hafdi lagt undir sig, gott til ad ná aptur frelsi sínu. Alexander brá skjótt vid, og fór til móts vid þjódirnar og þraungvadi þeim til hlýdni vid sig. Þá gekk sá ordrómur um á Grikklandi, ad hann væri fallinn, tóku þá Grikkir þad rád, ad reka Makedoníu menn af høndum sér. Urdu Tebumenn fyrstir, og drápu einn setulids foríngja makedoniskan. En ódar var Alexander þar kominn, og fengu Tebumenn ad kenna á því. Hann bardist vid þá og fékk sigur, tók (Tebu) borg þeirra og reif nidur hús øll, nema hús Pindars skálds, því hlífdi hann. Eptir þetta tóku Grikkir Alexander

til foríngja yfir sig, móti Persum, var þeim það þó mjøg á móti skapi. Gjørdist það í Korintuborg, hitti Alexander þar hinn þjóðkunna spekíng Díógenes*). Hann hafdist við í einni tunnu, og lét hana velta með sig úr einum stað í annan, og gjørdi sér sem færsta hluti að þarfindum. Konúngur gekk á fund hans, kvaddi hann, og spyr hvørs hann beidist: þá mælti Díógenes: gakk þú til hlidar, að sól fái skinid á mig. Þá er sagt að Alexander hafi mælt: væri eg ekki Alexander, vildi eg vera Díógenes. Þessu næst bjóst Alexander konúngur að fara móti Daríusi Kódómannusi, er í það mund rédi fyrir Persíu, hafdi um lánga tíma ekki jafn ágætur konúngur setid þar að ríkjum. Hélt nú Alexander lidi sínu, og voru það 35,000 manna, austur yfir Ellipalta. Mætti hann herlidi Persa konúngs, við Graníkus fljót, og fékk Alexander sigur. Var þá eingin mótvørn framar í Asíu enni minni. Á þeirri leid kom hann í Gordíusborg í Frygíu. Þar var Knútur sá, um hvørn sagt var, að sá er hann feingi leyst mundi verda yfirdrottnari Asíu. Alexander brá sverdi, og hjó sundur knútinn. Litlu sídar lagdist hann í sótt í Tarsusborg í Silisíu, og hugdu menn honum ekki líf. Medan hann lá sjúkur fékk hann bréf, og var í því varadur við Filippusi lækni sínum, bar svo til að lækuirinn bar hon-

*) Díógenes var einn af heimsspekínga flokki þeim er kalladist hinn Kýniski, þann fiokk hóf Antistenes Lærisveinn Sókratesar fyrstur, og var það einkenni hans að virda einkis allar unaðsemdir og hægindi manna.

um heilsu drykk í því er brèfid kom. Konúngur rètti honum brèfid, las Filippus þad, og breyttist í eingu svipur hans. En Alexander drakk drykkinn og batnadi sóttin. Eptir þad átti hann orrustu vid Persa hjá Issus í Silisíu, hafdi Daríus lid miklu meira, en beid þó ósigur. Feingu Grikkir þar of fjár, og tóku høndum drottníngu og børn Persa konúngs, sýndi Alexander á þeim bædi drengskap og mildi. Eptir þessi tídindi hèlt hann lidi sínu til Sýrlands, og lagdi þad allt undir sig, stódst ekkèrt vid honum fyrr enn hann kom til Týrusborgar, þar vørdust menn í 7 mánudi. Borg þessi stód á eyu einni skammt undan landi, og lèt Alexander gjøra brýr útad henni, en leggja ad herskipum ad utan, er hann fèkk frá Sætt (Sídon), og med því móti vard borgin unnin; reif Alexander hana nidur til grunna, en byggdi sídan upp aptur. Padan hèlt hann sudur um Gydíngaland til Egyptalands, og lagdi þad land undir sig, en átti þar einga orrustu. Í því landi byggdi hann borg þá, er hann gaf heiti eptir sèr og kalladi Alexandersborg, vard húnbrádum einhvør sá mesti verdsluarstadur í heimi. Hann fór og til Líbýu, og gekk í hof Júpíters Ammons, og kalladi hofgodinn hann son Júpíters, hèlt Alexander því nafni sídan, því ad hann sá sèr hag vid þad. Eptir þad hèlt hann austur yfir Evfrat og Tígrisá til móts vid Daríus, vildi hann nú ad skrida skyldi til skarar med þeim, þeir mættust í grend vid Gágamela edur Arbelaborg, hafdi Daríus þá safnad ad nýu miklum her. En hèr fór enn sem fyrri, ad Al-

exander fékk sigur, en Daríus flýdi nordur í Baktríu, og var myrdtur þar af Bessusi jarli, er sjálfur vildi verda konúngur yfir jarlsdæmi sínn. Veitti nú Alexander hægra enn ádur ad leggja alla Persíu undir sig, enda gekk þá hvørt hérad og borg á fætur ødru á hans vald. Því verdur eigi neitad, ad Alexander hafdi mikla kosti til ad bera, þó hafa menn fundid þad margt í fari hans er lýsir því, hvørsu lítid vald hann lagdi á gédsmuni sína. Er þad eitt til marks þar um, hve grimmlega honum fórst vid þá fedga, Parmenió hershøfdíngja sinn og Filótas son hans. Alexander grunadi Filótas um svik vid sig, og lét drepa ekki einúngis hann, heldur og líka fødur hans Parmenió saklausan, og hinn þarfasta mann. Einnig drap Alexander Klítus hershøfdíngja sinn, af því hann tók Filippus, fødur hans, fram yfir hann sjálfan. Var Alexander þá ølvadur og ydradist hann þess mjøg seinna, er hann kom aptur til sjálfs síns. Þad er og sagt um hann, ad hann hafi søkkt sér nidur í sællífi, eins og Persum var gjarnt, og samid sig mjøg ad sidum þeirra bædi í klædaburdi og ødru. Ætladi hann sér ad blanda þjódunum saman, Grikkjum og Persum, og gjøra ad einni, en því fékk hann ekki áorkad. Þegar hann hafdi lagt undir sig Persa lønd, hélt hann austur yfir Indusfljót, og hitti fyrir á Indlandi þann konúng er Pórus hét. Vid hann bardist Alexander, og hafdi sigur, var Pórus handtekinn og leiddur fyrir hann, fannst Alexander svo mikid um høfdíngja svip hans og ein-

urð*) að hann lét hann lausan, gaf honum lönd sín aptur, og gjörði hann að bandamanni sínum. Síðan hélt Alexander áfram ferð sinni, og vissi líklegast ekki sjálfur hvörsu lángt hann vildi halda. En þá reis allur her hans upp, og neitaði í einu hljóði að halda leingra. Varð konúngur þá að snúa aptur, og var honum það þvernauðugt. Meðan hann dvaldist á Indlandi, dó hestur hans; sá hét Búsefalus, og lét Alexander reisa Búsefalusar borg til heiðurs við hann. Nokkru eptir að hann var heim kominn til Babylonar, missti hann Hefæstion, ástvin sinn, og gekk honum missir hans mjög nærri. Litlu síðar lagðist hann í ákaflegri köldusótt og andaðist í Babylon (323 á. f. Kr.). Hafði hann þá lifað tvo vetur og þrjátýgi. Hafa það sumir fyrir satt, að sællífi hafi stytt aldur hans. En alls efa var það hinn mesti skaði að hann dó svo úngur. Öll þau hin miklu áform hans, urðu að eingu, og sundurþykki og drottnunargyrnd herhöfðíngja hans, leiddi nýjan ófrið og óhamíngju yfir lönd og lýði. Hið víðlenda Masedoníu ríki, sem Filippus með viturleik sínum hafði stofnað, en Alexander með hreysti sinni og sigursæld aukið og magnað, fór nú allt á sundrúng.

Meðal herhöfðingja þeirra, er skiptu með sér ríki Alexanders, var Antigónus um lángan tíma hinn voldugasti. En þá voru gjörð samtök móti honum, og voru þeir Kassander í Masedoníu, Ptolomeus Lagi

*) Alexander spurði Pórus, hvernig hann vildi láta með sig fara. Hann svaraði: eins og konúng. Það svar skildi Alexander.

son á Egyptalandi, og Selevkus í Babylon oddvitarnir. Þessir unnu sigur á Antigónusi hjá Ipsus (301) og féll hann þar. Eptir þá orrustu hófust mörg ríki og smá. Meðal þeirra var Sýrínsríki, er Selevkus hinn sigursæli (Nikator) grundvallaði. Varð það voldugast allra þeirra ríkja er komu upp eptir dauða Alexanders. Á dögum Selevkusar, náði það austan frá Indlandi og vestur að Miðjarðarhafs botni. En úr því fór því hnignandi er það var komið í höndur niðja hans, er kölluðust Selevkídar. Var Antiókkus enn mikli þeirra helztur; hann er einkum kunnur að því, hve óheppilega honum gekk móti Rómverjum. Scipio Asiaticus vann sigur á honum við Magnesíu (190 árum f. Kr. f.), missti þá Antiókkus mikið af löndum sínum.

Næst á eptir Sýrlandi má telja Egyptaland sem eitt hið voldugasta og blómlegasta af þessum ríkjum. Ptólómeus, er það setti á stofn, var ekki einúngis mikill hershöfðíngi, heldur unni hann vísindum, og jók mikið velmegan landsmanna með kaupverzlun. Á hans dögum og eptirmanna hans, varð Alexandersborg einhvör mesti kaupstaður í heimi, og aðseturstaður gríkra vísinda. Ptólómeus sonur hans, hinn bróðurholli (Filadelfos) byrjaði fyrstur að safna til ens nafnfræga bókasafns í Alexandersborg, er síðan varð hið mesta er menn þekktu á þeim tímum, og sumir segja að Arabar hafi brennt, þá er þeir lögðu landið undir sig. Bæði þessi ríki (Sýrland og Egyptaland) sem og líka Masedonía og Grikkland, og þau hin önnur smávelti

er komu upp vestan á Asíu og í Evrópu, eptir dagá Alexanders, komust øll að lyktum i hendur Rómverja, og urðu skattlønd þeirra. En þó Grikkland, eptir þá tíð, rétti aldrei við aptur í veraldlegum efnum; jafnvel ekki með tilstyrk akkeiska sambandsins*), hélzt þar þó við ást á íþróttum og vísindum, leingi fram eptir øldum.

## Frá Tímenníngum (Decemviri) í Rómaborg.

Eptir að kóngsstjórn var aftekin í Rómaborg, voru þar jafnan óeyrðir millum Aðalsmanna (Patricii), og alþýðunnar (Plebcii). Urðu svo mikil brøgð að því, að allur þorri úngra manna af alþýðu flokknum, flutti sig úr borginni, til ens svonefnda helgafjalls, og vildi eigi hverfa heim aptur að svo støddu máli. Varð før þessi tilefni til þess, að alþýðan fékk sína yfirmenn yfir sig, er geyma skyldu réttinda hennar, eru þeir nefndir, Alþýðuforingjar (tribuni plebis). Leið ekki heldur á laungu áður þeir sýndu mønnum hvør vøld þeir høfðu. Kom það fram á manni þeim úr aðalsmanna flokki, er Kóríólan hét, hann var enn mesti garpur, en einginn alþýðu vinur; var það eitt sinn að kornekla mikil var í borginni, en sem kornið fékkst, vildi Kóríólan að alþýðan skyldi ekki af því hafa.

*) Á døgum Antigónusar geingu nokkrar borgir í Akkeu í félag til að verja frelsi sitt, einkum fyrir yfirgángi Makedoniumanna. Til var og annað félag, er nefndist hið ætólíska, og var tilgángur þess hinn sami.

Espadist múgurinn þá svo mjøg, ad Kóríólan vard ad rýma borgina. og fara landflótta. Ein af nágranna þjódum Rómverja hétu Volskar. Kóríólan gjørdist fyrirlidi þeirra, og helt til Róms og settist um borgina, en fyrir bænastad módur sinnar og konu, hætti hann umsátrinu og hélt á burt. Eptir þad krafdist alþýda ad fá ritud løg, en þau høfdu menn ekki ádur. Øldúngarádid vard ad heita því. Voru þá sendir 3 rádherrar til Atenuborgar, til ad safna grískum løgum, einkum Sólonar. En sem þeir komu heim aptur, voru nefndir til 10 menn (Decem viri, tú menníngar) er ransaka skyldu løgin, og laga þau eptir þørfum Rómverja, en medan þeir væru vid þann starfa, skyldu þeir hafa sømu vøld sem Vandrædastillir*) (Dictator) en øll ønnur embætti voru á medan aftekin. Hid fyrsta ár fór allt vel fram, en sem tímenníngarnir høfdu feíngid leingdan verka tíma sinn, tóku þeir ad sýna mønnum hvørir þeir voru. Einn þeirra hét Appíus Kládíus, hann var þeirra verstur, og olli því ad af voru tekin þessi 10 manna vøld. Hann hafdi litid konu þá er Virginía hét, og lagt ástarhug á hana; til þess ad ná henni á sitt vald, fann hann upp ena svívirdilegustu vél. Hann fékk einn af þjónum sínum er Klódíus hét, enn mesta skálk, til ad ljúga því upp, ad Virginía væri dóttir einnar af ambáttum sínum, og væri þessvegna

*) Rómverjar veldu einn mann er þeir kølludu *Dictator* (Vandrædastillir, Alrædismann), þegar ríkinu var einhvør sérleg hætta búin; hann hafdi ótakmarkad veldi, en vard ad leggja þad nidur aptur eptir eitt misseri.

sín eign. Dregur Klódíus hana fyrir dómstól Appíusar, og dæmir hann Klódíusi í vil. En málinu var skotid á frest til næsta dags, eptir beidni ættíngja hennar, vildu þeir gjøra ord fødur hennar er Virginíus hét og var í herunm. Appíus baud ad géfa honum ei fararleyfi, en þad var um seinan, því hinn hafdi þegar feingid þad, og kom til Rómaborgar. Daginn eptir geingur hann og dóttir hans á fund Appíusar, og reynir á ymsa vegu ad leida honum fyrir sjónir, ad dómurinn sé rángur, en þad kom allt fyrir ekki. Þó hugsar Virginíus þad ráð, ad aldrei skal hann gefa dóttur sína í hendur þessum hinum vonda seggi, og bidur nú, ad hann megi kvedja dóttur sína. Er honum veitt þad, en í því grípur hann knif einn, og rekur í brjóst henni, og æpir hástøfum á gudi og menn til hefnda yfir Appíusi. Þá reis múgurinn á fætur. Var Appíus tekinn og settur í fjøtur, og drap hann sig sjálfur í þeim. Var þá allt sett í sama horf og verid hafdi ádur tímenníngarnir komu til søgunnar (449). Løg þau er þeir høfdu tekid saman eru køllud Tólf tablna løg, því þau voru ritud á tólf eirtøblur, héldust þó enn vid lídi.

## Frá Fuiusi Kamillusi.

Auk þess sem einatt voru deilur med Rómverjum innbyrdis, áttu þeir jafnan í høggi vid nágranna sína, og báru optast hærra hlut. Hvør madur rómverskur var hermadur, og gjørdust sumir þeirra ágjætir hershøfdíngjar, því æfíngu skorti ekki. Medal hershøfdíngja

Rómverja í fornöld, má einkum telja Furíus Kamillus. Hann var optar enn einusinni bjargvættur Rómaborgar. Veji-manna borg var leingi Rómverjum ein hin örðugasta viðureignar, höfðu þeir setið um hana nokkur ár, og feingu eigi unnið, fyrr enn Kamillus kom til. Hann vann borgina með ráðum og hreysti, en mönnum mislíkaði stórum, er hann hét Appollóni nokkru af herfánginu, urðu liðsmenn hans að láta laust margt af því er þeir höfðu tekið, og undu því ílla. Allt fyrir það hafði þó Kamillus herstjórn á hendi eptir það, og fór móti Faleríu borg og komst hún þannig á vald hans. Þar var skólakennari einn, er hafði börn hinna helztu manna undir umsjón sinni, hann reyndi með svikum að koma sér í mjúkinn hjá Rómverjum. Það var venja hans að gánga með börnunum út fyrir borgina, og eittsinn fór hann með þau fast að herbúðum Rómverja; gekk á fund Kamillusar, og bauð að selja af hendi við hann börnin, mundi honum þá veita hægt að taka borgina. Kamillus bauð við slíkum hrekkjum, og lét binda hendur skólameistara á bak aptur, og börnin reka hann undan sér heim í borgina. En sem borgarmenn frétta þennan atburð, undruðust þeir göfuglyndi Kamillusar, og gáfust upp fyrir honum. En Rómverjar launuðu honum á annan veg, því jafnskjótt sem hann var heim kominn, var farið að hreifa við herfángs málinu forna, frá Vejium. Til þess að komast undan hatri borgarmanna, fór Kamillus landflótta til Arðeu; en Rómverjar þurftu bráðum hjálpar hans við, og þótt honum hefði verið óréttur gjör, var

hann strax fús til ad hjálpa födurlandi sínu þegar það var í kröggum. Um þær mundir héldu enir Sennónisku Gallar, er um hrid höfdu dvalid í Italíu, her sínum móti Klúsíu borg í Etrúríu, og hét sá Brennus er fyrir þeim var. Sáu borgarmenn sitt óvænna, og beiddu Rómverja midla málum med þeim. Sendu þeir þá 3 menn, af Fabíusar ætt, til fundar vid Brennus. En sem þeir gátu eingu til leidar komid, gjördust þeir fyrirlidar Klúsíu manna og rédust á Brennus. Pad sárnadi honum mjög, og heimtgdi þá framselda í Rómaborg, því var neitad, og þá hélt hann öllu lidi sínu sudur þángad, rédist á Rómverja vid Allía fljót og vann sigur. Flýdu þeir yfir háls og höfud, sumir til Veju borgar, sumir til Kapitóliums kastala (hjá Róm). Enir gömlu rádherrar urdu einir manna eptir í borginni, og bidu þess ad Gallar kæmu. En sem þeir komu, voru þeir svo trylltir, ad þeir hjuggu nidur Öldúngana, lögdu eld í borgina og brendu til ösku (389). Var þá eigi annad eptir enn Kapitólíum, og sóktu nú Gallar þángad med allan sinn her, en þeir vörduset vasklega er fyrir voru. Eitt sinn höfdu Gallar því nær tekid kastalann, þeir höfdu í náttmyrkri farid einstig eitt, og klifrast upp hamrana uppí kastalann. Urdu hvörki vökumenn né vardhundarnir þess varir. En gæsir þær er þar voru, og Júnó voru helgadar, hófu upp kvak mikid, og þá vaknadi Títus Manlíus. Rédist hann í fyrstu einn móti þeim er upp voru komnir, en sídan komu fleiri til lids vid hann, og hrukku þá Gallar undan og ofanfyrir bergid. Af

þessu hreysti verki fékk Manlíus vidur nefnid Kapitó-línus; en mjøg spillti hann sídan virdíngu sinni, er hann vildi verda konúngur Rómverja, og var honum þá hrundid nidur fyrir Tarpeinsar hamar. En þad er frá þeim ad segja er vørdust á Kapitólium, ad Gallar feingu ad sønnu ekki tekid kastalann, en þó urdu hinir ad géf-ast upp, vegna þess ad vistir þrutu fyrir þeim. Settu Gallar þeim þann kost ad greida sér ærid fé í gulli, en þá kom Kamillus ad med her manns er hann hafdi safnad í næstu borgum. Gjørdu Rómverjar hann ad Vandrædastilli (Dictator), var hann þá ekki seinn til lids vid þá, og lét sér ekki í minni fast vansemd þá er þeir høfdu honum gjørt. Þegar Kamillus kom ad, voru Gallar ad vega gullid, kvørtudu Rómverjar um ad rángt væri vegid. En Brennus tók sverd sitt og lagdi á skálarnar og mælti: sigradir menn verda ad láta sér allt vel líka. Þá kallar Kamillus upp og seg-ir: eigi munu Rómverjar kaupa frelsi sitt med fé, held-ur med sverdseggjum. Þvínæst gjørir hann áhlaup á Galla, og hættir ekki fyrr enn nálega er fallid allt lid þeirra, (390 f. Kr. b.). Eptir þad var Rómaborg byggd ad nýu, og vard á skømmum tíma eins voldug og ádur hafdi verid. Í þad mund hófust á ný óeyrd-ir milli borgarmanna, en Kamillus fékk sefad þær, og átti almanna lof fyrir. Þá var þad tekid í løg, ad jafn-an skyldi annar rædismanna tekinn af Patricia flokki, en hinn af Plebeium. Svo skyldi og velja einn Løg-søgumann (Prætor), er segja skyldi løg og stýra dóm-um. Kamillus andadist á áttrædis aldri, og vard sótt-

daudur, vard hann lødum sínum mjøg harmdaudi, því hann hafdi verid sómi ættjardar sinnar, og hid mesta afbragd annara manna.

## Frá vidureign Rómverja vid Latíni, Samníta og Tarentu menn.

Hreysti enna fornu Rómverja var ad mestu leiti sprottin af ást til ættjardar sinnar, er svo var sterk, ad þeir vildu leggja allt, jafnvel lífid sjálft, í sølurnar fyrir hana. Má og finna til þess mørg dæmi í søgu þeirra. Í ófridi þeim er þeir áttu vid Latíni, vard rómverskur madur einn, Decius Mús ad nafni, frægur af hreysti sinni; hann braust inní fylkíngar óvina sinna, og lét líf sitt til þess ad útvega Rómverjum sigurinn. Ádur enn orrustan vard, er sagt hann hafi heitid ad láta líf sitt, til þess landsmenn síuir feingu sigur, en óvina herinn ósigur. Nokkru sídar fékk sonur hans mikinn ordstír, hann átti samnefnt vid fødur sinn. Títus Manlíus Torqvatus sýndi í enu fyrrgreinda strídi, hvørsu annt honum var um aga á herlidinu, ad hann lét taka af lífi son sinn Títus Manlíus. Hinn rómverski hershøfdíngi hafdi lagt ríkt á vid lids menn sína, ad hvørr þeirra skyldi vera þar kyrr sem honum hefdi verid skipad í fylkíngu, hvørutveggi herinn var mjøg líkur ad vopnabúnadi, og fyrir því óttadist hann ad þad mundi valda óreglu ef nokkur yfirgæfi sínar stødvar. Þá gekk fram madur nokkur úr lidi þeirra Latínu manna, og skorar einhvørn af Rómverjum á hólm vid sig, kallar þá mannbleydur og mørgum ødrum hád-

þrdum, ef þeir þori eigi ad berjast. **Titus Manlíus** stódst ekki eggjunar ord hans, gleymir bodi fødur síns, rédst á móti enum latínska manni og leggur hann ad velli. Sídan fer hann aptur til sinna manna, og tóku þeir vid honum allir tveim høndum, nema fadir hans, var honum þúngt í skapi og býdur ad fá hann í hendur bødli, og láta taka af lífi. Beiddi allur herinn honum gridar, en þess var einginn kostur. Hershøfdínginn sagdi: fyrst þú hlýddir hvørki skipun rædismannsins, edur bodi fødur þíns, svo hlýtur þú ad sæta þúngum refsíngum, til ad sýna mønnum strids aga Rómverja. Var svo dómurinn framkvæmdur á honum, en rædismadurinn fékk vidurnefnid hinn **hardrádi** (**imperiosus**).

Rómverjar áttu og í strídi vid **Samníta**, og høfdu ýmsir betur, þó lauk svo vidureign þeirra, ad Rómverjar báru hærra hlut. Medan sá ófridur stód, bar svo vid, ad **Pontíus**, einn af fyrirlidum Samníta, umkríngdi **Posthúmíus**, rómverskan hershøfdíngja, med sveit manna í dalverpi því, er nefnast hin **Kádínsku klif**. Gjørdi Pontíus ord fødur sínum og spyr hann, hvørnig hann skuli fara med þá hina umkríngdu menn. Øldúngurinn svaradi: ad hann skyldi láta þá alla fara leidar sinnar og gjøra þeim ekki mein. Pontíusi þókti svarid kynlegt, og lætur spyrja hann aptur, hvad gjøra skuli vid þá. Hinn svaradi: ad þá skyldi alla drepa. Pontíusi líkadi hvørigt svarid, lét Rómverja alla gánga undir ok, og sleppti þeim sídan, en ádur urdu þeir ad lofa því, ad berjast aldrei framar móti Samnítum. Enn

rómverskí herhøfdíngi lýsti því yfir, er hann var heim kominn, ad eidurinn væri ekki skuldbindandi fyrir Rómverja, þared hann hefdi unnid hann naudigur, skyldu þeir því fá sig í hendur óvinunum. Var nú svo gjørt, en Pontíus vildi ekki veita honum móttøku, og þókti Rómverjar eingu ad sídur hafa rofid eidinn. Tókst nú ófridur ad nýu, er svo lauk, ad Rómverjar løgdu Samníta undir sig.

Skømmu seinna hófst ófridur med Romverjum og Tarentu-mønnum, er bjuggu sunnan á Italíu, edur Grikklandi enu mikla, sú þjód var voldug og hafdi gjørt á hluta Rómverja. En skjótt fundu Tarentumenn, er lifad høfdu í svalli og sællífi, ad Rómverjar voru hardir í horn ad taka, og mundu eigi vera sitt medfæri. Fyrir því leitudu þeir lids hjá Pyrrusi konúngi, er í þad mund rédi fyrir Epírus á Grikklandi. Hann tók því feginsamlega, því hann var madur stórhuga og dramblátur, og þó Síneas rádgjafi hans rédi honum frá slíku fyritæki, hélt hann samt med miklu lidi og nokkrum fílum til Italíu. Var eigi leingi ad bída, ádur hann ætti orrustu vid Rómverja, og hafdi ad sønnu sigur, er hann átti fílum sínum ad þakka, en honum gafst líka færi á ad dádst ad hreysti óvina sinna. Eptir bardagann gekk hann um orrustu vøllinn, og sá hvar Rómverjar lágu fallnir, hvør þar sem hann hafdi stadid í fylkíngu. Pá mælti Pyrrus: væri eg konúngur Rómverja, skyldi eg treysta mér til ad leggja undir mig allar þjódir. Um þetta mund var sá madur med Rómverjum er Fabrisíus hét, hann var allra manna rád-

fastastur og ósérplægnastur. Rómverjar sendu hann til Pyrrusar, þess erindis ad fá þá lausa er til fánga voru teknir. Baud Pyrrus honum ena bestu kosti ef hann viidi verda sinn madur, en Fabrisíus gaf ad því eing an gaum. Daginn eptir gekk hann til tjalds Pyrrus ar, og hugsar nú konúngur ad vinna þad med hótun um, er hann hafdi eigi gétad med fögrum lofordum. Hann hafdi fíl einn í tjaldi sínu, svo Fabrisíus vissi eigi; og er minnst vardi, lét hann lypta upp tjald skörinni, rak þá fílinn upp ßkur mikid og teigdi ranann yfir Fabrisíus. Hann lét sér ekki billt vid verda, og mælti: dýr þetta hrædist eg eins lítid, eins og sé þad sékk á mig er þú bauzt mér. Nokkru seinna ritadi læknir Pyrrusar Fabrisíusi bréf, og baudst ad gésa kon úngi eitur, ef Rómverjar vildu launa sér ad nokkru. En í stad þess ad svara lækninum, sendir Fabrisíus konúngi bréfid, og rædur honum ad hafa gát á þjón ustu mönnum sínum. Þá fylltist Pyrrus - undrun og sagdi: þad er jafn erfidt ad leida Fabrisíus af vegi dygdar og skyldu, sem sólina af brautu sinni. Pared nú ekki gat komist fridur á med Rómverjum og kon úngi, lagdi hann enn til orrustu vid þá, og sékk ad sönnu sigur, en keypti hann svo dýrt, ad honum vard ad ordi: vinni eg aptur annan eins sigur, þá er útí um mig. Litlu sídar fór hann af Italíu til Sikileyar, hösdu eyarmenn kvadt hann til lids vid sig móti Kartagóborgar mönnum, veitti honum þar all erfidt, og snéri vid þad, eptir bón Tarentu manna, aptur til Italíu. Loksins hádi hann orrustu vid Curius Den-

tatus í grend við borgina Beneventum. Þar fékk Pyrrus ósigur, og varð að flýa burt af Italíu, og láta Tarentumenn sjá fyrir sjálfum sér. Tóku Rómverjar borg þeirra litlu síðar (272); høfðu þeir þá unnið undir sig alla Suður-Italíu. Pyrrus konúngur reyndi síðan að vinna það aptur í Grikklandi, er hann hafði mist á Italíu. En sem hann hélt inní borg þá er Argos hét, kastaði kona ein þaksteini í høfuð honum, og fékk hann af því bana.

## Viðureign Rómverja og Kartagóborgar manna, (Púniskustríðin). I. Hið fyrsta púniska stríð. Regúlus.

Þegar Rómverjar høfðu lagt undir sig Italíu, knúði drottnunargyrnin þá til að auka enn fremur veldi sitt, og ásælast aðrar þjóðir. Kartagóborgar menn høfðu leingi leitast við að efla ríki sitt á Sikiley, en innbúarnir í Sýrakúsu, er var stór og auðug borg þar á eynni, veittu þeim jafnan mótspyrnu. Borgarmenn þessir høfðu tekið á mála þjóðflokk þann af Suður-Italíu er Mamertínar eru nefndir. En er hermenn þessir skyldu heim snúa til Italíu, tóku þeir Messanaborg, og rændu bæði eignum Kartagiskra og Sýrakús manna. Gjørðu nú hvørirtveggju þessara þjóða, er áður høfðu átt í ófriði saman, samtøk sín á milli, og settust um Messanaborg. Þreyngdi þá svo að Mamertínum, að þeir urðu að leita trausts hjá Rómverjum. Vildi Øldúnga ráðið í fyrstu ekki verða við bón þeirra, en allur þorri manna var fús til þess,

fyrir því menn óttuðust að ella mundi Messanaborg komast í höndur Kartagiskra. Hétu þeir þá liðveizlu sinni, og þannig hófst hið fyrsta púniska stríð, (264 vetrum f. Kr. b.). Rómverjar sendu nú herlið til Sikileyar og lögðu Messanaborg undir sig. Eptir það unnu þeir sigur á Kartagiskum og Sýrakús mönnum, sömdu þá enir síðarnefndu frið við Rómverja og gjörðust bandamenn þeirra. En Rómverjar urðu þess skjótt áskynja að sig vantaði herskip, svo þeir gætu rekið Kartagiska burt af Sikiley, og létu sér því mjög annt um að afla sér skipa. Þá bar svo við, að Kartagiskir mistu skip eitt, og rak það á land hjá Messanaborg, eptir því smíðuðu Rómverjar skip sín, og feingu þannig á stuttum tíma yfir tíutýgi skipa. Settu þeir Dúilíus ræðismann yfir flota þennan, og sendu móti Kartagiskum. Sá hann skjótt að sér mundi verða erfitt að berjast við þá, er vanir voru sjóorustum, nema hann hitti á eitthvert bragð er þeim væri ókunnugt. Fyrir því lét hann setja stafaljár á sín skip, og með þeim fékk hann dregið að sér skip óvina sinna; líktist þá orrustan því sem á landi væri barist, en þar voru Rómverjar miklu fremri fjandmönnum sínum, og því fékk Dúilíus sigur. Var honum og sigri þessum til minningar reistur heiðursvarði í Rómaborg, og leyft var, er hann gékk heim til sín að kveldi, að flokkur manna fylgdi honum með hljóðfæraslætti og blisum. Þessu næst verður að géta hér þess manns, er í eingu var miður að sér enn Dúilíus, og var rómverskur eins og hann, það var Atilíus Regúlus. Einhvörju sinni

átti hann margar sjóorrustur við Kartagiska á einum degi, og lendti skipum sínum við Afríku strandir, eigi alls lángt frá Kartagóborg; urðu borgarmenn þá skelkaðir og leituðu um sættir við Rómverja. Setti Regúlus þeim þá friðarkosti, er þeir gátu eigi geingið að. Þá var með Kartagiskum spartverskur hershøfðíngi sá er Xantippus hét, hann fór með her manns til móts við Regúlus, vann sigur og fékk tekið hann høndum. En með því Kartagiskum leiddist ófriðurinn; sendu þeir sendiherra til Róms, þess erindis að semja um frið, og fá herteknа menn leysta úr fángelsum. Var Regúlus sendur með til að styðja mál sendiboðanna. Yrði honum ei ágeingt það sem sett var fyrir hann, hét hann að snúa aptur á vald Kartagiskra, og vann þar eiða að. En sem hann kom til Rómaborgar, vildu ráðsherrarnir sættast, en hann réði þeim frá að taka nokkrum friðar kostum, eður selja af hendi ena herteknu menn, og færði gyld røk fyrir sínu máli. Eggjuðu menn nú Regúlus að verða í Róm og fara hvørgi, en þó hann ætti víst að enar grimmustu píntíngar biði sín í Kartagóborg, vildi hann heldur aptur snúa enn rjúfa eið sinn. Fór síðan þángað, og þoldi með enni mestu hugprýði kvalir þær er Kartagiskir løgðu á hann. Hélzt ófriður leingi eptir það. Kládíus Pulcher (hinn fríði) einn af hershøfðíngjum Rómverja olli þeim eitt sinn ósigurs með ógætni sinni, en þeir feingu þann skaða bættan; er Lútatíus Katúlus gjøreyddi flota Kartagiskra við Sikiley. Var þá hvorttveggja að tæmdir voru ríkissjóðir þeirra, enda urðu þeir að gánga að þeim

fridarkostnm sem Rómverjar vildu setja þeim: . skyldu Kartagiskir rýma Sikiley, og allar eyar þar umhverfis; eiga frid vid Hieró konúng í Sýrakúsu; gjalda Rómverjum 2200 *talentur* *) og kaupa út alla sína menn er í vardhaldi voru hjá Rómverjum, en selja af hendi ena rómversku fánga fyrir alls ekkért. Pessi fridur var saminn 241 vetri f. Kr. b.

## II. Hid annad púníska stríd. Hannibal. Scipió.

Litlu eptir ad fridur þessi var saminn, er nú var gétid, gjørdi málalid Kartagiskra uppreist mikla, bædi heima í Kartagó og á Sardínarey, kom þad af því, ad Kartagiskir gátu eigi goldid þeim allan málann. Rómverjar sendu þá her manns útí Sardínarey, og létust mundi veita Kartagiskum lid, en sú lidveizla vard þannig, ad þeir løgdu sjálfir undir sig eyuna, og heimtudu þaradauki 1200 talentur af Kartagiskum í ómakslaun. Kartagó var þá í krøggum, og vard ad gánga ad þeim kostum. En Hamilkar, ad auknefni Barkas (skrugguljós), fékk sefad uppreistina í Kartagóborg. Og sem hann hafdi lokid því starfi, festi hann augun á Spáni, og hugdi ad bæta úr missi þjódar sinnar med því ad leggja þar lønd undir hana. Heldur hann nú nordur yfir Njørfa sund, og hefir med sér son sinn 9 vetra gamlan, þann er Hannibal hét; en ádur hann færi af stad, lét hann sveininn lofa því med eidi: ad

*) *Talentum* var badi jafnvægi 6 fjórdúnga, og jafngyldi 800 Specía.

hann skyldi vera fjandmadur Rómverja alla æfi. Hamilkari og Hasdrúbali er eptir hann tók vid herstjórn á Spáni, vard þar svo vel framgeingt, ad Rómverjum tók ad standa ótti af þeim, og feingu þá til ad semja þannig vid sig: ad þeir skyldu ekki rádast á Sagúnt borg, edur fara nordur yfir Ebrófljót. Stód sá samníngur til þess er Hannibal fékk herstjórn á Spáni. Hann var, eins og ádur er sagt, svarinn óvinur Rómverja. Leid ekki á laungu ádur hann rédist á Sagúnt, er var í sambandi vid Rómverja. Kølludu þeir þad fridar rof, en eptir því hafdi einmidt Hannibal bedid. Hófst nú hid annad púniska stríd, 218 árum f. Kr. b. Hélt Hannibal lidi sínu nordur yfir Pyrenæa fjøll, og austur um Galla lønd; bardist hann vid ýmsar þjódir á þeirri ferd, og fékk jafnan sigur. Var þad áform hans, ad sækja Rómverja heim, og berjast vid þá á Italíu. Cornelíus Scipio rædismadur, einn af hershøfdingjum Rómverja, rédst til móts vid hann í Gallíu, og vildi banna honum leidina, en þad kom fyrir ekki. Stódst og heldur ekki fyrir honum sá hinn mikli varnargardur er náttúran hefir sett fyrir nordan Italíu, en þad eru hin himin háfu Mundía fjøll (Alpes), þar sem eingum hafdi til hugar komid ad mønnum mundi fært, lagdi Hannibal med lidsmenn sína og farángur uppá fjøllin. En svo íllt sem var ad komast uppá þau, var þó verra ad komast nidur af þeim, því þau eru brattari ad sunnan. Eittsinn var herinn kominn fram á hamra nokkra afar háfa og þverguipta, sáu menn eingan veg til ad komast nidur

af þeim; þá lét Hanníbal fella eikur stórar að hömrunum, og bera eld að, lagði þá logann á bergið; en sem það var heitt orðið, lét hann stökkva ediki á það, varð þá hamarinn svo mjúkur og meyrr að höggva mátti braut í hann, fór hann hana niður, ekki einúngis með farángur og vinnudýr, heldur einnig með fíla þá er hann hafði meðferðis. Þannig braust Hannibal þrátt fyrir allar torfærur og erfiðleika yfir fjöllin á 15 dögum. Sagt er að hann hafi farið með 59 þúsundir manns yfir Pyrenæafjöll. En þegar hann kom ofan af Mundíafjöllum, voru menn hans orðnir einar 20 þúsundir fótgaungu liðs og 6000 riddara liðs. Með þessum liðsafla réðist hann á Rómverja, er höfðu, að því er Polybíus sagnaritari segir, 150,000 manns undir vopnum, en á allri Italíu nálægt 800,000 hermanna. Suður við Tessínará (Ticinus) mætti Scipio honum aptur með her manns, börðust þeir og fékk Hannibal sigur. Varð Scipio sár og komst nauðuglega undan með hjálp sonar síns, er þá var 19 vetra, og náði seinna svo mikilli frægð í þessum ófriði. Skömmu eptir þessa orrustu vann Hannibal annan sigur á Rómverjum við Trebíafljót. Ari síðar vann hann frægan sigur á Flaminíusi ræðismanni við Trasimenus vatn, féll her Rómverja því nær allur, en Flaminíus réði sér sjálfur bana. Sló nú miklum ótta á Rómverja og tóku þeir það ráð að velja Vandræðastillir (Dictator). Varð Fabius Maximus fyrir valinu, hann var hinn vitrasti maður og vel stilltur, sá hann þegar, að ræðismenn þeir er á undan honum höfðu haft her-

stjórn á hendi, höfdu med framhleypni sinni og ákafa stofnad þjódinni í þennan vanda; fyrir því leitadist hann vid á alla vegu ad leggja aldrei til höfud-bardaga vid Hanníbal, heldur mæda hann á sífeldu ferdalagi og snúningum þar í fjöllunum; því gáfu Rómverjar honum viduruefni, og kölludu Cunctator (Fjallalæda). Einhverju sinni hafdi Fabíus umkríngt Hannibal í dalverpi einu í Appenínafjöllum. En Hannibal komst úr þeim kvíum med kænsku sinni; er sagt hann hafi látid smala nautahjörd mikilli, binda smáar hrísbirdar ofaná milli horna nautunum, og kveikja svo í; ærdist þá hjördin og leitadi út úr dalnum þar sem Rómverjar höfdu fyrirsátrin. En sem þeir sáu eldana, ætludu þeir ad þar mundi Hannibal fara, hlupu til og sögdu Fabíusi, en á medan Rómverjar gáfu sig vid nautahjördinni, komst Hannibal annan veg burt úr dalnum med alla menn sína. Litlu sídar þá er Hannibal fór um bygdina, rændi hann hvervetna, nema þar sem Fabíus átti jardir, þeim var öllum hlíft. Ætludu því Rómverjar ad þeir mundu vera vinir á laun, enda sparadi ekki Minúcius, er næstur gekk Fabíusi ad völdum vid herinn (magister eqvitum) ad styrkja þá í þeirri trú. Var þá herböldum skipt med þeim Fabíusi. Og jafnskjótt hætti Minúcius til orrustu vid Hannibal, mundi þá hafa ordid úti um hann, ef Fabius hefdi ekki komid honum til lids. Fékk þá Minúcius aptur Fabíusi ædstu völdin í hendur. Árid eptir voru þeir Páll Æmilius og Terentius Varro rædismenn. P. Æmilius var vitur og gætinn hershöfdíngi, en hinn djarfur og fram-

hleypinn. Fékk Hanníbal komid honum til orrustu vid sig, móti rádum Æmilíusar, hjá Kanna = þorpi á Sudur-Vallandi (216). Pad var sú mannskædasta orrusta er Rómverjar áttu nokkru sinni. Par féllu 45,000 af Rómverjum, og Páll Æmilíus hershöfdíngi, en Varro flýdi undan med fáa menn. Pó létu Rómverjar ekki huginn bila, og geingu rádherrarnir móti Varro, og þökkudu honum fyrir þad, ad hann hefdi eigi örvænt um frelsi fósturjardar sinnar. Eptir þessa orrustu gekk öll Sudur-Italía á vald Hanníbals. Hélt hann nú lidi sínu, ekki til Róms, heldur til Kapúa og hafdi þar vetursetu. En fyrir því fór hann ekki strax til Róms, ad hann þóktist ekki nógan lidsafla hafa, því þó Rómverjar hefdu feingid mikid manntjón, var þó enn mikil vörn fyrir í borginni, enda var þad og einkenni þeirra, ad þeir voru þá hvad óttalegastir þegar ad þeim þreyngdi sem mest. Beid svo Hanníbal þess ad honum væri sendur lidstyrkur frá Kartagó, en öfundarmenn hans heima komu því til leidar, ad þad drógst á 9da ár. Pá kom loks Hasdrúbal bródir hans med lid frá Spáni, en ádur hann nædi ad sameinast vid Hanníbal, lögdu Rómverjar til orrustu vid hann. Par féll Hasdrúbal, en Rómverjar hjuggu höfud af honum og sýndu Hanníbali. Pá er sagt ad hann kæmist þannig ad ordi: nú sje eg fyrir forlög Kartagóborgar.

Eptir ad Hasdrúbal var farinn burt af Spáni, lagdi Publíus Cornelíus Scipio, (sá er ádur er sagt ad hjálpadi födur sínum úr bardaganum vid Tesínar

á), þad land algjörlega undir sig, en sem hann hafdi lokid því starfi, kémur hann til Róms og leggur bad ráð ad fara med her manns yfir til Afríku, til þess ad Hannibal verdi ad fara burt af Italíu. Þóktust menn í fyrstu ekki géta fallist á ráð hans, en þar kom þó, ad því var fylgt. Hélt nú Scipio sudur til Afríku, gjörir samband vid Maseníssa Númidíu kóng, og stefnir lidi sínu til Kartagóborgar, eptir ad hann hafdi unnid sigur á herlidi því er sendt var móti honum. Var nú eigi betur komid fyrir Kartagiskum, enn ádur Rómverjum, og ekki annad ráð vænna, enn gjöra ord Hannibali ad hann kæmi sem skjótast. Snéri þá hetjan heim aptur af Italíu, og var þúngt í skapi. Voru þá lidnir 16 vetrar sídan hann steig fyrst fæti á land í Italíu, og eptir enn þad, er hann gyrntist mest allra hluta, en þad var ad brjóta undir sig Rómverja til fulls og alls; dregur hann nú lid ad sér, og stefnir því til móts vid Scipio; vildi Hannibal semja um frid vid hann, en Scipió tók því fjærri, og kvad best þeir reyndu med sér. Tókst þá orrusta milli þeirra tveggja manna, er þá voru ágætastir hershöfdíngjar í heimi. Var lidsafli líkur hjá hvöritveggjum, en sá var munurinn, ad Rómverjar voru allir einhuga og vongódir, en menn Hannibals voru samtíníngur af ýmsum þjódum, og geingu 'all misjafnlega til skaps útí bardagann. Hannibal fylkti lidi sínu ágætlega, ad sögn sjálfs Scipiós, og sýndi medan á orrustinni stód hvílíkur hershöfdíngi hann var, en þó fékk hann ekki vidrádid, voru menn hans þvínær allir drepnir edur handteknir, en sjálf-

úr komst hann nauduglega undan. Pessi nafnfræga orrusta stód hjá borg þeirri er Zama hét, 5 dagleidir frá Kartagó, (201 á. f. Kr.)

Pessunærst var farid ad tala um fridinn, rédi Hannibal loudum sínum, ad þeir skyldu taka hvorjum helzt fridarbótum sem bidust. Rédi nú Scipió einn þeirra á milli, og setti Kartagiskum þá kosti: ad þeir skyldu gjalda 10,000 talentur í 50 ár; láta af hendi alla skila, og øll sín skip nema 10, sleppa øllu því er þeir høfdu unnid útanríkis og á Spáni, en láta sér nægja hin fornu landamerki í Afríku; skila Masinissu konúngi øllu því aptur er þeir høfdu frá honum tekid, heja ekkért stríd án vilja Rómverja og vitundar, og setja þeim 100 manns í gíslíngu.

Af þessum sigri og afreksverkum fekk Scipio vidur nefnid Afríkanus.

Núþegar svo var komid, leitadist Hanníbal vid, ad vinna landsmønnum sínum gagn eins í fridi sem í strídi, komust þeir og brádum til audæfa aptur med verdslun sinni, tók þá Rómverjum ad standa ótti af þeim, og héldu því ad bést mundi vera ad hafa gætur á Hannibali, sendu því menn til Kartagóborgar, og heimtudu hann framseldan, en hann komst undan, og leitadi á fund Antiokkusar mikla á Sýrlandi, og eggjadi hann ad færa Rómverjum stríd á hendur. Mundi hann og hafa ordid Rómverjum hinn skædasti óvinur, ef hann hefdi fylgt rádum Hannibals, og farid med her manns til Italíu; en í stad þess fór hann,

ad ráðum Ætólanna, til Grikklands, voru menn þar ófúsir til liðveizlu við hann, reisti hann og eigi rønd við Rómverjum, er héldu her sínum austur í Asíu. Þar átti Lúcíus Scipío, bróðir Scipíos Afríkanusar, orrustu við Antíokkus, hjá Magnesíu borg, og fékk Scipió sigur. Það var eitt í friðarkostum þeim er Antíokkusi voru settir, að hann skyldi framselja Hanníbal. En Hanníbal komst enn undan og flýði til Prúsíasar Bityníu konúngs. Þángað komu Rómverjar og krøfðust af konúngi, að hann seldi þeim í hendur Hanníbal, og þorði konúngur ekki annað enn játa því. En er Hanníbal sá, að sér mundi hvergi vært fyrir Rómverjum, tók hann eitur, er hann jafnan bar á sér, og lét svo líf sitt (183). Á því ári dó og Scipío Afríkanus, í útlegð á búgarði sínum, á Vallandi enu syðra. Honum var gefið að søk, að hann hefði ránglega dregið sér nokkuð af herfángi því, er fékkst í orrustunum við Antíokkus mikla. Scipío gékk á þíng, og talaði meðal annars þessum orðum til liðsins: á þessum degi (fyrir 16 árum) barðist eg við Hanníbal hjá Zama, og fékk sigur; fyrir því er eg þess albúinn, að gánga héðan uppá Kapitólíum, og færa Júpíter og enum sælu guðum þakkir, að þeir veittu mér, bæði á þeim degi og øðrum, faung og færi á að vinna sigur fyrir ættjørðu mína. Við þessi orð þøgnuðu ákærumennirnir. Þó fór Scipío burt úr Rómaborg, og er sagt að hann hafi jafnvel ekki viljað láta grafa sig þar.

## III. Hið þriðja púniska stríð.

Kartagiskir urðu, eins og áður er sagt, að lúta Rómverjum og láta eignir sínar fyrir þeim, en allt um það, hagur þeirra blómgaðist enn að nýju, og þeir græddu auð fjár á verzlun sinni. Sáu ýmsir Rómverjar mjög ofsjónum yfir því, og héldu því ráðlegast að Kartago væri lögð í eyði. Var Markus Porcíus Kato, hinn eldri, fremstur í þeirra flokki; þókti honum gjört hafa verið á hluta sinn þá er hann dvaldist í Kartagóborg. Var því þetta jafnan viðkvæði hans á öllum ráðstefnum: Kartagó verður að leggjast í eyði. Að sönnu stóð Scipio Nasika fast á móti því, en öll alþýða manna var á Katós máli, og varð því þessvegna framgeingt. Veitti Rómverjum hægt að fá sér eitthvað til sakar við Kartagiska, og hefja fornan fjandskap. Masínissa konúngur var jafnan að áreita þá; sendu þá Rómverjar menn til Kartagóborgar, og hét svo að þeir skyldu koma sættum á, en þeir kröfðust, að Kartagiskir skyldu selja af hendi öll vopn. Töldust þeir undan því, í fyrstu, sem von var, en er það dugði ekki, létu þeir vopnin af hendi. En svo hörð sem þessi krafa var, komu Rómverjar bráðum fram með aðra kröfu miklu harðari, og var það sú, að Kartagiskir skyldu rífa niður borg sína, og færa hana 3 mílur upp frá sjó. Var þá auðvitað, að öll verzlun mundi takast af, og borgin á fáum árum leggjast í auðn. Þó hugsuðu Rómverjar, að Kartagiskir mundu hlýðnast þessari skipun, en þeir gjörðu það ekki. Urðu þeir æfari enn frá megi segja, og gripu til vopna, jafnt konur sem kallar,

fundu Rómverjar þá vørn fyrir er þeir høfdu eigi búíst vid. Sátu þeir um borgina á þridja ár, og feingu eigi unnid hana, ádur Scipio Æmilianus, er kalladur er Afríkanus ýngri, (sonur Páls Æmilíúsar þess er vann Makedoníu, og arfleiddur af syni Afríkanusar elldra) kom til; þá jókst hernum svo hugur og dugur ad hann brauzt inní borgina; bardist Scipió þar 6 daga og 6 nætur, rann þá allt í blódi, hús, stræti og torg; þó gáfust borgar menn ekki upp ad heldur. En um sídir, er þeir sáu ad øll von var horfin, løgdu þeir eld í húsin, og rédu sjálfum sér bana, í godahofum sínum og húsum, og á legstødum fedra sinna. Brann þessi hin mikla og ágæta borg 17 daga, en því sem eldurinn leifdi, á því unnu Rómverjar ad fullu, svo hafdi rádid (Senatus) fyrir sagt, (146 á. f. Kr.) Þannig lauk vidureign Rómverja og Kartagóborgar manna, er verid høfdu þeim skædastir allra þjóda er þeir áttu vopna viðskipti vid.

Þetta sanka ár vann Múmmíus rædismadur Korintuborg, og Grikkland var gjørt ad rómverskri skattlándi, og kallad Akkaía, kynntust þá Rómverjar, betur enn ádur, vísiudum og listum Grikkja, og løgdu sídan stund á hvørttveggja. En sem þeir høfdu nú lagt undir sig mørg lønd, og akad miklum audæfum saman, gjørdust þeir mjøg sællífir, og horfdu ekki í, þegar því var ad skipta, ad beita allskonar brøgdum og rángindum til þess ad fullnægja þørfum sínum. Vard þad nú almennt, ad menn þágu mútur; gódum sidum og strídsaga hnignadi medal hermanna, var þad því allopt ad

þeir bidu ósigur fyrir óvinum sínum. Urdu einkum mikil brøgd ad því á Spáni: þar greip Veríatus hinn Lúsitanski til vopna móti Rómverjum, því hann stódst ekki ánaud þeirra og ójøfnud, vardist hann þeim í 6 ár, og loks drápu þeir hann med vélum. Borg var þar ein, er Númantía hét, hún vardist Rómverjum í mørg ár, og hafdi í ýmsum orrustum betur, til þess er Scipíó, sá er vann Kartagó, tók hana, en Rómverjar audgúdust lítid vid þad, því þegar borgarmenn sáu sitt óvænna, løgdu þeir eld í borgina, og brunnu sjálfir upp med.

## Höfust borgarastríd Rómverja. Frá Súllu og Maríusi.

Þá er Rómverjar høfdu sigrast á øllum fjandmønnum sínum utanríkis, hófust óeyrdir innanlands med þeim sjálfum, ek nú skal getid. Frá alda ødli mátti kalla ad Rómverjar væru greindir í 2 flokka: edlibornu menn (adalsmenn), og alþýdu. Attu þjódflokkar þessir jafnan í innbyrdis óeyrdum (eins og ádur er sagt); rædur ad líkindum ad sá flokkadráttur hafi ei mínkad, þegar hér var komid, og adallinn edur þó réttara audmennirnir høfdu svælt undir sig allar þjódeignir (ager publicus), en alþýdan sætti afarkostum og lifdi vid mesta volædi. Þá risu upp brædur tveir í Róm, Tiberius og Kajus, synir Grakkusar nokkurs og systursynir Scipíónanna; voru þeir bádir enir ágætustu menn, og er einkum til þess tekid hvílíkur mælskumadur Kajus hafi verid. Þeir vildu

koma á meira jøfnudi milli manna enn áður var, og gjørdu þá uppástúngu að skipt væri þjóðeignum með ríkum og snauðum. En þeir mættu fyrir þá søk miklum ofsóknum af høfðíngjum, og svo lauk að þeir féllu báðir. En nøfn þeirra lifðu í þakklátum hjørtum alþýðunnar, og þeim voru reistir minnisvarðar.

Nú linnti flokkadráttum um hríð, meðan 2 nafnkendar styrjaldir geingu yfir. En það voru óeyrðirnar við Júgúrtu, og við Cimbra og Teiftóna.

Micipsa Númidíu konúngur, sonur Masinissa konúngs, fékk ríkið í hendur sonum sínum tveimur, og bróðursyni þeim er Júgúrta hét, en áður lángt liði, réði Júgúrta þá báða af døgum, og lendti fyrir þá søk í stríði við Rómverja, er tekist høfðu á hendur að hafa ráð fyrir Kóngssonum. Fékk þó Júgúrta samið um frið, søkum þess hann bar fé í augu Rómverjum. En skømmu síðar var honum sagt að koma til Rómsborgar, skyldi þá ransaka mál hans að nýu. Vann hann þar hið mesta fólskuverk, og myrði ættmann sinn einn, er þar var. Þorði hann nú eigi að haldast þar við, fyrir eptirsókn Rómverja, og leitar á burt, en mælti um leið og hann fór úr borginni: borg þessi er føl, hvørjum þeim sem keypt getur. Hófst þá ófriður að nýu, og þágu ýmsir hershøfðíngjar Rómverja, er þeir sendu móti Júgúrta, mútur af honum, til þess er Metellus tók við herstjórn. Hann var hinn réttlátasti maður, og mikill hershøfðíngi, og vann sigur á Júgúrta í mørgum orrustum; hefði og leidt það stríð til lykta, ef Maríus, undirhøfðíngi við herinn (Legatus) hefði

ekki borid á hann þann óhródur, ad hann hirdti ekki um ad ófridnum linnti ad sinni. Og þó var Metellus hans velgjørdamadur. Kom Maríus því til leidar med rógi sínum ad Metellus vard ad leggja nidur herstjórn, en Maríus tók vid. Kreppti hann þá svo ad Júgúrtu, ad hann vard ad flýa til Bokkusar Máritana konúngs, tengdafødur síns; áttu Rómverjar vid hann samníng um ad Júgúrta væri fram seldur. Var þá Súlla lidsfjárhirdir (Qvæstor) sendur til ad sækja hann, og leysti þad erindi vel af hendi. Komst hann þó í ena mestu mannraun í þeirri før (106 á. f. Kr.) En þad urdu upptøk sundurþykkju þeirrar med þeim Súllu og Maríusi, er seinna vard af fullur fjandskapur, ad Súlla lét sem þad væri sér ad þakka ad ófridi þessum linnti.

En nú er frá því ad segja, ad medan Rómverjar hádu stríd sudrá Afriku strøndum, sóktu ad þeim úr annari átt fjendur þeir er miklu voru verri vidureignar. Voru þad þjódflokkar þeir, er af nordurløndum komu sudur á landamæri Rómverja. Þeir hétu Cimbrar og Teiftónar og segja menn þeir væru komnir nordan af Jótlandi og Holsetalandi. Høfdu Rómverjar í þá tíd ekki heyrt þeirra landa getid. Menn þessir voru miklu stærri vexti og ófrínilegri ásýndum enn Rómverjar høfdu ádur sjed, og rédust á menn med hrædilegu øskri. Stód Rómverjum af þeim enn mesti ótti. Sendu þeir opt her manns móti þeim og høfdu jafnan ósigur. Var nú ekki annad til ráda enn senda Maríus móti þeim. Var hann kosinn til rædismanns 4 ár

hvørt eptir annad. Í þad mund fóru Cimbrar leid-
ángur vestur á Spán. Á medan safnadi Maríus ad
sér lidi miklu, og beid þess ad þeir kæmu vestan. En
er þeir komu, skiptu þeir sér í tvær sveitir. Námu
Teistónar stadar í Gallíu, en Cimbrar héldu sudur
yfir Mundíafjøll nidur á Italíu. Maríus hélt lidi
sínu til Gallíu, en ekki vildi hann leggja til orrustu
vid Teistóna, fyrrenn lidsmenn hans væru vanir ordn-
ir ad horfa í augu þeim. Héldu Teistónar ad Marí-
us þyrdi ekki ad berjast vid sig, geingu framhjá her-
búdum Rómverja, og spurdu þá ad, hvørt þeir ættu
ekki ad bera kvedjur konum þeirra. En er þeir voru
skammt eitt komnir, veitti Maríus þeim eptirfør, og
setti herbúdir sínar þar sem ekkért vatn var í nánd.
En Teistónar bjugguſt þar fyrir sem nóg var vatn. Þá
sagdi Maríus vid sína menn: ef þér viljid ná til
vatns, þá verdid þér ad sigrast á fjandmønnum
ydar. Løgdu Rómverjar þá ad þeim, og drápu þar
ógrynni manns; er svo sagt, ad 200,000 félli af Teis-
tónum, en 80,000 yrdu handteknar. Feingu Róm-
verjar þar ekki annad vatn til drykkjar eptir orrustuna,
enn þad sem blódi var blandad. Þessi atburdur vard
hjá borginni Aqvæ Sextiæ (þar heitir nú Aix á
Frakklandi), 102 vetrum fyrir Krists burd.

Eptir þad hélt Maríus til móts vid Cimbra, er
høfdu rennt sér á skjøldum sínum nidur eptir Mundía-
fjøllum ofan á Italíu. Hafdi Katúlus hershøfdíngi
verid sendur til móts vid þá, en þordi eigi ad berjast
ádurenn Maríus kæmi til lids vid sig. Þegar

það var orðið, gjörðu Cimbrar til þeirra sendimenn, og beiddust að fá landrými fyrir sig og bræður sína. Maríus svaraði: Bræður yðar hafa feingið það land er þeim nægir, og mun eg svo fyrir sjá, að þér fáið jafnmikið. Eptir það tókst með þeim orrusta, var það um hásumar, og sólskin mjög heitt, þann dag er þeir börðust. Hafði Maríus fylkt liði sínu þannig, að Cimbrar áttu að vega móti sólu. Bundu þeir sig hvör við annan, svo einginn skyldi á brottu hlaupa. Lág við sjálft, þegar í öndverðri orrustunni að Rómverjar mundu bíða ósigur, en svo lauk með þeim og mest fyrir sakir sólarhitans, að Cimbrar hrukku fyrir. Gjörðist nú ógurlegt manufall í liði þeirra. Snéru þeir þá til herbúða sinna, þar sem fyrir voru konur þeirra og börn, og sátu á vögnum, trylltist þá allt lið þeirra, ráku upp öskur, og drápu hvör annan, svo þeir kæmust ekki í höndur Rómverja. Sagt er að í þessari orrustu hafi fallið 140,000 af Cimbrum, en 60,000 handteknar. Þar heitir Vercelli, norðan á Italíu, er þeir börðust (101).

Þannig lauk stríði þessu, er verið hafði Rómverjum eitt hið geigvænlegasta. Kölluðu menn Maríus, hinn þriðja höfund Rómaborgar, og hélt hann í dýrðlegu sigurhrósi inní borgina. En honum þókti það ekki nóg, því metorðagyrnd hans var ósedjandi. Með fégjöfum og mútum varð hann ræðismaður á ný. Litlu þar eptir hófst Bandamanna stríðið, sem ýmsar þjóðir á Italíu, áttu við Rómverja, og ná vildi lögum og rétti til jafns við þá. Sá ófriður stóð í 3 ár (frá

91—89), fékk Súlla í honum svo mikinn ordstýr, ad honum voru feingin herváld í hendur móti Mitrídatesi, Pontusar kóngi, er bædi var stórvitur madur og umsvifa mikill, stód Rómverjum af honum enn mésti ótti. Maríus, er þá var um sjøtugt, vildi sjálfur fara móti Mitrídatesi, og fékk med vélum komid því til leidar ad Súlla var kyrrsettur, en hann látinn fara. Súlla hafdi þá búinn her sinn til austurferdar. En sem hann fréttir adfarir Maríusar, bregdur hann vid skjótt, og fer til Róms, læst muni brenna borgina, nema hann fái einn ad ráda; verda nú hinir undan ad láta. Vard þá Maríus sekur, og margir af félögum hans, og lagt fé til høfuds þeim. Leita þeir nú undan, og fóru huldu høfdi. Þad var eitt sinn, ad Maríus leyndist í mýrum nokkrum, skammt frá Mintúrnuborg, komust menn ad því ad hann var þar, var þá sendur madur nokkur galliskur, til ad drepa hann. En sem þessi kémur ad honum, hvessir Maríus á hann augun, og mælti: þorir þú ad leggja hendur á Kajus Maríus? Manninum féllst hugur vid, og fékk eigi gjørt þad er fyrir hann hafdi verid lagt. Komst Maríus undan og sudur á Afríku, og hafdist leingi vid í bygd þeirri, þar sem Kartagó hin forna stód.

Medan þessu fór fram, hafdi Súlla margt fyrir stafni í Rómaborg, og gjørdi þar nýa skipan á mørgu, og kvaddi til tvo rædismenn, var Cinna, vinur Maríusar annar þeirra, hét hann Súllu trygdum, ádur þeir skildu, og vøgnu þar eida ad. Eptir þad fór Súlla móti Mitrídatesi, eins og hann hafdi ætlad sér. En jafn-

skjótt sem hann var farinn, vakti Cinna uppreistar flokk; ad sønnu rak hinn rædismadurinn hann burt úr Róm, en skjótt fékk hann safnad lidi um Nedri Italíu, kom þá Maríus til móts vid hann, heldu þeir svo øllum hernum til Rómaborgar, og geingu borgarmenn á vald þeirra. Hófust þá enar grimmustu ofsóknir gégn øllum flokksmønnum Súllu; voru þeir allir drepnir er ekki flýdu undan; því næst var sendur her manns móti Súllu, til ad reka hann frá vøldum þeim, er þeim Maríusi þókti hann hafa ránglega feingid. En þad er frá Súllu ad segja, ad hann hafdi hvervetna haft sigur, lagt undir sig, og brennt Atenuborg, og í tveim stórorrustum sigrast á Arkelási, hershøfdíngja Mitrídatesar. Vard Mitrídates konúngur loks ad semja frid, og láta þad laust er hann hafdi undir sig lagt, láta mikinn hluta af skipum sínum, og gjalda ærid fé. En sem þessu var lokid, gekk herlid þad er sendt var móti Súllu, honum til handa, hafdi hann þá bædi mikid lid og vopnum vant, og snýr ýfrá Italíu móti fjandmønnum sínum. Voru þeir þá þegar burtu, er helztir høfdu verid oddvitar fyrir þeim: Cinna hafdi verid veginn af mønnum sínum. En Maríus hafdi, í sjøunda sinni, gjørst rædismadur, mørgum naudugt; nú var hann andadur, og hafdi ádur mjøg ýdrast íllverka sinna. Atti Súlla nú í mørgu hægra vidfángs, því nú var einginn sá uppi er væri jafn ágætur hershøfdíngi sem hann. Vann hann nú hvørn sigurinn á fætur ødrum, med hreysti sinni og slægvitsku. Því sagdi Karbo, einn af óvinum hans, ad menn ættu bædi vid ljón og ref, þar

sem Súlla væri, og yrdi refurinn opt skædari enn ljónid. Sá madur er Súlla átti einna erfidast med, hét Telesínus, hann stýrdi miklum flokki þeirra Samnítanna. Hann bardist vid Súllu, undir múrum Rómaborgar, vard þar mikid mannfall, og fékk Súlla sigur. Hélt hann eptir þad, sigri hrósandi inní borgina, og lét þá drjúgum vega menn. Medan hann hélt rædu í Bellónu-musteri, lét hann drepa fjølda manna fyrir utan. Pókti rádherrunum yfir taka, er þeir heyrdu vein og óp þessara manna, en Súlla lét sér ekki bilit vid verda, og mælti: þad eru einúngis nokkrir sakamenn, sem eg hefi bodid ad taka af lífi. Einn af rádherrunum spurdi hann sídan, hvørjum hann ætladi ad géfa grid. Súlla kvadst ekki vita þad. Þá mælti hinn: segdu oss þá ad minnsta kosti, hvørja þú ætlar ad láta drepa. Gjørt gét eg þad, kvad Súlla. Settist hann þá nidur, og samdi nafnaskrá yfir þá menn, er hann hafdi ákvardad ad deya skyldu. Kølludu menn þad útlegdar skrár (Proscriptions Lister). Skiptu søfn þeirra þúsundum er þar voru ritud á, høfdu margir eigi annad til saka enn þad ad þeir voru ríkir. Vard nú Súlla **Einrádur** (**Dictator**), og skyldi hann halda þeim vøldum til daudadags. Í ýmsum greinum kom hann á betri skipun, enn ádur. En 2 árum sídar, þá er minnst vardi, lagdi hann nidur vøldin, lét frá sér alla vardmenn sína, og sókti fundi manna á torgum, eins og hvør annar valdalaus madur. Þá var þad einhvørju sinni, ad úngmenni nokkurt rann eptir honum, og kastadi á hann illyrdum. Súlla lét sem hann

heyrdi þad ekki, en sem hann kom ad húsi sínu, snériſt hann vid og mælti: þú úngi madur! med breytni þinni gétur þú komid því til leidar, ad einginn einrádur leggi optar nidur vøld sín. Ari sídar dó Súlla af lúsasótt (78 á. f. Kr. b.).

## Frá Pompeiusi og Cæsari,

Kneius Pompeius hét madur einn rómverskur, hann hafdi verid í lidi Súllu, og feingid svo mikinn ordstýr fyrir hreysti sína og afreksverk, ad Súlla gaf honum vidurnefnid: hinn mikli, og hélt hann því nafni sídan. Madur hét Sertóríus, hann var einn ágætasti hershøfdíngi, og einn af flokki Maríusar, hann fór til Spánar, og kveikti þar óeyrdir; sendu Rómverjar her manns móti honum, og loksins sendu þeir Pompeius, og feingu þó ekki sigrad flokk Sertóríusar, fyrr enn sá madur er Perperna hét myrdti hann. Vildi Perperna sá yfirrád yfir hernum. En Pompeius vann sigur á honum og tók hann høndum, komust þá mørg skjøl í høndur honum, og fékk hann af því sjed hvørjir fylgdu þessum óeyrdar flokki, en til þess ad afstýra vígum brenndi hann þessi skjøl øll. Um þessar mundir komu honum ord af Italíu, og var hann bedinn ad koma heim, og støkkva óeyrdar flokki þeim er þar hafdi gjørt uppreist, voru þad skilmíngamenn (Gladiatores) og þrælar, hét sá Spartakus er fyrir þeim var, ættadur nordan úr Traciu, manna hraustastur, hafdi hann hlaupid á brott úr skilmíngamanna skólanum í Kapúaborg. En ádur Pompeius kæmi til, hafdi Krassus

ríki næstum gjört enda á strídinu, hafdi hann átt mikla orrustu vid Spartakus, og féll hann þá. Nokkrar þúsundir þræla komust undan, mætti Pompeius þeim og vann á þeim sigur. Sídan var hann kosinn til ad eyda víkingum ísáriskum um Midjardarhafid, lauk hann því starsi á 40 døgum, og vard svo frægur af, ad hann var valinn til hershøfdingja móti Mitrídatesi mikla, Pontusar konúngi, er bædi var hinn voldugasti og hinn grimmasti óvinur Rómverja. En einnig hér hafdi annar madur rudt veginn fyrir Pompeius. Lúkúllus, hinn ágætasti hershøfdingi, hafdi átt margar orrustur bædi vid Mitrídates konúng og dótturmann hans Tígranes konúng í Armeníu, og haft jafnan sigur, einkum í enni miklu orrustu hjá Tígranócerta, voru Rómverjar einar 11,000 manns, en Asíumenn voru 300,000 saman, og feingu Rómverjar sigur. Lúkúllus þókti vera nokkud hardgjør, og vildi herlidid fyrir þá søk ekki fylgja honum, var hann því kalladur heim. Hann flutti fyrstur manna vidartegund þá til Nordurálfu, frá Kérasusborg, er menn kalla Kirsuberja tré. Pompeiusi gekk sem fyrr allt ad óskum, hann vann sigur á Mitrídatesi og Tígranesi. Samdi hinn sídarnefndi frid vid Rómverja, en Mitrídates flýdi til þjóda þeirra, er bjuggu nordur af Svartahafi, til ad safna lidi á ný, og rádast á Rómaborg. Þá gjørdi Farnases sonur hans uppreist móti honum, vildi þá Mitrídates konúngur fyrirfara sér á eitri, en þad er mælt ad eitrid ynni ekki á honum, og vard hann ad fá þræl til ad leggja sig ígégn med sverdi. Var þá fallinn enn skædasti

óvinur Rómverja. Mitrídates konúngur var hardstjóri mikill og grimmur, en þótt hann bidi ósigur, vard honum aldrei rádafátt í ad verjast óvinum sínum. Hann hafdi minni svo mikid, ad hann mælti á 22 túngur, og nefndi hvørn mann í lidi sínu med nafni, voru þeir þó ærid margir. Pompeius gjørdi sídan ýmsa stjórnar skipun í Asíu, og snéri vid þad heim aptur. Eínginn rómverskur madur hafdi unnid þvílík afreksverk á undan honum; hann hafdi farid herskyldi yfir 15 lønd, og gjørt þau þvínær øll ad rómverskum skattløndum; hann hafdi unnid 2000 borgir, tekid 800 skip; drepid edur handtekid 2 milliónir manna, reist 400 borgir, og aukid tekjur ríkisins meir enn um helmíng.

Medan hann var austur í heimi hafdi flokkur manna í Rómaborg gjørt þad samsæri, ad vid sjálft lág, ríkid mundi kollvarpast. Sá hét Katilína er fyrir þeim var, spilltur í edli og manna ósvífnastur, en vel var hann viti borinn. Pad var rádagjørd þessara manna ad leggja eld í borgina, drepa rádherrana og rædismennina, og setjast svo sjálfir ad vøldum. Voru margir úngir menn af gódum ættum í vitordi med þeim. Markús Túllíus Cícero, hinn nafnfrægi mælskumadur, frelsadi þjódina frá þessari hættu. Hann var þá annar rædismadur, og komst med tilstyrk konu einnar er Fúlvía hét, og þess manns er Kúríus er nefndur, fyrir alla rádagjørd þeirra Katilínu. Hélt hann þá svo harda rædu á rádherra fundi móti Katilínu, ad hann hélzt ekki vid í borginni, og leitadi á fund vinar síns Manlíusar, er þá hafdi safnad lidi um Etrú-

ríu, og ætladi ad rádast med því á Rómaborg, til móts vid þá er þar voru fyrir. Cicero lét nú taka þá höndum; höfdu þeir leitast vid ad fá sendimenn Allobróganna til ad taka bátt í samsærinu, en þeir sögdu Cicero frá, lét hann sér þad ad gagni verda, til ad komast yfir nokkur bréf, þar sem á var ritad ýmislegt þad er nægdi til ad gjöra samsærismenn sanna ad sök. Var þeim nú kastad í dýblissu, og þá er rádherrar höfdu haldid fund, og rædt um þad er gjöra skyldi, lét rádismadurinn taka sakamenn þessa af lífi í dýblissunni, og ekki höfdu mál móti þeim. Herlid þad er sendt var móti Katilínu, vann sigur á þeim er eptir voru af hans flokki. Sýndu þeir Katilína ágæta vörn ádur þeir féllu, (62 á. f. Kr.).

Skömmu seinna kom Pompeius aptur úr hernadi sínum í Austurheimi. Áskildi hann sér þá þetta tvennt: ad svo skyldi standa í Asíu sem hann hafdi fyrir sagt, og ad lidsmenn sínir feingju jardir. Var því hvoritveggju synjad. Og mun þad hafa dregid til þess, ad hann gjördi þá félagskap vid Krassus ríka, og Kajus Júlíus Cæsar. Hafa menn kallad þad: þriggja manna veldid hid fyrra. (Det förste Triumvirat). Cæsar hafdi fylgt flokki Maríusar, bædi fyrir sakir lundernis síns, og þess ad hann var dóttur madur Cinnu, var þad því med naumindum ad hann komst undan ofsóknum Súllu, enda var Súlla nógu skarpskygn til ad sjá hvad í honum bjó, því þegar einhvör beiddist grida fyrir hann, svaradi Súlla: sjáid þér ekki, ad í Cæsari búa margir Maríusar? Hann var og án

alls efa miklu meiri madur og betri, enn Maríus. Allra manna var hann djarfastur, snarrádur og þraut-gódur í øllum hættum og mannraunum, skarpskygn og slægvitur, og þekkti hvørjum manni betur skapferdi ann-ara manna. Fáir hermenn hafa verid mildari enn hann, edur verid honum fremri í vísindum og unnt þeim betur. En drottnunargyrni hans var óseđjandi, og ekki gat hann vitad ad nokkur stædi sér jafnfætis, því sídur ofar. Í úngdæmi sínu hneigdist hann mjøg til svalls og sællífis, eyddist þá mjøg fé fyrir honum, og komst hann í stór skuldir. Hann átti Pompeiusi ad þakka ad hann vard rædismadur, og er hann lagdi þad embætti nidur, vard hann landstjóri í bádum Gall-íunum (Gallia cisalpina, fyrir sunnan Mundíafjøll, og Gallia transalpina, fyrir nordan fjøllin). Allt til þess tíma var þad einúngis lítill hluti af allri Gallíu, sem Rómverjar høfdu átt fyrir nordan fjøllin, en Cæsar jók hinu vid er vantadi. Á 7 árum, lagdi hann undir sig alla Gallíu, og er sagt ad hann hafi þar sigrast á 300 þjódflokkum, og unnid 800 borgir. Um þessar mundir fór hann tvær herferdir til Bret-lands, og tvísvar yfir Rínó, nordur á Þjódverjaland (Germania); en nádi þó í hvørigu þessara landa var-anlegri fótfestu. Þad vekur medaumkun vora ad sjá hvørsu hinar gallisku þjódir vørdu fjør og frelsi, og hvørsu þær hnigu blódugar fyrir sverdseggjum Rómverja. Þad sýnir oss, ad hreystin er ekki einhlýt, þegar bædi skortir samheldni og kunnáttu. Í Rómaborg var um þessar mundir heldur róstusamt, gjørdust menn þar ítt

vandir ad sídum, en lögin kraftlítil. Illvirkjar og ódádamenn ódu uppi, en ædstu menn og bestu máttu eigi allsjaldan sæta árásum þeirra. Alþýdu foríngjarnir (Tribuni) vanbrúkudu stórlega vald sín, og fylgdu ýmsum flokkshöfdíngjum, allt eptir því sem þeir sáu sér mestan hag vid, og kepptust hvor vid annan í allskonar ójöfnudi og klækjum. Þannig fekk Klódíus komid því til leidar ad Cicero vard ad fara í útlegd, og sídan vann hann margt fólsku verk. En sem Mílo hafdi vegid Klódíus, kom Cicero heim aptur, og var þá tekid vid honum tveim höndum. Pompeius sjálfur var nú adgjörda lítill. En litlu eptir þetta fundust þeir þrímenníngarnir, í Lúkkaborg, í vetrar herbúdum Cæsars og mæltu saman vingan med sér ad nýu, urdu þeir Pompeius og Krassus rædismenn, og skyldi hinn fyrri hafa Spán til umráda, en hinn sídari Sýrland. Krassus féll á herferd sinni austur í Medallandi (Mesopotamíu). Kólnadi þá mjög vinátta sú er verid hafdi med hinum tveimur, var og ekki vid ödru ad búast, þar sem Pompeius hafdi jafnan fylgt höfdíngjunum, og var nú oddviti þess flokks, en Cæsar hafdi haldid sér mjög til vinsælda vid alþýduna, og þóktist hún nú eiga allt sitt traust þar sem hann var. Þá var og Júlía daud, dóttir Cæsars en kona Pompeiusar. Nú var sú tíd mjög á enda komin, er Cæsar hefdi landstjórn í Gallíu, var þá umrædt hvad starfa honum skyldi ætla er hann legdi nidur voldin, og ætludu margir ad hann mundi rædismadur verda, en hann kaus heldur ad hafa hervöld og lidsafla sem ádur. Þetta þókti mönnum ískyggilegt,

og gat rádið (Senatus) ekki, án þess að skerða virðíngu sína, játið slíkt viðgángast, og fyrir því var Cæsari synjað þess er hann beiddist. En ekki lét hann undan að heldur, og kvaðst þá fyrst mundi hlýðnast skipun ráðsins, ef þeim kostum yrði fylgt er hann byði á móti. Litlu síðar gaf ráðið þann úrskurð: að Cæsar skyldi á ákveðnum degi leggja niður hervöld og landsstjórn í Galliu, að öðrum kosti mundi hann verða talinn í hópi fjandmanna Rómverja. Þá beið Cæsar ekki leingur boðanna, en brá við og heldur liði sínu til Italíu og allt suður að Rúbíkon-fljóti, og nam þar staðar. En litlum tíma eptir, hefir hann ráðið það af að halda suður yfir fljótið, og hefja ófriðinn. Nú er að segja frá þeim í Róm, að ráðherrarnir kiæðast sorgarklæðum, en Pompeius safnar liði, verða þeir nú allir færri er honum vilja fylgja, en alþýðan streymir til Cæsars. Kom það Pompeiusi mjög á óvart, því áður hafði hann látið sér um munn fara: að hann þyrfti ekki annað enn stíga fæti til jarðar, mundu þá hersveitir manna spretta á fætur til liðs við sig. Verður hann nú að halda sem hraðast burt úr Rómaborg, og allt stórmenni með honum; fara þeir fyrst til Kapúaborgar, og þaðan til Grikklands. En Cæsar leggur undir sig alla Italíu á 60 dögum, og fellur eingin maður. Eptir það fer hann til Spánar, þar hafði Pompeius mikið lið, en hershöfðingjar hans voru meðallagi góðir. Sagði Cæsar svo um sína ferð, að hann færi þá móti höfuðlausum her, en síðan mundi hann koma aptur og fara móti mannlausum hershöfðingja. Á 40 dögum

lagdi hann Spán undir sig. Sídan hélt hann aptur til Italíu, og svo til Grikklands, var þar komid saman mikid lid, er Pompeius hafdi dreigid ad sér. Veitti Cæsari í fyrstu heldur erfidt, og hafdi ósigur vid Dyrrakkium, og hélt undan til Farsalusborgar í Tessalíu. Þar áttu þeir Pompeius adra orustu (48 á. f. Kr.). Sagt er ad Pompeius hafi eigi viljad berjast þann dag, en lidsmenn hans voru enir ákofustu, og þóttust hafa sigurinn svo víssan í höndum sér, ad þeir skiptu þegar med sér völdum í Rómaborg. Ádur enn orrustan tókst, baud Cæsar sínum mönnum, ad höggva helzt í andlít óvina sinna, því hann vissi ad flestir þeirra voru úngir menn og oflátúngar, er heldur vildu fá skeinur á baki enn í andlitum. Svo vard og sem hann grunadi:. Menn Pompeiusar lögdu á flótta en Cæsar fékk sigur og tók hérbúdir þeirra. Pompeius kom sér í skip og hélt til Egyptalands, hafdi hann ádur eflt til. rikis Ptólomeus konúng, er þar sat þá ad völdum. En konúngur launadi honum svo lidsveitsluna ad hann lét myrda hann, gjördi hann þad til þess ad koma sér í vinfengi vid Cæsar. Hafdi hann elt Pompeius þángad svo hann nædi eigi ad safna lidi. Konúngur sýndi Cæsari höfud Pompeiusar, en sagt er ad honum hafi þá svo brugdid vid, ad hann tárfelldi. Um þær mundir voru deilur miklar med þeim Ptólomeusi konúngi og Kleópötru systur hans. Vard Cæsar gagntekinn af fegurd hennar, og veitti henni lid móti bródur sínum, lauk svo ad konúngur féll, en Kleópatra komst til valda. Þá var þad eittsinn, ad

hann komst í háska mikinn, og hafdi því nær lendt í höndum óvina sinna, en hann sýndi þá sem optar snarræði sitt, og hljóp á sund og lagdist út til skipa sinna, þá hafdi hann skjöl þau á sér, er ekki máttu vökna, hélt hann þeim ofansjáfar annari hendi, en svam med hinni. Medan Cæsar dvaldist á Egyptalandi, söfnudu sjandmenn hans lidi. Snériſt hann þá fyrst vid Farnasesi, syni Mitrídatesar konúngs, og vard svo lítid fyrir ad sigrast á honum, ad hann ritadi til Rómaborgar þessi ord: eg kom, eg sá, eg sigradi (veni, vidi, vici). Því næst fór hann til Afriku og bardist, hjá Tapsus, vid nokkra af vinum Pompeiusar, er þar höfdu safnad lidi ad sér. Þar fekk Cæsar sigur. Einn af þeim mönnum er Pompeius hefdu fylgt, og eptir orrustuna hjá Farsalus flúid til Afriku, var Kató ýngri. Hann var hid mesta afbragd annara manna, elskadi einúngis dygd, réttvísi og frelsi, en var svarinn óvinur allra þeirra sem fylgdu spilltum aldarhætti og bernsku mannkynsins. Kató vildi ekki þyggja líf og grid af Cæsari og rédi sér sjálfur bana. Eptir þad hélt Cæsar til Rómaborgar, var þá mikid um dýrdir, og hátíd haldin í 40 daga. Þó átti hann enn eptir ad gánga í eina orrustu. Var sú vid þá brædur, Kneius og Sextus, sonu Pompeiusar, höfdu þeir safnad lidi á Spáni, og hélt Cæsar þángad til móts vid þá, og hittust hjá Mundaborg. Hefir Cæsar svo sagt, ad þá hafi hann sjed mesta tvísýnu á lífi sínu. Þó fékk hann sigur, en þeir brædur flýdu, var Kneius drepinn, enn Sextus komst undan. Snéri nú Cæsar heim apt-

ur, og voru honum þá feingin Dictators vøld í hend- ur æfilángt, sýndi hann skjótt ad hann var hinn mestí stjórnarvitríngur, en á þad lagdi hann alla stund, ad hann yrdi í øllu sjálfrádur. Tóku nú vinsældir hans ad réna hjá alþýdu, einkum eptir ad menn þóktust skilja á honum, ad hann vildi verda konúngur. Á ákvednum degi ætladi rádid ad bjóda honum kóngstign- ina. Sá dagur vard hans daudadagur.

Júníus Brútus hét madur, hann var systurson Katós, og honum líkur í mørgu, en þó blídari í skapi. Þann mann hafdi Cæsar tekid sér í sonar stad, og unni honum mikid. Brútusi var og vel til Cæsars, þó unni hann frelsinu meir, og er hann sá ad því vár hætta búin af Cæsari, lét hann tilleidast og batt félag- skap vid þann mann er Kassíus hét, og nokkra fleiri, til ad ráda Cæsar af døgum. Þad er mælt, ad spá- madur einn hafi rádid Cæsari, ad vera vørum um sig hinn 15da dag Marts mánadar. En er sá dagur kom, og Cæsar gekk til rádhúss, vard spámadurinn á vegi hans, mælti þá Cæsar og brosti vid: Nú er kominn hinn 15di dagur. Ad vísu er hann kominn, svaradi spámadur, en ekki er hann úti enn. Þá mætti honum annar madur, og rétti honum bréf, þar ér á var ritad allt um samsærid, en Cæsar fekk ekki tóm til ad lesa þad. Þegar hann var genginn til sætis í rádherra salnum, hljóp einn af samsærismønnum, sá er Kaska hét, ad Cæsari, og rak kníf aptaní háls honum. Cæsar vardist í fyrstu, en er hann sá ad Brútus var einn af þeim, mælti hann: og þú líka

Brútus sonur minn! sveipaði að sér kápunni, og varðist ekki upp frá því. Særðu þeir hann 23 sárum, og lét Cæsar þannig líf sitt (44 á. f. Kr. b). Hefir hann verið einna merkastur maður með Rómverjum, og bestum kostum búinn, en drottnunargyrni hans keyrði úr hófi, og olli hún þjóðinni þrældómi, en sjálfum honum bana.

## Frá Oktavíanusi er síðan nefndist Agústus.

Menn höfðu gjört sér í lund, að þá Cæsar væri fallinn, mundi friður og frelsi þróast með Rómverjum, en það varð allt á annan veg. Antoníus ræðismaður, fékk rekið þá Brútus og Kassíus úr landi. Síðan gjörðist hann einn ráðandi fyrir öllu í Róm, og fór um þær mundir móti Decímusi Brútusi, til að reka hann burt af héraði Gallíu (Gallia cisalpina). Á meðan úrskurðaði ráðið, að áeggjan Cicerós, að Antoníus væri fjandmaður ríkisins, og sendi her manns móti honum, undir herstjórn ræðismannanna Hirtíusar og Pansa, og Oktavíanusar, (hann var Systurdótturson Cæsars, og arfleiddur af honum, og þá 18 vetra). Hittust þeir og börðust. Féllu ræðismennirnir báðir; Antoníus flýði til Gallíu á fund Lepídusar, en Oktavíanus snéri aptur til Róms, og og brauzt þar til ræðismanns valda. Nú kastar hann dularklæðunum. Urðu þeir nú allir sekir er verið höfðu að vígi Cæsars; en Antoníus tekinn aptur í sátt. Gjörir nú Oktavíanus samtök við hann og Lepídus. Hafa menn kallað það: þriggja manna veldið hið síðara.

(Det 2tet Triúmvírat. Triumviri reipublicæ constituendæ). Réðu þeir einir öllu, bæði í Róm og í skattlöndunum, og ýmist drápu eður ráku í útlegð alla þá menn, sem þeir héldu væru sér mótsnúnir. Var Ciceró einn á meðal þeirra. Þóktist Antoníus eiga honum fyrir grátt að gjalda, en Oktavíanus hafði gleymt því, að hann (Cicero) hafði mest og best styrkt hann til valda. Ciceró náðist á flótta til Grikklands, og var veginn (43) af þeim manni er Popilius Læna hét. Fyrir þann mann hafði Ciceró eitt sinn haldið varnarræðu, og frelsað líf hans frá dauða.

Þegar þeir Oktavíanus höfðu sefað allar óeyrðir í Rómaborg, snéruss þeir við þeim Brútusi og Kassíusi, er safnað höfðu miklu liði í Asíu og á Grikklandi. Það er sagt, að áðurenn Brútus færi austan úr Asíu, sá hann sýn þá, er kvaðst vera hans vondi vættur. Og lézt mundi hitta hann aptur hjá Filippíborg í Makedoníu. Segja menn og að svo hafi orðið. Á völlunum hjá Filippíborg hittust herirnir. Urðu þar tvær orrustur; í enni fyrri, vann sá fylkingararmurinn sigur er Brútus réði fyrir, en sá hafði ósigur er Kassíus átti fyrir að ráða, hélt hann þá að útsjeð mundi um sigur, og drap sig sjálfur. Í enni síðari, veitti Brútusi aptur betur, en á öðrum stað brast flótti í lið hans, og fyrir því varð hann undan að láta, og bera lægra hlut. Þar féllu margir ágætir menn. En sem Brútus sá að lokið mundi frelsi Rómverja, leiddist honum að lifa, og veitti sér sjálfur bana.

Þá er frelsis vinir Rómverja voru fallnir, höfðu

þrístjórarnir náð fyrirætlan sinni. Skiptu þeir nú með sér Rómaveldi; en litlu síðar varð Lepídus að láta lausann sinn þátt í ríkisstjórninni. Voru þá hinir tveir eptir, en sú vinátta hélzt ekki leingi. Antoníus hafði feingið svo mikla ást á Kleópotru, Egypta drottníngu, að hann var hjá henni ollum stundum, og var þó kvæntur, og átti Oktavíu, systur Oktavíanusar. Gaf hann henni mørg skattlønd, og lét sig litlu varða, hvørt Rómverjum líkaði betur eða verr; en Oktavíanus leiddi mønnum það fyrir sjónir, og var nógu kænn til að hafa það sem átillu til að hefja stríð við Antoníus. Høfðu nú hvørirteggju mikinn liðsafnað, og hittust við Aktíu høfða á Grikklandi, (31 á. f. Kr.). Þar var sjóorrustan hin mesta, og fékk Oktavíanus sigur, og átti það að þakka Agrippu herskipaforíngja sínum. Kleópatra var í bardaganum með Antoníusi, og flýði þegar orrustan stóð sem hæðst, og Antoníus litlu á eptir. Elti Oktavíanus þau suður á Egyptaland, og þar drap Antoníus sig sjálfur, en Kleópatra reyndi fyrst til á allar lundir að tæla Oktavíanus með fegurð sinni og blíðmælum, en sem það tókst ekki, lét hún høggorma verða sér að bana. Eptir það snéri Oktavíanus til Rómaborgar, og lét sem hann mundi leggja niður valdin, en þótt hugur hans væri allur annar; hann vissi gjørla að ráðherrarnir, sem allir voru vinir hans, mundu ekki gefa leyfi til þess. Og tilgáta hans var ekki raung. Menn beiddu hann ekki einúngis að halda voldunum, heldur gáfu þeir honum í þokkaðót heiðurs nafnið Agústus (hinn háttignarlegi). Síðan skipti hann løndum með

sér og rádinu; hlaut hann sjálfur þau fylkin er helzt voru undirorpin óvina áráſum, en rádid hlaut hin. Þókti mørgum þad lýsa edallyndi hans, en þeim sem betur sáu, þókti hann hafa ordid hinum heldur flægvitur. Herlidid var hvørgi nema í hans fylkjum, gat hann því komid því øllu til leidar er hann vildi, svo eingìnn þordi í móti mæla. Tignarnøfn þau er verid høfdu medan þjódstjórn var í landinu, lét hann haldast vid lídi; en þared hann einn útbýtti þeim, og hafdi øll hin helztu sjálfur, mátti ekki heita ad þjódfrelsi hefdi í neinu unnid, heldur miklu fremur misſtallt. Hvarf nú og allur þjódstjórnar andi, og rádid vard ekki annad enn hvørt annad rádgjafasafn einvaldsstjórans. Agústus átti í stridi vid ýmsar þjódir. Voru Þjódverjar (Germanir) einir af þeim, einhvør en hraustasta þjód og hardfeingasta. Hafdi Drúsus stjúpsonur Agústusar átt orrustur vid þá, og ordid vel ágeingt, en þad sem hann nádi fór allt aptur, þegar Varus hershøfdíngi beid ósigurinn. Hann hafdi leitast vid ad kóma á hjá Þjódverjum løgum og sidum Rómverja. Gédjadist hinum illa ad, og madur nokkur þjódverskur, sá er Hermann hét, ginnti Varus og menn hans inná skóga þá, þar sem nú heitir á Vestfali. Þar voru Rómverjar umkríngdir og drepnir allir nidur í strá, en Varus lagdi sig sverdi ígégn, svo hann kæmist ekki í høndur óvina sinna. En sem Agústusi komu þessi tídindi, féllst honum svo mjøg um þau, ad mælt er hann hafi barid høfdi á múrana og sagt: skiladu mér aptur herskørunum mínum, Varus! Agústus var

bædi mildur og vitur hofdíngi, og unni mjøg vísindum og fródleik, voru þá og margir lærdir menn uppi, hafa menn kallad þad tímabil: Gullöld í vísinda søgu Rómverja. Þeir menn sem mestan þátt tóku í stjórninni med Agústusi, voru: Mæcenas, Agrippa og Messala Korvínus. Agrippa hafdi hernadar málefni á hendi, átti dóttur Agústusar, og gekk honum næst ad allri virdíngu. Mæcenas var hinn ágætasti vinur og verndari allra vísinda manna og lista. Messala var mikill madur bædi í fridi og stridi, og unni vísindum. Um þessar mundir voru þeir uppi þjódskáldin: Hóratíus, Virgilíus og Ovidíus. Voru enir 2 fyrrnefndu í miklum kærleikum vid Mæcenas; en Ovidíus komst í óvingan vid Agústus, og fór í útlegd austur á Svartahafs strandir. Þá setti Títus Livíus saman søgu Rómverja, í 142 bókum, en nú eru alls til 35 af þeim. Fleiri voru þá lærdir menn med Rómverjum, er hér yrdi oflángt ad telja.

A ofanverdum døgum Agústusar — því nær 4000 árum frá heims sköpun — fæddist, í Betlehem á Gydíngalandi, Jesús Kristur: heimsins frelsari, mannkynsins guddómlegi kénnari. Þegar hann, ljúfur og litilátur í dagfari og hegdan, en ædri øllum mønnum í vitsku og dygd, hafdi dvalist hér á jørdu, fekk hann nokkrum af lærisveinum sínum þad starf í hendur, er hann sjálfur hafdi byrjad á, og þessir menn — umkomulitlir og einfaldir, en styrktir krafti meistara síns — dreifdu því sádi út, af hverju sídan skyldu vaxa, hin fegurstu blóm sidgædanna, hinir ágætustu ávextir vitsku og

dygdar, í blessun og endalausum framförum, meðal allra heimsbúa.

Agústus keisari dó í Nóluborg í Kampaníu héraði, 76 ára gamall, 14 vetrum eptir Krists burð. Hann hafði verið tvíkvæntur, og átti eina dóttur, er Júlía hét; stjúpsynir hans, en synir Livíu drottningar, voru þeir Drúsús og Tíberíus. Jók það keisara hrygðar að Drúsus dó, en Tiberíus lifði. Þó tók hann Tiberíus sér í sonar stað, og arfleiddi hann, svo ríkið kæmist ekki með öllu í hendur vandalausum eptir sinn dag.

## Frá Rómverjakeisurum er komu næstir eptir Agústus.

Þá er Agústus keisari var andaður kom til ríkis Tíberíus, stjúpsonur hans. Lét hann í fyrstu sem hann vildi ekki þyggja keisaratignina, en það voru þó reyndar ekki annað enn ólíkindalæti. Ríkisstjórn hans var öll frá upphafi til enda eintóm ódáðaverk. Hann óttaðist alla sem að nokkru voru nýtir, og leitaðist við að burtrýma þeim. Einn af þeim mönnum sem honum var aldrei vel í þokka til, var bróðursonur hans Germanikus, ágætur hershöfðingi, og frægur af herferðum sínum móti Þjóðverjum, og hafði sefað uppreisn eina er gjörð var gégn Tíberíusi, og þó gat hvorigt þetta komið honum undan grun keisarans. Var hann boðaður heim frá hernum, og skyldi, að því sem sagt var, þyggja laun fyrir hollustu sína. En Tíberíus sendi hann til Asíu, og dó hann þar litlu síðar, og eru til

þess miklar líkur ad keisarinn hafi látid bana honum á eitri. Sá er best gekk fram med kelsara í øllum níd-íngsverkum, het Sejanus; þann mann lét Tiberius sídan drepa. Seinni hluta æfi sinnar var Tiberius mestallan á eyu þeirri er Kapreæ heitir, hún liggur framundan Kampaníu. Hafdist hann þar ekki annad ad enn íllt eitt. Kosid hafdi hann þann er eptir sig skyldi keisari verda, og var þad Kajus Kalígúla, son ur Germaníkusar. Eitt sinn féll keisarinn í ómegin og ætludu menn hann myndi ekki rakna vid, var þá Kajus til keisara tekinn; en þá raknar Tiberíus vid, og slóg miklum ótta á alla, er menn þóktust ad vísu gánga ad hann mundi hefna sín. Madur hét Makró, hann var foríngi fyrir lífverdi kelsara. Hann tekur nú þad ráds ad greida úr vandrædum þessum. Geingur hann þar ad, sem kelsarinn hvílist, og lætur sem hann vilji hag-ræda honum. Verdur þad þá úr, ad hann kæfir kelsara millum rekkjuvoda, (37 á. e. Kr. b.).

Kom nú Kalígúla til ríkis, og voru Róm-verjar ad litlu bættari, því keisarinn lét sem hann væri vitstola. Sýnir þad medal annars hvørsu ær hann var, ad hann gjørdi hest sinn ad rædismanni. Hann óskadi þess, ad høfud Rómverja sætu øll á ein-um hálsi, svo hann gæti sníddid þau af í einu høggi. Um sídir var Kalígúla myrdtur af nokkrum samsæris-mønnum (41).

Þá kom til ríkis Kládíus fødurbródir Kalígúlu, hann var gamall og hrumur mjøg á sál og líkama. Færdu vondir menn sér þad í nýt, til ad koma sínum

vilja fram; og leida keisara til ýmsra grimdarverka. Drottníng hans Messalína rédi öllu medan hún lifdi, en eptir dauda hennar tók seinni kona hans Agrippina vid. Svo voru mikil brögd ad um saurlifnad Messalínu, ad einhverju sinni er Kládíus var heiman farinn, giptist hún þeim manni er Silíus hét. En er keisarinn kom heim, lét hann taka drottníngu af lífi, eptir áeggjan vina sinna. En svo var hann gleyminn, ad litlu sídar, er hann settist ad máltíd, spurdi hann því drottníng settist ekki ad bordum sem adrir. Agrippina drottníng var litlu betri enn Messalína, og til þess ad koma til ríkis Domitiusi Nero, syni sínum eptir fyrra mann hennar, lét hún gefa manni sínum eitur (54). Á dög- um Kládíusar tóku Rómverjar ad leggja undir sig heröd á Bretlandi.

Eptir dauda Kládíusar, kom Neró til ríkis. Hann var í fyrstu hvörs manns hugljúfi, og medal annars er haft eptir honum, eittsinn er hann skyldi rita nafn sitt undir dauda dóm einn, ad hann óskadi þess ad hann kynni ekki ad skrifa. En þess var ekki leingi ad bída, ádur hann snéri vid bladinu: Honum þókti mód- ir sín vera sér til mikils ama, fyrir því vildi hann losast vid hana, en vildi þó ekki ad sér yrdi gefin sök á því. Hann lét því smída skip eitt, er svo var til- búid, ad þad skyldi lidast sundur, er þad kom á flot. Lét hann módur sína útá þad, en hún komst klaklaust af í þad skipti. Vard hann þá stórlega reidur, og sendi menn til höfuds henni og lét vega hana. Hann lét og drepa hálfbródur sinn Britanníkus, konu sína

Oktøviu, og Fjárhaldsmann sinn Burrhus er eftir hafdi hann til ríkis. Sømu afdrif hlaut Seneka spekíngur, frægur rithøfundur og kennari Nerós; en fékk þó sjálfur ad kjósa med hvørju móti hann skyldi deya. Kaus hann ad láta sér blæda til ólífis, lét opna sér ædar, en blódid rann seint, því hann var madur gamall, var hann þá settur í laug, rann þá út blódid, en hann dó. Neró er eignad, ad hafa kveikt í Rómaborg, til þess hann gæti gjørt sér gløggari hugmynd um Trójuborgar brennu. Var kristnum mønnum géfid þad ad søk, er þá voru vída dreifdir út um Rómaveldi, og sættu þeir fyrir því grimmum ofsóknum. Þess er og gétid um Neró, ad hann þóktist vera raddmadur svo gódur, ad hann saung fyrir alþýdu, bædi í Róm og á Grikklandi. Gjørdi hvør madur þad honum til skaps ad hæla honum fyrir saunginn, enda var sá og kostur bestur. Loksins gjørdu menn á ýmsum stødum uppreisn móti honum, og rádid lýsti því yfir, ad hann væri fjandmadur fósturjardar sinnar. Flýdi hann þá úr Rómaborg, svo hann kæmist ekki í hendur óvina sinna, en þess var ekki leingi ad bída ad þeir nádu honum, sá hann þá ekki annad úrræda enn drepa sig sjálfur, (68 á. e. Kr. b.)' Hann dó med þau ord á vørum: mikinn listamann missir heimur þessi, þar sem eg fer. Med honum dó út ætt Agústusar.

## Frá Vespasíanusi, Títusi, Trajanusi og fl.

Eptir daga Nerós, sátu þrír keisarar ad vøldum hvør af ødrum, mjøg skamma stund, en því næst tók

herinn á Gydíngalandi Vespasíanus herhöfdíngja yfir sig, og var hann skjótt til keisara tekinn yfir allt Rómaveldi. Vitellius hét sá, er næstur rédi á undan honum, og var hann hardlega leikinn af skrílnum í Rómaborg, dreginn á krókum um stræti borgarinnar, og ad lyktum kastad útá Tíberá. En sem Vespasíanus vard ad takast ríkisstjórn á hendur, setti hann Títus son sinn yfir herinn á Gydíngalandi. Tók keisarason loksins Jórsalaborg, brann þá musterid fagra, og þó ekki ad rádi Títusar, hafdi hann bodid ad hlífa því; voru borgarmenn mjög þjakadir af sulti, ádur borgin var tekin. Allt ad 10 hundrud þúsundum fóruſt af Gydíngum, og vidlíka margir voru seldir í þrældóm, (70 v. e. Kr. b.).

Vespasíanus var bædi gódur og vitur í stjórn sinni. Á hans dögum vann Júlíus Agrikóla, rómverskur herhöfdíngi, nálega allt Bretland. Mönnum hefir þókt, sem helzt megi finna Vespasíanusi til ámælis, ad hann hafi verid fastheldinn á féd í meira lagi, má vera ad þad hafi eigi verid um of, þar sem keisarar þeir, er á undan honum voru, höfdu verid eydslumenn miklir. Þad var máltak Vespasíanusar ad keisarinn ætti ad deya standandi, og kom þad fram á sjálfum honum.

Eptir andlát Vespasíanusar tók ríki Títus sonur hans, var hann svo ástsæll af alþýdu, ad menn kölludu hann: yndi og eptirlæti alls mannkyns. Lídi svo dagur ad hann gjördi ekki einhvörjum gott, var hann vanur ad segja: ad þeim degi hefdi hann glatad. Medan hann sat ad völdum, brann eldur í Vesúvíus-

fjalli, lögðust þá ýmsar borgir í eyði, en hér getur að eins tveggja: Herkúlanum og Pompeji; hafa menn grafið til þeirra á vorum dögum, og fundið þar ýmsar fornmenjar. Títus var 2 vetur keisari yfir Rómaveldi, og varð mönnum mjög harmdauði, (81 e. Kr. b.).

Þessu næst kom til ríkis Dómitíanus bróðir Títusar, hann var líkastur Neró í skapi. Hann bauð mönnum að kalla sig herra og Guð. Og það er sögn manna, að svo væri hann grimmur, að hann mætti ekki líta nelt lifandi kvikindi hjá sér, og drap þá flugur, er ekki var annað til. Hann var veginn að ráðum konu sinnar (96). Eptir hans daga sátu ágætir keisarar að völdum, hver fram af öðrum, því nær í 100 ár. Fyrstur þeirra var Nerva, ættaður frá Krítey. Hann var til keisara tekinn af ráðinu, og var þá hnígin mjög á efra aldur. Hann var hinn mildasti höfðingi. Hann kaus til eptirmanns síns, Ulpíus Trajanus, spánverskan mann að ætt, og átti fyrir það hvers manns lof skilið. Nerva andaðist 98 vetrum eptir Krists burð.

Trajanus var öllum þeim kostum búinn, er prýða meiga ágætan hermann, vitran einvaldshöfðingja og góðan mann. Gáfu Rómverjar honum viðurnefnið: hinn besti (optimus), og þegar þeir óskuðu sér keisara eptir vild sinni, beiddu þeir að hann yrði: hamingjusamari enn Agústus, og betri enn Trajanus (felicior Augusto, melior Trajano). Hann tók víðlendur miklar frá Pörtum og Dacíu-mönnum, og var stjórnsamur innanríkis. Á hans dögum lifði Plinius

ýngri, var hann vinur mikill Keisarans, og ritudust þeir jafnan á. Og þó vísindum færi þá heldur hnignandi, voru þó margir lærdir menn uppi, einkum þeir er søgur ritudu: Tacítus hefir ritad bók um landaskipun og sidu þjódverja; søgu Rómverja, frá dauda Agústusar til dauda Nerós, og fleiri bækur. Svetóníus hefir ritad æfisøgur 12 enna fyrstu rómversku keisara. Plútarkus hefir sett saman ýmsar bækur, og þarámedal æfisøgur nafnfrægra manna. Eru enn margir rithøfundar frá þessu tímabili sem hér eru ekki taldir.

Eptir lát Trajanusar (117), kom til ríkis Hadríanus keisari, var hann ad vísu ágætur í mørgu, þó hann kæmist ekki í øllu til jafns vid Trajan. Hann var starfsmadur mikill, og fór fótgángandi um allt ríki sitt, en laus lét hann aptur øll þau lønd, er Trajanus hafdi lagt undir sig fyrir austan Evfratsfljót. Hann andadist 138 vetrum e. Kr. b. Antonínus er næstur kom eptir Hadríanus, var manna bestur og blídastur í skapi, og ekki ólíkur Títusi í lund. Honum gáfu Rómverjar vidurnefnid Pius (hinn rádvandi). Á hans døgum helst fridur um allt Rómaveldi, og svo fór mikid ord af réttlæti hans, ad ýmsar þjódir løgdu vandamál sín á hans úrskurd. Antoníus Píus deydi 161 v. e. Kr. burd. Kom þá til ríkis Markús Arelíus, og tók sér nafnid Antoníus eptir fyrirrennara sínum. Hann var ágætur Keisari, og spekíngur ad viti, og fylgdi kenníngum enna stóisku heimspekínga. Hann var madur sidavandur og réttsýnn. Hann andadist 180

vetrum e. Kr. 6. Tók þá ríki eptir hann, Rommódus sonur hans, og var mjøg ólíkur føður sínum um flesta hluti. Tók nú ríkinu mjøg að hnigna, þar sem bæði sátu ónýtir menn að voldum, og voldugir fjendur úti frá veittu því þúngar árásir.

## Frá Konstantínusi mikla.

Rómaveldi fór nú óðum aptur, olli því bæði innanlands óeyrðir og árásir annara þjóða. Og þó stundum væru þeir keisarar uppi (t. a. m. Alexander Severus † 230, Arelianus † 275, Próbus † 282), er koma vildu á betri skipun og hegna ósiðum, feingu þeir þó ekki aðgjørt. Á ofanverðri 3ju øld kom Djókletianus keisari til ríkis. Hann var af enum lægstu stigum, en fyrir sakir hreysti sinnar og viturleiks var hann tekinn til keisara. Um þær mundir gjørðu ýmisar þjóðir enar hørðustu árásir á Rómaveldi. Þóktist keisarinn sjá, að sér mundi veita hægra að verja ríkið, ef hann tæki sér mann til meðstjórnar, og valdi þann mann er Maximíanus hét, hann var af lágum stigum, hraustur maður og harðgjør. Hvor þessara tveggja keisara (Agústusa), tók sér síðan eptir því sem hardnaði aðsókn útlendra þjóða, meðstjórnarmann, (Cæsara), er erfa skyldu ríkið að hinum látnum. Díókletían kaus Galeríus, en Maximianus Konstantíus Klórus, ágætan mann. Stýrðu nú þessir 4 menn ríkinu, og má vera þeir hafi varið það betur enn einn keisari hefði gétað, en bæði olli það því, að skøttum þýngdi á alþýðu, og líka varð það

síðar meir tilefni til sundurþykkis með mønnum inn- anríkis, og skilnaðar að fullu og øllu. Nokkru síðar lagði Díókletianus niður vøldin, og kaus heldur að lifa í næði. Er sagt að Maximíanus hafi viljað fá hann til að takast aptur vøldin á hendur, en hinn hafi þá svarað: að ef hann sæi aldingarða sína í Salóna, mundi hann vart sækjast eptir keisaratigninni. Vinsældir Konstantíusar Klórusar ollu því, að sonur hans Konstantínus var eptir hann tekinn til keisara yfir Gallíu, Bretland og Spán. Maximíanus, hvørs áður er getið, og lagt hafði niður vøldin undir eins og Díókletíanus, hafði að nýu brotist til valda í Ita- líu, og sonur hans Maxentíus með honum. Urðu þeir skjótt sundurþykkir, og varð Maximíanus að leita skjóls hjá Konstantínusi, dóttur manni sínum. En í fjærveru Konstantínusar, reyndi Maximianus að brjótast þar til ríkis, lét hinn þá taka hann af lífi. Nú tóku menn á Italíu, að þola illa ofríki Maxentíusar. Konstantínus sætti því lagi, og fór að honum með her manns. Børðust þeir, og fékk Konstantínus sigur, en Maxentíus féll. Var nú Konstantínus orðinn einvaldur yfir allri Italíu. Þá var og Galeríus keis- ari dauður, en Licinius kominn til valda í enum eystri hluta Rómaveldis. Voru þeir Konstantínus nú tveir einir eptir, og høfðu verið vinir allt til þessa, en drottn- unargyrnin gjørði þá bráðum að fjandmønnum. Háðu þeir tvø stríð sín á milli. I enu fyrra varð Licinius að láta lausan nokkurn hluta af løndum sínum; í enu síðara misti hann þau øll, og lífið með. Eptir þessi

stórvíkki varð Konstantínus einráður yfir öllu Rómaveldi (324). Það er kunnugt að hann unni kristnum mönnum og tók trú þeirra. Varð það með þessum atburði, að því sem sagt er: eittsinn er hann var í hernaði, sá hann krossseld á himni, og stóðu þar yfir þessi orð: Þessi mun þér sigurinn veita. Hafði Konstantínus síðan krossmark í merkjum sínum, og var jafnan sigursæll. Þykir eigi ólíklegt, að hann hafi sjeð að sér mundi verða mikill styrkur í að taka kristna trú, og hafa alla kristna menn í liði sínu, er í ríkinu voru. Var það fjöldi manna. En þó Konstantínus hefði tekið kristna trú, urðu skapsmunir hans litlu blíðari fyrir það, og vann hann mörg grimdarverk á eptir. Hann flutti aðsetur sitt frá Róm til Býzantíum, (330 á. e. Kr. b.) og gaf borginni heiti eptir sér, og kallaði Konstantínópólis (Konstantinopel). Þá borg kölluðu norðmenn síðan Miklagarð. Let Konstantínus sér mjög annt um að efla sem mest borgina. Jók það einkum fegurð hennar, að kristnir menn reistu þar kyrkjur sínar, voru þær ekki minnur vandaðar að smíðum, enn hof heiðinna manna í öðrum borgum. Biskupar og klerkar enna kristnu, gjörðust nú voldugir og ráðríkir, en áður höfðu þeir verið smáðir og lítils ráðandi. Áður Konstantínus andaðist (337 e. Kr. b.), skipti hann ríki með sonum sínum þremur. Urðu þeir skjótt missáttir. Einn þeirra hét Konstantíus, hann lagði undir sig öll þau lönd er faðir hans hafði ráðið fyrir, en vantaði alla mannkosti til að stjórna þeim, og gekk ríkið mjög af sér. Að sönnu var Júlíanus, er

eptir hann kom til ríkis, vitur madur og hraustur og væntu menn mikils góds af honum, en hann ríkti ekki full 2 ár, og féll í orrustu vid Persa. Hann er kalladur Apostata (hinn fráhverfi, hinn trúarilli) ad viđurnefni, því hann kastađi Krists trú, og gjørdíst heidinn.

## Frá skiptum og endalokum Rómaveldis.

Einn af keisurum þeim er Rómaveldi stýrdu eptir daga Konstantínusar mikla hét Teódósíus, hann var spánverskur ad ætt, hann var í mørgu enn ágætasti høfdíngi, og vann aptur flest þau lønd er Gautar og adrar þjódir høfdu unnid undan Rómverjum. Hann setti mønnum mørg løg, og eyddi heidínglegri villu og átrúnadi, en þókti ærid hardur í ofsóknum vid þá, er ekki vildu fylgja enum almennu trúargreinum kristinna manna (Katólskum sid). Er þad einkum fyrir sakir þess hve mjøg hann efldi kristnina, ad hann hefur feingid viđurnefnid: hinn mikli. Þad sem honum hefir ordid einna mest til ámælis, er, ad hann lét drepa mikinn hluta stadarbúa í Þessaloníku, til ad hefna eins af herforíngjum sínum, er þar hafdi verid veginn, en sem aldrei vard bert hvør gjørt hefdi. Borgarmenn héldu hátid og voru ad leikum; þá lét keisari vopnad lid rádast á þá, og drepa hvørn sem fyrir vard. Þessa vard hann þó seinna ad idrast, er Ambrosíus biskup af Mailandi gekk í kyrkjudyr fyrir hann, og bannadi honum inngaungu, ádur hann lofadi bót og betrun. Ádur Teódósíus aud-

adist (395), skipti hann ríki með sonum sínum, er báðir voru á únga aldri. Arkadíus hét hinn eldri; hann hlaut hinn eystri hlutann, og skyldi sitja í Konstantínópel, og hafa þann mann er Rúfínus hét til ráðgjafa. Hónóríus hét enn ýngri, hann hlaut hinn vestari hluta, og skyldi hafa aðsetur í Rómaborg, og Stilíkó, vandalískan að ætt og mikla hetju til ráðaneytis.

Litlu áður enn nú var sagt, bjuggu þessar þjóðir umhverfis Rómaveldi. Fránkar (Frakkar) og Alimenn við Rín á. Búrgundar, Svefar, Markamenn og Kvaðir í Þýðskalandi fram með Dóná; Gepítar í landnorður þaðan, Herúlar og Vandalir norður við Eystrasalt. Gautar milli Teis ár og Vanakvíslar (Don). Skiptust þeir nálægt Dnísterá, í Austgauta og Vestganta. Fyrir austan Vanakvísl bjuggu Alánir. Ferðir og árásir allra þessara þjóða vestur á Gallíu, Spán og Italíu, hafa menn kallað þjóðaflutníngin mikla (Den store Folkevandring). Skal þess nú getið með fám orðum: Ar 374 kom þjóð sú er Húnar hétu, austan af Mongólalöndum í Asíu; þeir voru manna hraustastir, og hinir ófrínlegustu ásýndum. Er ekki sagt frá ferðum þeirra, fyrr enn þeir komu vestur yfir Vanakvísl. Þá réðust þeir á Austgauta, urðu þeir undan að flýa, en Húnar tóku lönd þeirra. Sáu nú einnig Vestgautar sitt óvænna, og beiddu leyfis hjá Valens keisara að meiga halda suður yfir Dóná, og veitti hann þeim það (376). Má það kallast upphaf að þjóða-flutníngunum. Feingu Gautar bústaði í Trasíu, og skyldu vera landvarnar

menn keisarans. Litlu síðar hófst ófriður millum hans og þeirra, áttu þeir við hann orrustu hjá Hadríans-borg (Adrianópel), og lauk svo að keisarinn féll. Þegar Teódósíus mikli var kominn til valda, þaggaði hann um stund niðrí þeim allar óeyrðir. Enn ár 395 dó keisarinn, og ríkið skiptist með þeim bræðrum Hónór-íusi og Arkadíusi, eins og áður er sagt. Þá brutust Vestgautar inná Italíu, hét konúngur þeirra Alrekur (Alarich). Þar réðst Stilikó til móts við þá og fekk sigur, og litlu síðar vann hann sigur á öðrum þjóðum er brutust suður á Italíu. Hét sá Hraðgéstur (Rhadegast eða Radagaisus) er fyrir þeim var. En til þess að géta sigrast á þessum óvinum, varð Stilikó að heimta til sín hersveitir þær, er Rómverjar höfðu á Gallíu; varð þar þá lítil mótvörn fyrir, en Alánir, Vandalir og Svefar héldu vestur um Gallíu, og suður á Spán, er þeir lögðu undir sig, en sátu þó skamma stund að. Því þegar keisarinn hafði látið drepa Stilikó, stóðst ekkért leingur fyrir Vestgautum á Italíu, tók Alrekur konúngur þá Rómaborg (410) og rændi. Litlu síðar andaðist hann, en Astólfur, sá er eptir hann varð konúngur, hélt með Vestgauta her til Gallíu, og allt vestur á Spán, vann þar lönd frá þeim Svefunum, og kom fótum undir ríki eitt (416) er kallað var Vestgauta-ríki og stóð allt til þess er Arabar unnu það undir sig, öndverðlega á 8du öld. Eptir Hónóríus kom til ríkis systursonur hans, Valentinianus hinn þriðji, skyldi Plasidía móðir hans hafa öll ríkis forráð, því keisarinn var barn að aldri. Á hans dögum mistu Róm-

verjar hvert skattlandið á fætur øðru. Maður hét Bónifasíus, hann var jarl yfir skattløndum Rómverja norðan á Afríku strøndum, hann komst í óvingan við Plasidíu keisara móður, skoraði hann þá á Vandali, að þeir kæmu til fulltíngis við sig norðan af Spáni. Voru þeir á það all fúsir, en svo fór, að þeir løgðu undir sig þau lønd er Rómverjar áttu á Afríku strøndum, hófst þar ríki það, er síðan stóð um 100 ára tíma. Genserik hét høfðingi Vandala, hann var hinn grimmasti maður, og mikill ofurhugi.

Um þær mundir gekk og Bretland undan Rómverjum: þeir høfðu gjørt orð herliði því, er þar átti land að verja, að það kæmi til Italíu, því alls þurfti þar við. Gátu Bretar þá ekki leingur varist nágrønnum sínum, Piktum og Skotum, er veittu þeim þúngar búsifjar. Leituðu Bretar fyrst liðs hjá Aëtíusi, Rómverja jarli í Gallíu, en er hann vildi ekki verða við bón þeirra, beiddust þeir liðs hjá Englum, Søxum, og Jótum. Þeir voru víkíngar miklir, og bjuggu fyrir austan haf. Héldu þessir nú til Bretlands (449). Bræður 2 réðu fyrir þeim, hét annar Hengist, en annar Horsa. Stukku nú Piktar og Skotar úr landi, en víkíngarnir settust þar sjálfir upp, komu nú fleiri af þeim til Bretlands, og lauk svo, að þeir ráku Breta burt, flýðu sumir þeirra til Gallíu, en sumir vestur á Vales, (það er vestan á Bretlandi), létu þeir þar fyrir berast, og héldu fornum sið og túngumáli. Hófust nú á Bretlandi 7 ríki' þau er kølluð eru Engilsaxa ríki, og komust øll að lokum undir einn konúng, er

Jábjartur (Egbert) hét. Hefir landið síðan verið kennt við Engla, og kallað England. Nú var ekki annað eptir af Rómaveldi enu vestara, enn Italía, og lítið eitt af Gallíu, því Búrgundar höfðu tekið sér bólfestu millum Rínár og Vasgáa fjalla.

Meðan þessu fór fram, höfðu Húnar haldið kyrru fyrir, í löndum þeim er liggja milli Volgár og Teiselfu, en nú risu þeir upp að nýu. Attila hét konúngur þeirra, allra manna grimmastur og ógurlégastur, hann braut undir sig nálega allar þjóðir á Þýðskalandi. Síðan réðist hann á Rómaveldi hið eystra, og keyptu menn þar grið og frið af honum fyrir ærið fé. Þaðan héldu Húnar her sínum til Gallíu, kom þar í móti þeim Aetius jarl með Rómverja og Vestgauta her. Varð fundur þeirra (451) þar sem heitir á Kalonsborgar völlum við Marnelfu, (Chalons sur Marne). Var það en frægasta orrusta, og fékk Aetius sigur, en Húnar flýðu. Ari síðar brauzt Attila suðrá Italíu. Flýðu þá margir undan honum út í eyar þær, er liggja fyrir landi á innanverðum Feneya botni, og létu þar fyrir berast. Höfðu Húnar eigi skip, og komust því ekki út til eyanna. Voru þetta upptök Feneyaborgar (Venedig) er síðan gjörðist svo mikil og víðfræg. Skömmu seinna dó Attila konúngur, og skiptist þá ríki hans milli: Austgauta, Gepída og Lángbarða. Nú þótt Attila væri dauður, var samt Rómaveldi að litlu borgnara, og þokaðist nú drjúgum að endalokum þess. Valentiníanus lét drepa Aetius, og var síðan sjálfur veginn af manni þeim er Maximus

hét. Eifdoxía kona Valentiníans, kalladi þá Genserik, Vandala konúng, frá Afríku, til hefnda eptir mann síun. Genserik kom, rændi og hafdist allt íllt ad í Rómaborg, og hafdi þadan of fjár; en Maxímus féll. Herlid Rómverja var nú mestmegnis ordid útlendt málalid, og mátti kalla ad þad rédi øllu. Einn af þessum mønnum sá er Risímer hét, og var af Svefakyni, stýrdi ríkinu í 16 ár, þó hann gæfi á medan ýmsum keisara tignina, er þeir høfdu einúngis ad nafninu til. Loksins kom ad því, er menn høfdu leingi búist vid: Sá madur er Odóaser hét, af Herúla ættum, og fyrirlidi ens útlenda málalids, krafdist ad fá þridjúng allra jarda á Italíu. Því var neitad, og þá tók hann Rómaborg, og rak frá vøldum Rómúlus Agústúlus, er þar var sídastur keisari; var þá Odóaser til konúngs tekinn yfir alla Italíu. Þessi atburdur vard, 476 árum eptir Krists burd, voru þá lidnir tíutýgir vetra sídan Gautar héldu lidi sínu vestur yfir Dóná.

# Miðaldar Sagan.

## Frá helztu mønnum og viðburðum eptir daga Rómaveldis ens vestra.

### Frakkar. Klodóvík.

Meðal þjóða þeirra er stofnsettu ný ríki í løndum ens vestlæga Rómaveldis, voru Frakkar einna helztir; komu þeir norðan af Þýðskalandi, og tóku sér bólfestu í Gallíu. Einn af foríngjum þeirra hét Klodóvík (Hløðver, Lodvík, Ludvig), er bæði með hreysti og ofríki, lagði grundvøll til þess ríkis, er síðan hefir átt einna merkastan þátt í mannkyns søgunni, og kallað er Frakkland (Fránkaríki). Fyrst eyddi hann leifum þeim er eptir voru af Rómaveldi í Gallíu, er hann vann sigur á Syagríusi Rómverja jarli; síðan vakti hann sundurþykki og deilur með hinum øðrum høfðíngjum Frakka, og varð svo loks einvaldur yfir þeim. Hann herjaði á Alimenn, hvørra áður er getið, og fékk sigrað þá í orrustunni hjá Zúlpikk (496). Sagt er að hann hafi heitið, áður bardaginn varð, að kristnast ef hann feingi sigur, og efndi hann það, máské mest fyrir áeggjan konu sinnar; hún var kristnuð og ættuð úr Búrgúndíu. Hann réðist og á Vestgauta ríki í Gallíu. En Þjóðrekur (Theodorik) Austgauta kon-

úngur veitti þeim lið; hafði hann áður lagt undir sig ríki Odóasers á Italíu, og gjørst voldugur höfðingi, en skömmu eptir hans daga, kollvarpaðist það ríki, sem síðar mun getið. Eptir lát Klodóviks konúngs (511), skiptist ríkið með sonum hans. Voru konúngar þeir er síðan stýrðu þeim ríkjum flestir stjórnlitlir, en ráðgjafar þeirra, er menn hafa kallað majores domus (Hirðstjórar) feingu smásaman öll yfirráð í hendur. Frakkar og aðrar þýðskar þjóðir komu þeim síð á, þar sem þeir lögðu lönd undir sig, að konúngar feingu hermönnum sínum, þeim er frægnastir voru, lönd og hérøð til umráða, eður að léni; skyldu þeir annaðhvørt gjalda konúngum skatt, eður fylgja þeim í orrustur. Þegar fram liðu stundir, geingu lénin í erfðir, en fyrst framan af voru þau veitt einúngis æfilángt; urðu þá lendir menn (Lénsmenn) þessir, tíðum bæði voldugir og geigvænlegir konúngunum.

## Frá Jústinianusi enum fyrsta.

Á fyrri hluta sjöttu aldar sat Jústinianus keisari, hinn fyrsti með því nafni, að völdum í Mikla-garði. Hann lagði undir sig Austgauta ríki, á Italíu, hvørs áður er getið. Sjálfur var hann eingin hreysti maður, en hafði tvo ágæta herhöfðingja, hét annar Belísaríus, en annar Narses. Belísaríus vann allt Vandala ríki í Afríku, og tók höndum konúng þeirra, er Gélimer hét. Síðan sendi keisarinn Belísaríus til Italíu, móti Austgautum, átti hann við þá margar orrustur, og hafði jafnan sigur, og lagði

undir sig alla Italíu; en þá minnst vardi, var hon- um skipad ad koma heim til Miklagards, en Narses látinn taka vid herstjórn í stad hans. Hann bardist vid Teias, Gauta konúng, undir Vesúvíus fjalli (553), og fékk sigur. Eptir þad gjørdi Narses, alla Italíu skattgilda undir keisarann, var hún kølluð jarlsdœmi (Exarchat). Eitt þad helzta sem liggur eptir Jústiní- anus, er, ad hann lét Tribónianus løgvitríng, safna øllum fornum og nýum løgum í eina bók, er hann gaf út, og kølluð er: **Løgbók Jústinianusar, (Corpus juris Justiniani).** Ekki gátu Miklagards keis- arar leingi haldid allri Italíu, og mistu brádum mest- an hluta hennar. Sofía, drottníng Jústínusar ann- ars, hafdi gjørt Narsesi þá ordsendíngu, ad hann skyldi koma heim, og setjast ad ullarvinnu med ødrum þjón- ustu-meyum sínum. Þessu reiddist Narses, og kvadst skyldi vefa þann vef, er henni yrdi erfidt upp ad rekja; kalladi hann þá **Lángbarda** nordan af Ungaralandi (Pannónía), og baud þeim landnám í Italíu. Voru þeir skjótir til ferda, og løgdu undir sig mikinn hluta af nordur Italíu. Foríngi þeirra hét Albóin, hraust- ur madur og grimmur. Lønd þau er Lángbardar løgdu undir sig, voru sídan vid þá kénnd, og kølluð: **Láng- barda ríki** (Lombardiet). Pavía var þar høfudborg, og adsetur konúnganna. Stód þad ríki um 200 ára tíma, til þess er **Karl mikli**, vann sigur á Desíderí- usi, er þar var sídastur konúnga, og lagdi svo Láng- barda ríki undir sig (774). Nokkrum hluta af Italíu

héldu Miklagards keisarar, og settu jarla yfir. Ravenna var þar höfudborg.

## Frá Múhamed.

Persar voru um lángan tíma Miklagards keisurum skædastir allra óvina; en þó urdu Arabar þeim eyn hættulegri, þegar þeir voru allir komnir undir eina stjórn. Til forna voru í Arabíu margar ættkvíslir, og rédi sinn höfdíngi fyrir hverri. Allar þessar ættkvíslir sameinadi hinn nafnfrægi trúarbragda höfundur Múhamed, af Kóreiss ætt, og fæddur í Mekka (570). Hann misti úngur fødur sinn, og tók fødurbródir hans, er Abú Taleb hét, hann í hús sitt, og lagdi Múhamed þar helzt stund á kaupverzlun. Var hann þá opt í ferdum, kynnti sér ýms trúarbrøgd, og kom loks til hugar ad gjørast høfundur nýrra trúarbragda. Hann fékk konu þeirrar er Kadiska hét, var hún ekkja og audug mjøg, og veitti honum nú hægra ad framkvæma þad, er honum bjó í skapi. Hann hvarf þá um tíma á brottu, og var í helli einum skamt frá Mekka, sagdi hann ad Gabríel eingill hefdi byrst sér þar, og bodid sér ad endurbæta en heidínglegu trúarbrøgd landa sinna. Jafnskjórt sem hann kom aptur, tók hann ad kénna vinum sínum og ættíngjum. Urdu í fyrstu ekki adrir til ad taka vid trú hans, enn kona hans, Ali frændi hans, og þræll hans er Zeid hét, og fékk hann fyrir því frelsi sitt. En med því Múhamed var allra manna frídastur sýnum, og best máli farinn, þá fjølgudu smámsaman áhángendur hans. Høfudatridid í trúarbrøgdum

hans er þessi grein: Guð er einúngis einn, og Múhameð er spámaður hans. Enfremur segir þar svo: Guð hefir frá eilífð ákvarðað hvers manns forlög, hvört heldur blíð eða stríð. Djöfullinn hefir teigt menn til syndar; þó hefir Guð á ýmsum tímum litið til þeirra, og sendt þeim kénnendur og spámenn: Abraham, Móses, Krist og seinast Múhameð, sem er þeirra mestur. Eptir uppríisuna öðlast góðir menn allskonar sælu á himnum, en vondir menn hreppa óttalegt og eilíft straff í helvíti. Ráðvandt liferni, og stöðugt vald yfir tilhnegingum sínum, er iðuglega brýnt fyrir mönnum, og að menn skuli jafnan biðja, fasta, géfa ölmusur, og gánga pílagríms gaungur til Kaba *) (þ. e. hins helga húss í Mekka). Vínfaung og svínsfleski er mönnum bannað að smakka. Konur meiga menn eiga fleiri enn eina.

En þó margir tæku við trú Múhameðs, æstust sumir móti honum, og það einkum þeir er voru af hans ættkvísl; varð hann þá að flýa frá Mekka til Medínaborgar (622). Frá þessum flótta hans, sem Arabar kalla Hedskíra, telja allir Múhameðs játendur tímatal sitt **): Hófst þá og nýtt tímabil í sögu þeirra, því í Medínaborg gjörðust svo margir áhángendur hans að hann tók að boða trú sína með oddi og eggjum. Lagði hann nú undir sig hvörja ættkvíslina af annari. Voru liðsmenn hans svo ákafir að ekkért stóðst við

*) Sjá Landaskipunarfræði Síra Gunnlaugs Oddssonar 3 Part, bls. 36.

**) Ár Araba er túnglár, og rúmum 11 dögum styttra enn sólárið.

þeim, jók það eigi allítið hreysti þeirra, að Múhamed kénndi: að hvör sem félli fyrir sakir trúarbragða sinna, skyldi fá eilífa sælu á himnum. Einhvörju sinni bar svo við, að hann fékk ósigur, hallmæltu menn honum þá mjög, og sögðu, að hann væri allvesæll spámaður, er hann léti menn sigrast á sér. En Múhamed svaraði: að þessi ósigur væri einúngis straff fyrir syndir þær, er nokkrir sinna manna hefðu drýgt. Eggjaði hann nú menn sína til hefnda, barðist að nýu og vann sigur. Þvínæst tók hann Mekkuborg, og lagt hafði hann alla Arabíu undir sig áður hann lézt. Mælt er að hann hafi dáið af eitri, er kona ein hafði géfið honum nokkru áður. Hann andaðist 632 e. Kr. b. og hafði þá lifað 2 vetur og 60. Téingdafaðir hans, er Abúbeker hét, safnaði trúargreinum Múhameds í bók þá er Alkóran heitir. Er hún öllum Múhameds játendum hið sama, sem heilög Ritning er oss, kristnum mönnum. Arabar kalla trúarbrögð sín Islam, og þá sem þeim fylgja Moslemin.

Eptirkomendur Múhameds, er höfðu bæði hina andlegu og veraldlegu stjórn yfir Aröbum, hafa menn nefnt Kalífa. Fyrstur þeirra sat Abúbeker að völdum. Hann var vitur maður og góður, en ríkti skamma stund. Á hans dögum unnu Arabar Damaskusborg á Sýrlandi. Næstur honum kom Omar til ríkis, hann lagði undir sig Sýrland, Gyðíngaland, mest alla Persíu og Egyptaland. Sagt er að Amrú hershöfðíngi hans hafi lagt eld í hið mikla bókasafn í Alexandersborg, og brennt það til ösku, þá er hann hafði

tekid borgina. Eptir lát Omars settist Otmann að voldum, og var hnígínn mjøg á efra aldur. Þá løgdu Arabar Persíu alla undir sig, en óeyrdir voru miklar innanlands, og féll Otmann í þeim. Kom þá loks Alí til ríkis, dótturmadur Múhameds, og hin mesta hetja. Hann ríkti 5 ár, og var veginn (660) af nokkrum samsæris mønnum. Þá hófst Ommíadanna ættleggur til ríkis, og sátu 14 Kalífar ad vøldum af þeirri ætt. Þeir fluttu adsetur sitt til Damaskusborgar. Á þeirra døgum løgdu Arabar, (þeir kallast ødru nafni: Saracení, Serkir) undir sig allar nordur strandir Afríku. Þar vard fyrir þeim þjódflokkur sá, er Márar hétu, lauk svo vidskiptum þeirra, ad Arabar sigrudu, og tóku Márar vid trú þeirra og sidum. Sídan héldu Arabar nordur á Spán, børdust vid Vestgauta hjá Xerez de la Frontera (711) og feingu sigur. Kollvørpudu þeir sídan ríki Gautanna, og løgdu nálega allan Spán undir sig. En nokkrir af Vestgautum flýdu til Astúríu fjalla, og efldust þar á ný móti Serkjum.

Ætt Ommíadanna var hrundid úr vøldum af Abbasídum (750), er sjálfir brutust til ríkis. Einn af þeirri ætt hét Al Mansúr, hann flutti adsetur Kalífanna frá Damaskus, austur í Bagdad, er hann reisti á Tígrisár bøkkum; vard það hin frægasta borg, og adsetur Kalífa, medan ríki þeirra stód. Sumir Kalífar af þessari ættkvísl voru ágætir høfdíngjar, og efldu listir og vísindi; má einkum nefna Harún al

Raschíd (786—808), er var vinur Karls mikla, og son Haruns, er Al Mamun hét († 833).

Kalífa ríkið var um lánga tíma allra ríkja voldugast í Austurheimi, þróuðust þar og ýmsar vísindagreinir, einkum á døgum Kalífa þeirra er seinast voru taldir. Var það helzt Heimsspeki, Mælíngarfræði, Læknisfræði og Sagnafræði, er þeir løgðu stund á, og høfðu úr bókum Forngrikkja, er þeir løgðu út á sína túngu. Stjørnufræði, og þó øllu framar stjørnuspá (Astrólogi) iðkuðu þeir einnig, og feinguſt mikið við gullgjørð (Alkemi). Skáld voru Arabar frá alda øðli, og hafa þeir sett saman ýmsar søgur og æfintýri. Þegar fram liðu stundir, fór ríki þessu að hnigna, brutust þá ýms skattlønd undan, en tirkneskir mála menn náðu efstum yfirráðum í Bagdad, og loksins gjørðu Mongólar enda á ríkinu (1258).

## Frá Karli mikla.

Eins og ríki Arabíu manna var hið voldugasta um þessar mundir á austurløndum, varð ríki Frakka það í Norðurálfu á døgum Karls mikla. Eptirkomendur Klodóvíks (Frakka konúngs), eður Merovíngar, sem þeir kallast øðru nafni, eptir einum fyrirliða sinna, létu smámsaman øll ríkis forráð í hendur ráðgjafa sinna (Majores domus), er jafnvel feingu þau í erfðir. Einn af þessum ráðgjøfum, er Karl Martel hét, vann frægan sigur á Serkjum, hjá borg þeirri er Tours heitir (732). Voru þeir komnir sunnan af Afríku, og høfðu lagt undir sig þvinær allan Spán,

(eins og ádur er sagt), og brutust nú yfir Pyrenea fjöll nordur á Frakkland, og stódst ekkért vid þeim; mundu þeir ad ödrum kosti hafa lagt undir sig alla Nordurálfu, og þraungvad mönnum til ad taka vid trú sinni. Pipín litli hét son Karls Martels. Hann styrkti Páfa, (svo nefnduſt Rómaborgar biskupar) móti Lángbördum, og til launa fyrir þad, gáfu þeir honum konúngs nafn yfir Frakklandi. Mælt er, ad Pipín hafi spurt Páfa, hvör fremur ætti konúngur ad kallast, sá, er einúngis bæri nafnid, eda sá sem gegndi öllum konúngs störfum í fridi og ófridi. Páfi svaradi því sem hann vissi ad Pipíni var þekkast. Var þá Kilderikur konúngur, hinn sídasti af Meróvinga ætt, rekinn frá ríki, krúnurakadur og sendur í klaustur, en Pipín vígdur undir kórónu af Páfa. Pipín konúngur andadist 768 e. Kr.

Pá kom til ríkis Karl sonur hans, og er hann kalladur hinn mikli, fyrir sakir afreksverka sinna. Er þad eigi um skör fram, þó einn nafnfrægur sagnaskrifari hafi líkt honum vid einstaka stjörnu er lýsti vídsvegar í svartnætti því, er grúfdi sig yfir þjódirnar bædi fyrir og eptir hans daga. Pá er Karl mikli hafdi setid 3 vetur ad ríkjum, dó bródir hans sá er Karlómann hét. Liggur sá grunur á Karli, ad hann hafi rádid hann af dögum, og styrkist enn fremur vid þad, ad hann svipti sonu hans allri födurleifd sinni, en menn hafa viljad réttlæta þessa tvöföldu synd med því ad segja, ad Karl hefdi ad ödrum kosti ekki gétad komid til

leidar þeim hinum miklu áformum er honum bjuggu í skapi, og síðar varð framgeingt.

Karl mikli átti alla æfi í orrustum við ýmsar þjóðir, er hann lagði allar undir sig hvorja af annari, og gjörði að einu miklu ríki. Frægust af stríðum hans, eru þau sem hann átti við Saxa. Þeir voru forn þjóð ein á Vestfali og Neðra Saxlandi norður að Hamborgarelfu. Þeir voru heiðnir og drápu kristna trúboðendur er til þeirra komu. Síðan gjörðu þeir margar árásir á Frakkland, og þá hugfesti Karl, að láta þá hætta þeim vana, og leggja þá undir sig. Hann hét og, að hann gjörði þarft verk, ef hann snéri þeim frá heiðinglegri villu til blíðari og betri siða kristinna manna. Hófst sá ófriður 772. og stóð í 33 ár, þó stundum yrði nokkurt hlé á. Saxar biðu ósigur þegar í fyrstu orrustu, gáfu gísla og sömdu frið. Um þær mundir krafðist Desiderius Lángbarða konúngur föðurleifðar fyrir dóttursyni sína, en bróðursyni Karls, er flúið höfðu til Paviaborgar til afa síns. Karl brást svo við, að hann fór með her manns til Italíu, tók Paviaborg, og Desiderius höndum og setti í Klaustur eitt á Frakklandi. En Lángbarða ríki, og alla Efri Italíu lagði hann undir sig, og staðfesti Páfa í umráðum þeim er Pipin konúngur faðir hans hafði feingið honum yfir nokkrum borgum á Italíu. Árið eptir fór Karl herferð móti Söxum, er á meðan hann dvaldist á Italíu, höfðu herjað á ríki hans. Meðan sá ófriður stóð yfir, komu til hans sendimenn arabiskir sunnan af Spáni, og beiddu hann liðveitslu

móti ødrum finna landa. Karl fór sudur yfir Pýreneafjøll, og lagdi landid undir sig sudur ad Ebrófljóti. Á heimleidinni gjørdi óvina her honum fyrirsátur þar sem heita Ronzevals Klif í Pýrenea fjøllum; løgdu Frakkar upp Klifin, og áttu einkis ills von, fundu þeir ekki fyrr enn á þeim dundi bædi grjót og vopn. Féllu þar margir af Karls mønnum. var Rolant, systurson hans einn af þeim, hann var hinn mesti kappi. Hefir þjódskáldid ítalska, Ariostó, orkt vídfræga drápu um afreksverk hans. Á medan høfdu Saxar ad nýu hlaupid upp til ófridar, og Vittekind hershøfdíngi þeirra, en mesta hetja, farid herskyldi sudrá Frakkland. Snérist nú Karl móti honum, og átti þá leingi í ófridi vid Saxa. Þó kom þar, ad Wittekind tók vid trú og lét skýrast, og margir hans landa med honum. Fékk hann mestan hluta af Saxlandi ad lént af Karli, og sór honum hollustu eid. Þessu næst rak Karl, Tassíló hertoga burt af Bajara = landi, og lagdi þad undir sig. Hertoginn hafdi ætt Avara, er bjuggu á Ungaralandi, móti Frakka konúngi. Karl fór til móts vid Avara, vann sigur á þeim, og lagdi landid undir sig austur ad Rabelsu (Raab). Um þessar mundir (799) hafdi vakist ófridur í Rómaborg, var páfinn Leó hinn 3ji, þvínær hrakinn til dauda af upphlaupsmønnum. Og sem hann sá sér fært, flýdi hann til Karls og beiddist ásjár. Hét konúngur honum lidi sínu, og sendir hann til Róms med virduglegu føruneyti. Litlu sídar kémur hann sjálfur til Rómaborgar med her manns, og refsar þúnglega øllum mótstødumønnum Páfa. Þad

var litlu fyrir Jól. Hinn fyrsta dag jóla (800) gekk Karl til kyrkju og badst fyrir, en er hann stód upp aptur og vildi burr gánga, gekk páfi til hans, setti kórónu á høfud honum, og kvaddi hann til keisara yfir Rómverja. Pannig hófst aptur hin rómverska keisaratign eptir meira enn 300 ára millibil. Vann Karl ad sønnu ekki ný lønd med þessari nýu tign, en virdíng hans fór vaxandi, og hann fékk yfirrád yfir páfa. Seinna breyttist þad svo, ad páfarnir, sem krýndu konúngana, þóktust sjálfir vera yfirdrottnar þeirra.

Prem árum eptir ad Karl var ordinn keisari, endudu um sídir hin saxnesku strid. Létu Saxar skírast, og gáfu sig undir stjórn Karls, en héldu sínum fornu løgum. Pó þókti keisara tryggilegra ad flytja 10,000 búendur (Familier) af Saxlandi, og útvega þeim bústadi bædi á Frakklandi og í Nidurløndum.

Einna seinast átti Karl í ófridi vid Godfred konúng á Jótlandi; ætladi konúngur med her manns sudur til Akkensborgar (Aachen) þar sem keisarinn sat, en sá leidángur fórst fyrir, því konúngur deydi um þær mundir. Samdi Hemíngur, sá er eptir hann tók ríki (810), frid vid Karl.

Riki Karls mikla nádi, þá er þad var sem mest, frá Tíberá nordur ad Eystrasalti og Ægisdyrum (Eideren), frá Rabelfu á Ungaralandi vestur ad hafi, og í útsudur til Ebrósljóts á Spáni.

Karl keisari lagdi mikla stund á stjórn lands og laga, og var afskiptasamur um flesta hluti í ríki sínu; hann efldi mjøg kristna trú, þó hann geingi þá

Stríd hardt ad sumum; hann skipadi biskupa og klerka um ríki sitt, lét reisa skóla og kyrkjur, og fekk til þeirra saungmenn og orgelleikara frá páfa. Hafdi hann og jafnan med sér margt lærdra manna, má einkum telja Alkúin, enskan múnk, ágætan mann og vel lærdan. Sjálfur idkadi keisarinn vísindi og lærdi ad skrifa á fullordins alldri, því fadir hans hafdi ekki haldid honum til slíkra starfa. Múnka í klaustrunum hvatti hann til bókmenta, og skrifudu þeir þar margar fornbækur Grikkja og Rómverja er annars hefdu glatast med öllu. Þegar keisari fann ad skamme mundi eptir æfi sinnar, kalladi hann Lodvík son sinn á sinn fund, lét hann sjálfan setja Kórónu á höfud sér, beiddi hann óttast Gud og gæta skyldu sinnar vid allar stéttir. Ari sídar (814) tók Karl sótt mikla þá er hann leiddi til bana; var hann þá tveim vetrum meir enn sjötugur, en alls hafdi hann setid ad ríkjum 46 vetur.

Lodvík (er kalladur er hinn trúrækni) son Karls mikla, tók ríki allt eptir födur sinn, hann var gódmenni mikid en atkvæda lítill, og átti í miklum deilum vid sonu sína Lótar, Lodvík og Karl, urdu svo mikil brögd ad því, ad þeir ráku hann tvísvar frá völdum. Hann deydi 840. Bördust þeir brædur þá sín í millum, og sömdu loks frid í Verdun (843), var þá skipt enu frakkneska einvaldsdæmi í þrjú ríki: Frakkland, Þýdskaland og Italín. Afkomendur Karls mikla hafa menn nefnt Karlúnga (Karolinger), voru þeir allir dádlitlir menn, og hnignadi

því ríkjum þeirra ódum. Sú ætt dó út á Frakklandi med Lodviki hinum lata 987.

## Frá Nordmönnum og Nordurlöndum í fornöld.

Ein af þjódum þeim, er á dögum Karlúnga herjudu um vesturlönd Nordurálfu, voru Nordmenn. Voru þeir komnir nordan af Skandínavíu (þ. e. Noregi, Svíþjód og Danmörku), þekktu adrar þjódir lítid til þeirra landa leingi framan af öldum. Nokkru fyrir Krists burd, ad því er fródir menn segja, kom Odinn austan yfir Vanakvísl til Nordurlanda, braust þar til valda, og flutti þángad nýan átrúnad. Blótudu menn Odinn eptir dauda hans. Þad var eitt í trú Odinns, ad hreysti er talin fremst allra dygda. Hraustir menn skulu eptir daudann koma til Odinns í Valhöllu, eta galtar flesk og drekka mjöd, berjast og falla hvörir fyrir ödrum, og lifna þó vid aptur. Illir menn og ragir skulu fara til Niflheims, og þola þorsta og húngur. En um sídir skal þó bædi Valhöll og Niflheimur undir lok lída. Skulu þá gódir menn og sidlátir byggja á Gimli hjá Alfödur, en vondir menn fara til Nástrandar. Menn blótudu og ýmsa höfdíngja þá er med Odni komu, svo sem Þór, Þrumuguð, hann bar hamarinn Mjölni, þann er allt mylur. Týr, heimannagud. Baldur, réttlætisgud. Frygg kona Odinns. Freyu, ástagydju, og fl: Trúarbrögd Odinns efldu menn mjög til hreysti; átru þeir laungum í orrustum og fóru opt í víking. Þá voru

mörg ríki og smá á Norðurlöndum, þó bar það til að þau sameinuðust í stærri ríki. Þannig náði Dan mikilláti, Skáneyar konúngur, undir sig nálega allri Danmörku; fekk hann sumt með Drottníngu sinni, en sumt vann hann með vopnum. Hann kom á þeim síðum, að menn vóru lagðir í háugá. Einn af eptirkomendum hans var **Hrólfur Kraki**, er hann frægur orðinn af afreksverkum sínum og dauða. **Ívar víðfaðmi** lagði undir sig, með svikum og ofríki, því nær allt Svíaveldi og Danmörku; réðu eptirkomendur hans: **Haraldur Hilditönn, Sigurður Hríngur** og **Ragnar Loðbrók** síðan fyrir þessum löndum. Ragnar féll á Englandi, en ríkið skiptist með sonum hans. Helzt enn við hernaður víkínga í Danmörku og Norégi, allt til þess er **Gormur hinn gamli** lagði undir sig öll smá ríki í Danmörku, en **Haraldur hinn hárfagri**, í Norégi (nálægt 900 á. e. Kr.). Haraldur lagði undir sig eður felldi í orrustum 31 fylkiskonúng; naut hann míjög að fulltíngis **Guttorms** hertoga, móðurbróður síns, og jarlanna: **Rögnvaldar** mærajarls, og **Hákonar Grjótgarðssonar**. Það er mælt að ástin hafi meðfram knúið Harald til slíkra stórvirkja. Svo bar til einhverju sinni, er Haraldur var að jólaveitslu einni, að hann leit meyu þá er **Ragna** hét, hún var kvenna fríðust. Lagði konúngur ástarhug á hana, en heinni var það fjærri skapi. Lézt hann þá mundi taka hana nauðuga, enn hún kvað honum sæmra að ógna smákonúngum þeim er Noregur væri þakinn af. Streingdi hann þá þess heit að hætta ekki fyrr enn hann hefði eignast

allan Noreg. Sagt er og, ad hann hafi bedid til handa sér Gydu, dóttur Eiríks konúngs af Hördalandi, og heitstreingt þá, ad ekki skyldi hann skéra hár sitt né kemba, fyrr enn hann hefdi lagt undir sig allan Noreg. Tíu vetrum seinna, hafdi Haraldur konúngur eignast allan Noreg, og þá skar Rögnvaldur jarl hár hans, gaf jarl honum kenníngar nafn, og kalladi Harald hinn hárfagra, ádur var hann kalladur Lúfa.

Margir af ættum enna fornu smá konúnga stukku úr landi fyrir ofríki Haralds konúngs, og leitudu annara landa. Tóku sumir sér bólfestu á Færeyum, en adrir héldu vestur um haf og fundu Ísland (861 e. Kr. b.), og bygdi Ingólfur Arnason bar fyrstur manna (874). Frá Íslandi fannst sídan Grænland (982), og Vínland nordan á Vesturálfu (Ameríku). Um þær mundir herjudu og Nordmenn um Frakklands strendur, og gjördu þar mörg spillvirki, stód Frökkum svo mikill ótti af víkíngum þessum, ad þeir bádu í kyrkjum sínum: frelsa oss Drottinn frá ædi Nordmanna! (A furore Normannorum libera nos o domine!). Loksins tóku þeir sér bólfestu á Fraklandi undir herstjórn Gaungu Hrólfs; segja menn ad hann hafi verid kalladur svo, fyrir því ad hann var svo mikill vexti, ad einginn hestur mátti bera hann. Hrólfur þraungvadi Karli einfalda Frakka konúngi til ad láta laust vid sig fylki þad, er Neustría hét, og sídan var kallad Normandía, eptir þeim Hrólfi. Hrólfur gékk ad eiga dóttur Karls konúngs. Frá Normandíu hertogum eru Englands konúngar komnir, þeir er leingi sátu

þar ad völdum. Var Vilhjálmur Bastardur þeirra fyrstur. Nordmenn nádu og fótfestu á Italíu, komu þeir fyrst þángad sem pílagrímar, og seingu landsmenn þá til lids vid sig móti Grikkjakeisurum, en ad loknm nádu þeir undir sig allri Sudur-Italíu (Nedra Vallandi) og Sikiley. Helztu foríngjar þeirra voru Tankreds synir, 12 ad tölu, eru þeir Hróbjartur Guiskardur og Róger þeirra nafnkéndastir. Hróbjartur setti á stofu hertogadæmi þad, er Apúlía nefndist, en Róger, greifadæmid Sikiley. Þessi lönd lagdi Róger, annar med því nafni, undir sig, og kalladi konúngs ríki.

## Frá því er Kristni kom til Nordurlanda.

Lángir tímar voru lidnir frá því er sudur búar Evrópu höfdu tekid Kristna trú, til þess er hún var bodud hér á Nordurlöndum. Klakk-Haraldur jarl lét skírast, og flutti med sér til Jótlands (826 á. e. Kr.). Ausgaríus múnk. En kristninni gekk þó seint ad festa rætur í landinu, því menn vildu med eingu móti vid henni taka. Gormur hinn gamli Danakonúngur, hélt mjög fram trú Odinns, og leitadist drottníng hans, Þyri Danmarkarbót vid á marga vegu, ad koma honum af þeim átrúnadi. Ottó keisari hinn mikli þraungvadi Haraldi konúngi Gormssyni til ad taka vid kristni. Var hann skírdur og ættmenn hans af Poppa biskupi. Fékk biskup þessi komid mörgum til ad játast undir Krists trú, med jarteiknum þeim er hann gjördi; hann bar glóanda járn edur trad, og sak-

aði ekki, og tóku þá heiðnir menn við trú hans. Sveinn konúngur Tjúguskégg, sonur Haralds konúngs, trúði ýmist á Krist eður Oðinn, og þó öllu heldur á Oðinn. Þá voru Jómsvíkingar uppi og bjuggu í Jómsborg á Vindlandi. Höfðu þeir sína egin stjórn og lög, er Pálnatóki setti þeim. Jómsvíkingar tóku Svein konúng höndum, og vann hann sér til lausnar, að greiða þeim grið sé, og lofa að hefna sín ekki. Sveinn konúngur var að falli Olafs konúngs Tryggvasonar, með þeim, Olafi sænska stjúpsyni sínum, og Eiríki jarli Hákonarsyni, mági sínum. Þeir börðust við Svoldur, 1000 á. e. Kr. Að lyktum fór Sveinn konúngur með her sinn vestur til Englands, átti þar margar orrustur við Aðalráð konúng Játgeirsson. Vann Sveinn mestan hlut Englands og andaðist að því, 1014 á. e. Kr. Knútur son hans lagði undir sig bæði England og Noreg, og má telja að á hans dögum yrði kristni fyrst algjörlega lögleidd í Danmörku.

Í Noregi voru menn enn ófúsari að taka við kristni enn í Danmörku. Hákon Aðalsteinsfóstri son Haraldar ens hárfagra, ólst upp á Englandi, og hafði kristnast þar. Og sem hann var kominn til ríkis í Noregi, en Eiríkur konúngur blóðöxi bróðir hans var rekinn úr landi, leitaðist hann við að kristna landsfólkið; en honum varð lítið ágeingt, stóðu menn fast á móti, og þótt hann væri enn ágætasti konúngur og gjörði á mörgu betri skipan, varð hann óvinsæll fyrir sakir kristni boðsins. Hákon konúngur setti Gula-

þíngs løg og Frostaþíngs løg med rádum viturra manna. Hann setti og þad í løgum, ad vita skyldi gjøra á háfum fjøllum, svo hvøru mætti sjá frá ødrum, þegar útlendur her kom ad landi. Segja menn ad á 7 nóttum færi herbodid frá enum sydsta vita, í ena nyrztu þínghá á Hálogalandi. Haraldur konúngur Gormsson efldi sonu Eiríks blódøxar móti Hákoni Adalsteinsfóstra. Vørdust Eiríks synir vid hann í Stord (961). Vard Hákon sár til ólífis og andadist litlu sídar. Tók Haraldur Gráfeldur, Eiríksson ríki í Noregi eptir hann, kristnadist landsfólkid litid á hans døgum, og Hákonar jarls Sigurdarsonar. Hafdi Hákon jarl ad sønnu látid skírast, og naudgadi Ottó keisari honum til þess, en jafnskjótt og hann kom aptur til Noregs, kastadi hann trúnni, og blótadi heidin god. Ojafnadur sá er Hákon jarl sýndi á ofanverdum døgum ríkisstjórnar sinnar, gjørdi hann mjøg óvinsælan, vard Olafi Tryggvasyni því hægra fyrir, ad komast þar til ríkis. Hákon jarl var myrdtur í jardhúsi einu, af þræli sínum, er Karkur hét (995). Olafur hafdi tekid vid kristni, er hann var í hernadi vestur á Irlandi, vildi hann nú þraungva landsfólki í Noregi til ad taka þá trú, og refsadi þeim øllum þúnglega er eigi vildu kristnast. Olafur konúngur sendi Þángbrand prest til Islands (997), til ad boda þar kristni, létu nokkrir skírast, þó voru hinir fleiri er í móti mæltu. Þrem árum sídar var kristni íøgtekin á alþíngi. Sigmundur Brestisson kristnadi Færeyar, ad bodi Olafs konúngs, vetri sídar

enn Pángbrandur fór til Íslands. Olafur konúngur sat svo skamma stund ad völdum, ad honum vannst ekki tími til ad kristna allan Noreg. Olafur hafdi óvíngast vid Svein konúng Tjúguskegg, fyrir þá sök ad hann hafdi feingid Þyri systur Sveins ad honum naudigum. Auk þess eggjadi Sigrídur Svía drottníng hin stórráda, Svein til hefnda, þóktist hún eiga Olafi fyrir grátt ad gjalda, þar sem hann hafdi kallad hana, afgamla og hundheidna og lostid hana í andlit med glófa sínum. En nú var hún gift Sveini konúngi. Gjördi hann nú félag vid Olaf Svíakonúng, son Sigrídar Stórrádu, og Eirík jarl Hákonarson, móti Olafi Tryggvasyni. Olafur konúngur hafdi farid sudur til Vindlands, ad heimta eignir Þyri drottníngar. Hann var á skipi því, er Ormurinn lángi hét, þad var allra skipa mest og skrautlegast, hafdi konúngur fleiri skip í þeirri ferd. Konúngarnir sátu fyrir honum vid Svoldur, vard þar en hardasta orrusta. Einar Þambarskélfir var med Olafi konúngi á Orminum, hann skaut af boga, og var allra manna hardskeytastur. Einar lagdi ör á streing og vildi skjóta ad Eiríki jarli, þá skaut madur úr lidi jarls sundur bogann milli handa Einars; vard þá brestur hár. Hvad brast þar svo hátt? mælti konúngur. Einar svaradi: Noregur úr hendi þér! Um sídir vard Ormurinn hrodinn, hljóp Olafur konúngur fyrir bord, og hefir eigi med sanni til hans spurst sídan, (1000 á. e. Kr.). Nokkru sídar vard Olafur Haraldsson einvalds konúngur ad öllum Noregi, leitadist hann vid, eins og gjört hafdi Olafur Tryggvason,

ad kristna landid, og þrangva mønnum til réttrar trúar. Undu margir því illa, og fóru úr landi til Knúts Danakonúngs ens ríka, ófridadist þá med þeim Knúti og Olafi. Fór Knútur med her óvígan til Noregs, og stýdi Olafur konúngur þá landid, en kom aptur í Noreg tveim vetrum sídar, og átti þá orrustu mikla á Stiklastødum vid lenda menn, (1030). Þar féll Olafur konúngur. Var hann kalladur hinn helgi, og skrínlagdur í Nidarósi, høfdu Nordmenn sídan áheit vid hann, og segja þeir margar fagrar jarteiknir yrdu ad hans helgi. Eptir þá tíd fékk kristni litla mótstødu af heidnum mønnum í Noregi.

Í Svíþjód hafdi þegar Ansgaríus múnkur bodad kristni, en fyrst á døgum Olafs konúngs Eiríkssonar, vard þeirri trú framgeingt, því konúngur sjálfur tók vid kristni. Hafdi hann einkum til þess klerka enska ad breida kristni út um landid, hét einn þeirra Jón Sigurdur. Þó hélzt enn vid heidni þar í landi til þess er Ingi konúngur Steinkélsson (nálægt 1100 e. Kr.) lét brjóta hof Odins, ad Uppsølum, vard þá Krists trú yfirsterkari. Voru ávextir hennar, þegar á allt er litid, gódir, þó því verdi ekki neitad ad trúin eins og hún var þá, væri ordin mjøg ólík því er Kristur kénndi. Krøfdust menn einkum hlýdni vid klerkana, og ad øllum enum helgu sidum væri nákvæmlega gaumur gefinn.

## Frá Knúti konúngi enum ríka.

Í þann tíma er Nordmenn herjudu á Sudur-

lønd, og tóku sér þar bólfestu, var sá konúngur uppi hér á nordurløndum, er þau lagdi flest undir sig. Sveinn Tjúguskegg, son Haralds konúngs Blátannar, vann mestan hlut Englands, en andadist ádur hann gæti lagt þad land allt undir sig, hugdu þá Englismenn gott til ad brjótast undan Dønum, er Knútur son Sveins konúngs var barn ad aldri. Tóku þeir þá til konúngs yfir sig Adalráð, er ádur hafdi þar konúngur verid, og frá ríkjum rekinn. Hann var kominn af Alfrèdi enum mikla Engla konúngi. Vard Knútur ad rýma England fyrir Adalrádi, en ádur hann fór úr landi, lét hann skéra nef og eyru af mønnum þeim er hann hafdi í gíslíngu, og sleppti þeim svo á land upp, var þad hid mesta grimdarverk, og sýnir skapsmuni manna á þeim tímum. Knútur hélt til Danmerkur, og redi þá Haraldur bródir hans þar ríkjum. Haraldur fékk honum mørg skip, fór Knútur þá brádum til Englands, og átti orrustur margar og hardar vid Játmund járnsídu, son Adalráds konúngs. Var Játmundur hinn mesti kappi. En med svikum Alreks (edur Eiríks) Strjónu, fékk Knútur sigur. Skiptu þeir Játmundur þá ríki med sér. En litlu eptir þad, drap Alrekur Strjóna Játmund konúng, og tók til þess fé af Knúti. En sem Knútur hafdi lagt undir sig England, gjørdist hann mildari í stjórn sinni, enn hann hafdi ádur verid. Gjørdi hann eingan mun danskra manna og enskra, og gekk ad eiga Emmu drottníngu, ekkju Adalráds konúngs; gjørdi Knútur þad til skaps enskum mønnum. Hann hafdi jafnan herlid

á mála á Englandi, (þínglið), og setti því þau løg er Viðurlagsréttur heitir, reisti kyrkjur og efldi kristna trú, komst hann við það í mikla kærleika við klerkana er þá voru ærið voldugir. Eptir andlát Haraldar bróður síns erfði Knútur Dana ríki. Hann lagði og Noreg undir sig, hafði hann áður með ørleik sínum og fégjøfum, svikið marga høfðíngja undan Olafi helga. Knútur konúngur andaðist á Englandi, 7 vetrum eptir það hann lagði Noreg undir sig (1035 e. Kr.). Hann hefir verið kallaður Knútur ríki, eður hinn mikli. En margt hafðist hann það að, sem orðið hefir fyrir álasi manna, og mjøg að maklegleikum. Er það eitt til merkis, hvørsu honum fórst til Ulfs jarls Þorgilssonar Sprekaleggs. Ulfur átti Astríði systur Knúts konúngs, og setti Knútur hann eittsinn eptir til landgætslu í Danmørku, meðan hann sjálfur var á Englandi. Þá gjørðust Svía og Noregs konúngar til að herja á Danmørku, og løgðu undir sig Sjáland. Þókti Dønum lángt að bíða þess að Knútur konúngur kæmi aptur, og réði Ulfur jarl þeim að taka Hørðaknút, son Knúts, til konúngs yfir sig. Litlu síðar kémur Knútur heim, og mislíkar stórum þetta fyrirtæki, en hugsar þó að ekki skuli hann hefna sín að sinni. Rekur hann þá fyrst óvini sína úr landi, og barðist við þá í ánni helgu, og komst þar í mikla mannraun, en þá veitti Ulfur jarl honum lið. Snéri konúngur síðan til Danmerkur, og bauð Ulfur jarl honum til sín, til Hróarskéldu, og hugði að nú mundi hann sáttur. Knútur þág boð jarls og kom,

en var hljóður mjög og fámálugur. Jarl bauð honum tebla skák við sig, en yfir tablinu reis sundurþykki milli þeirra. Stóð jarl upp, og vildi burt gánga. Þá mælti konúngur: Flýr þú nú Ulfur ragi? Ekki kalladir þú mig ragan, mælti jarl, er Danir flýðu sem hundar, við ána helgu. Konúngur reiddist orðum jarls, og lét vega hann daginn eptir. Varð hann að láta miklar fébætur koma fyrir víg jarls, bæði til Hróarskéldu kyrkju, og til Ástríðar systur sinnar. Eptir andlát Knúts konúngs, skiptist ríkið með sonum hans. Norðmenn brutust undan Dönum, áður Knútur andaðist; varð Sveinn Knútsson að flýa þaðan, en Magnús gódi, sonur Olafs helga tekinn til ríkis. Haraldur Engla konúngur, son Knúts ríka andaðist 1040, tók þá Hörda-Knútur England, og ríkti yfir 2 ár. En er hann andaðist var Játvarður Aðalráðsson til konúngs tekinn yfir Englandi, eignuðust Dana konúngar aldrei England síðan. Danir komust um tíma undir Magnús konúng góða, en eptir dauða hans, tók ríki í Daumörku Sveinn, son Ulfs jarls og Ástríðar systur Knúts.

## Frá Páfaveldi, og frá Krossleidángrum.

Fyrir sakir örleika og fégjafa ýmsra höfðingja, einkum Pipíns konúngs og Karls mikla, urðu einir rómverska biskupar (Páfar öðru nafni), ákaflega voldugir. Með áliti því sem trúin fékk þeim í heudur, gafst þeim brádum færi á að setja jafnvel konúngunum lög. En einginn var því líkur sem Gregoríus

hiun sjøundi, hann hefir verid ágeingastur allra Páfa og umsvisamestur. Gjørdi þad eigi allítid til ad styrkja krøfur þeirra, ad þeir søgdust vera jarlar Krists hér á jørdu, og eptirkomendur Péturs postula. Þeir komu einnig þeirri trú inn hjá kristnum mønnum, ad þeir væru óbrigdulir í øllum hlutum, og þó verk þeirra væru svo ótrúleg og ókristileg sem allir vita, þá var þad lengi, ádur bædi tignir menn og ótignir sæu hrekki þeirra. Gregoríus leitadist vid ad adgreina klerkana sem mest frá ødrum stéttum, og láta þeim einúngis vera annt um ad efla hag kyrkjunnar, og fyrir því bannadi hann þeim ad kvongast. Til þess ad audga kyrkjur og múnka fundu Páfarnir upp lærdómana um hreinsunareldinn, skyldu sálir manna vada þann eld til hreinsunar sér, ádur þær kæmust í himnaríki. En því fyrr komust sálirnar úr eldinum, sem klerkar lásu fleiri messur yfir þeim, og feingu meira fé fyrir. Gáfu og margir fyrir sálu sinni stórfé til klaustra og múnka. Sá madur sem einna helzt mátti kénna á ofríki páfanna, var Hinrik 4di Þýdskalands keisari. Hann vildi ráda nokkru med í andlegum efnum. Um þær mundir var sem mestur kurr í landinu, þókti mønnum keisarinn gjørast rádríkur, og þoldu illa yfirgáng hans. Leitudu þá margir menn, einkum af Saxlandi, trausts til Gregoríusar Páfa. Þókti honum þad sem best ad hendi bera, og bannfærdi keisara, gaf hann med þeirri skipan þegna hans lausa allra mála vid hann. Kreppti þá svo mjøg ad keisara, ad hann vard ad gánga sudur til páfa, og standa berhøfdadur og berfættur nokkra

daga fyrir utan hallardyr hans, áður hann feingi hann til viðtals. Þó kom þar, að Hinrik keisari hefndi sín, varð páfi að flýa, og leita á náðir Norðmanna á Neðra Vallandi, og andaðist í Salernóborg (1085 e. Kr.). Gregóríus var vinur mikill Mattildar af Toskana, markgreifa konu, hún arfleiddi páfastól að öllum eignum sínum. Páfum þeim, er komu eptir Gregoríus 7da, var ekki betur í þokka við Hinrik 4da, enn Gregóríusi hafði verið, æstu þeir jafnvel sonu keisara móti honum, svo einn þeirra, Hinrik 5ti, rak föður sinn frá ríki, og dó hann í miklu voleði.

Á dögum Hinriks keisara ens 4da, hófust enir nafnfrægu Krossleiðángrar. Kristnir menn höfðu um lánga æfi farið pílagrímsferðar til Landsins helga (Palæstína), til að efla með sér sanna guðrækni. Létu Serkir er þá bjuggu í landinu, þá fara ferða sinna í náðum. En eptir að Tyrkir tóku Jórsalaborg, gjörðu þeir kristnum mönnum margt til skapraunar, og fóru illa með þá. Höfðu menn þegar áður kvartað yfir því, en Pétur múnkur frá Amiens, er þá kom úr suðurgaungu, varð fyrstur til að kveða upp við Urbanus páfa hinn annan, að ná laudinu helga úr höndum heiðíngja. Páfi stefndi til þíngs í Klermont á Frakklandi, urðu margir til, bæði Frakkar og aðrir, að heita förinni. Þeir sem skuldbundu sig til þeirrar ferðar, kölluðust: Krossfarar, og förin sjálf: Krossleiðángur, fyrir því að rauður kross var fest ur á herðar öllum þeim er þá för fóru. Þóktust menn með þessu fyrirtæki, ekki einúngis ega vísan

mikinn jarðueskan ávinning, heldur og eilífa sælu ann- ars heims. Í vorðögum 1096, hófst enn fyrsti leið- ángur, var það enn mesti mannfjöldi, allt að 150,000, bæði konur og karlar, gamlir menn og úngir. Gjörðist Pétur múnkur fyrirliði þeirra, og héldu nú af stað til- landsins helga. En á leiðinni létu þeir víða greipar sópa yfir eignir manna, og höfðu ýmsan ójöfnuð í frammi, urðu þá opt orrustur og mannavíg, og loks- ins komust einar 3000, af þessum mikla her aptur til Miklagarðs.

Betur gekk öðrum herflokki, hérumbil 90,000, sem lagði af stað á álíðnu sumri hið sama ár. Fyrir þeim- réði kappinn Gottfreður af Bouillon, fylgðu honum margir höfðíngar af Frakklandi. Hélt Gottfreður lið- sínu austur um Þýðskaland, svo um Ungaraland og suður á Grikkland, og fór jafnan með friði. Þar komu til móts við hann ýmsir greifar og hertogar með miklu liði; gétur hér einúngis Húgós, bróður Filipp- usar 1ta Frakka konúngs, Raimunds greifa af Tó- lóse, og Hróbjartar Normandíu hertoga, sonar Vil- hjálms Bastardar Engla konúngs. Herinn komst loks- alla leið út til Jórsala, og náði borginni, eptir harða orrustu, úr höndum Tyrkja (1099). Var nú Gottfreður til konúngs tekinn yfir Jórsali, en and- aðist litlu síðar (1100). Tók þá Baldvin, bróðir Gottfreðar við yfirráðum kristinna manna í Jórsala- borg, var nú lið þeirra stórum fækkað, en Tyrkir héldu löndum öllum umhverfis, og gjörðu tíðum árás- ir á þá. Alexius Komnenus, Miklagarðs keisari,

gafst kristnum heldur ekki sem best. Øll sú hjálp sem þeir áttu von á vard því ad koma nordan úr Evrópu.

Nú gjørdust fleiri til ad fara Jórsalaferd. Ár 1147 fóru þeir Lodvík Frakka konúngur enn-sjøundi, og Konrád keisari enn þridji, med 200 þúsundir manns, eptir áeggjan Bernhardar ábóta af Klairveaux (Klervó). En Grikkja keisari, sultur, drepsótt og sverd Tyrkja eyddi ad mestu leiti þeim enum mikla her. Snéru fyrirlidarnir vid svo búid heim aptur, og undu illa vid.

Fjørutýgi árum sídar barst sú fregn utan af Jórsalalandi, ad konúngur sá er Saladín hét, og réd fyrir Egyptalandi hefdi tekid Jórsalaborg. Hann var enn mesti hermadur, og þó mildur høfdíngi og veglyndur. Þá bjugguft þrír enir volduguftu konúngar í Norduralfu, ad fara Jórsalaferd, og ná aptur enni helgu borg. Þessir voru: Fridrekur 1ti raudskéggur (Barbarossa) Þýdskalands keisari, Ríkardur ljónshjarta Engla konúngur, og Filippus Agústus Frakka konúngur. Fridrekur keisari lagdi fyrstur af stad, og fór landveg, en drukknadi í á einni á Sýrlandi, ádur hann komst alla leid. En konúngarnir fóru sjóleidis, og fyrr enn þeir nædu landi fyrir austan haf, kom sundurþykki mikid med hvøritveggjum, er jókst enn meir er þeir komu til Jórsalalands. Þó gafst Jórsalaborg upp fyrir þeim. Snéri Filippus konúngur brádum heim aptur, en hét Ríkardi konúngi ádur, ad láta lønd hans í fridi medan hann væri burtu. Þó rauf hann þad heit, og vard Ríkardur ad semja frid

vid Saladín, til ad komast sem skjótast heim og verja lønd sín. En á þeirri leid hraktist hann fyrir ofvidri inná Feneyabotn, og rédi þá af ad fara huldu høfdi nordur um Þýdskaland. Þá voru nokkrir sem þekktu konúng, og lét Leópold Austurríkis hertogi taka hann høndum, því honum þókti hann hafa gjørt á hluta sinn sudrá Jórsalalandi. Seldi hertoginn hann Hinriki keisara 6ta í hendur, er loks lét hann lausan móti ærnu fégjaldi (1194).

Nokkru sídar geingu í félag margir menn af Frakklandi og úr Feneyum, og krossuduzt til Jórsalaferdar, var Dandúló rædismadur í Feneyum, gamall madur og blindur, fyrirlidi þeirra. En í stad þess ad halda áfram ferdinni til Jórsala, skáruzt þeir í deyrdir þær, er um þær mundir geingu í Miklagardi, og tóku loks borgina (1204), og settu þar til keisara Baldvin af Flæmíngjalandi (Flandern). Stód þad ,ríki um 60 ára tíma, og var kallad hid latínska, en þá nádu Grikkir því aptur undir sig.

Lodvík Frakka konúngur enn 9di tókst einnig á hendur ad vinna aptur landid helga úr høndum Tyrkja, vildi hann rádast á þá úr Egyptalandi, og gekk allvel í fyrstu, og lagdi undir sig Damiettu borg, en eptir þad vard honum allt erfidara; sýktist þá lid hans og dó mestur hluti þess. Konúngur var sjálfur tekinn høndum, og vard ad greida ærid fé til lausnar sér, kom hann svo eptir 6 ár aptur í ríki sitt (1254). En þó konúngi misheppnadist svo þessi før, lét hann telja sig á ad fara herferd til Túnis á Afríku strøndum, og

settist um þá borg. Þar tók hann sótt og andadist, það sama ár sem hann kom þangað (1270). Sneri þá herlið hans aptur við svo búið. Eptir þá tíð vildi einginn verða til að veita lið kristnum mönnum á Jórsalalandi. Ár 1291 tóku Tyrkir Ptólómeusborg, hið helzta og síðasta hæli þeirra, hefir landið síðan verið í höndum Múhameðs manna.

Þannig lauk þessum merkilegu leiðángrum. Er svo sagt, að í þeim hafi farist því nær 6 milliónir manna; þó verður því ekki neitað, að margt hefir síðan gott af þeim leidt fyrir Norðurálfu búa. Má hér telja meðal annars: að konúngar og þegnar þeirra komust í nánara félagskap, enn áður hafði verið. Í Miklagarði kynntust menn, meiri kurteysi, íþróttum og mentum, er þeir höfðu eptir þá heim komu. Verzlun tókst milli heims álfanna, Asíu og Evrópu, áttu einkum nokkrar borgir á Italíu þar í helztan þátt, (Feneyjar, Genua, Písa). En verzluninni fylgdi bæði velmegun og frelsis andi, borgarastétt og bænda liður komst á fót, en ofriki og yfirgángur lendra manna og eðliborinna mínkaði, meðfram af því að margir þeirra féllu í Jórsalaferðum, en konúngar lögðu lönd þeirra undir sig.

Eitt með merkilegustu fyrirtækjum manna á miðöldunum voru riddarafélögin. Hafa þau að sönnu undirrót sína, í ofriki því og lagaleysi er víða drottnaði, bæði fyrir og eptir daga Karls-mikla, og þeir urðu helzt að sæta er lítið áttu undir sér, tóku þá ýmsir lendir menn sig saman, til að verja þá sem undir

urdu, og skéra úr misklídum manna. Var þad einkum á Þýðskalandi. En fyrst koma þessi félög fyrir svo nokkud kvedi ad, á Frakklandi sunnanverdu, og á Spáni; gjørdust þar ýmsir úngir menn edlibornir til, ad vernda kristna brædur sína mót Serkjum og Márum. Þad var þá alltíd ad riddarar æfdu sig vid burtreidar, og hvørskonar íþróttir, og ýmsar dygdir tømdu þeir sér og skuldbundu sig til ad rækja, t. a. m. hreysti, kurteysi, gudrækni, vernda trúna og sakleysid, en eyda villu og vantrú. Krossferdirnar kvøddu riddarana til ýtrra og meiri framkvæmda enn ádur. Þær ollu því, ad þeir sórust í ýms félög, er mest og best styrktu Krossfarendur og kristna trú í Austurheimi. Hin helztu af þessum andlegu riddara félögum (geistlige Ridderordener) voru Jóhannita riddarar, edur Spítala riddarar, þeir skiptust í: þjónustu- edur verka-brædur (tjenende Brødre), er annast skyldu sjúka pílagríma, klerka er veita skyldu forstødu andlegum efnum og syngja messur, og riddara, er fylgja skyldu og vernda pílagríma á ferdum þeirra um lønd enna vantrúndu. Eptir ad Jóhannita riddarar voru reknir af landinu helga, feingu þeir Ródus-ey ad léni (1310), en er Sóliman 2, Tyrkja keisari tók eyna frá þeim, gaf Karl keisari enn 5ti þeim Maltey, áttu þeir þá jafnan í ófridi vid Tyrki, og gjørdu þeim opt mikinn skada. Sídan hefir eyan komist í hendur enskra manna, og hafa félags brædur þessir dreifst útum øll lønd; — Musterisbrædurnir, þad félag hófst á Jórsalalandi (1118), þeir hétu ad lifa vid

fátækt, skírlífi og hlýdni vid kyrkjulögin; en af gjöfum manna urdu þeir svo audugir og voldugir, ad margir litu til þeirra öfundar auga, og Filippusi frída, Frakka konúngi, tókst loks ad eyda þeim med rángri sakargift; — Enir þýdsku riddarar, edur Maríu riddarar (frá 1190), voru þegar þeir fóru af landinu helga, kvaddir af Konrádi af Masóvíu pólskum hertoga, til lids móti heidnum mönnum í Prússalöndum (Preussen). Gjördu þá Sverdriddarar félagskap vid þá, og unnu Prússalönd af heidnum mönnum, og kristnudu þá eptir 53 ára styrjaldir. Riddarar þessir höfdu adsetur sitt í Maríuborg. Sídan mistu þeir Prússalönd, en feingu aptur vídlendi mikid í Þýdskalandi, til þess er Napóleon keisari tók af félag þeirra.

## Frá Valdimari 1ta og Valdimari 2rum í Danmörku.

Eptir andlát Sveins konúngs Ástrídarsonar, ríktu synir hans 5 hvör af ödrum. Einn þeirra var Eiríkur gódi, hann dó á sudurferd í Kýprusey. Voru nú styrjaldir miklar í Danmörku milli ýmsra konúnga er komnir voru af Sveini Ástrídarsyni, til þess er Valdimar Knútsson, hinn 1ti edur mikli, vann sigur á Sveini konúngi Eiríkssyni á Gradarheidi, og fékk einvald yfir allri Danmörku (1157). Absalon biskup var mikill vin Valdimars konúngs, og var jafnan í rádum med honum, er og fremur getid stjórnarkænsku hans og herkunnáttu, heldur enn hins hvörsu

mikill klerkur hann væri. Hann var fyrst biskup í í Hróarskéldu og síðan erkibiskup í Lundi.

Norðan á Þýðskalandi þar sem nú heitir Pommern og Meklenborg, bjó í þá tíð þjóð sú er Vindar hétu, en landið Vindland. Höfðu Vindar jafnan, meðan ófriður sá stóð í Danmörku, er fyrr er getið, herjað á Dani, og farið með ránum um strendur þeirra. Sendi nú Valdimar konúngur Absalon móti þeim, börðust þeir á skipum, og fékk Absalon sigur og Vindar flýðu. Síðan vann hann borgina Arkún í Re=ey (Rygen), og neyddi landsmenn að taka við kristni, en brenndi goð þeirra er Svantavit hét. Frægð sú er Danir náðu á dögum Valdimars ens fyrsta, hélzt og meðan Knútur son hans, enn 6ti, sat að völdum. Var Absalon einnig ráðgjafi hans. Þessi hinn mikli maður efldi mjög vísindi. Var það að hans undirlagi að þeir Saxó Grammatikus og Sveinn Akason rituðu Danmerkur sögu á latínu máli. Absalon lét og reisa kastala í Kaupmannahöfn til varnar móti víkingum, og jókst við það verðslun og velmegun borgarinnar. Knútur konúngur andaðist (1202) vetri síðar enn Absalon. Tók þá ríki í Danmörku, Valdimar 2 (hinn sigursæli) bróðir Knúts. Hann lagði undir sig strendur allar sunnanverðt með Eystrasalti, þar sem nú er, Meklenborg og allt austur á Lífland. Hernaður hans við Líflendínga má kalla að væri einskonar krossleiðángur. Andrés Súnason erkibiskup var fyrir liði Danakonúngs. Eittsinn komust Danir í kröggur miklar, en einn atburður varð

þeim þá að liði. Er mælt, að niður af himni hafi fallið merki með krossmarki á (Dannebrogs merkið). En líkast er að biskup hafi þar hafr einhvör brögð í frammi, til að eggja með liðsmenn sína. Tókst hönum það, og vann sigur. Leingi gekk Valdimar kon: úngi flest í vil, en sú kom tíð að annað varð ofaná. Hinrik greifi af Schverin, hafði sætt ofríki Valdimars og vildi hefna sín; og einhvörju sinni er konúngur kom af dýraveiðum á Lýey, og var geinginn að sofa, kom Hinrik greifi að honum og tók hann höndum, og hafði í varðhaldi nokkur ár. Loks var hann látinn laus móti ærnu fégjaldi, og varð að lofa því, að hefna sín ekki. Höfðu flest öll lönd hans geingið undan honum á meðan. Litlu síðar fékk Valdimar leyfi af páfa, að vera laus af eiði þeim er hann hafði unnið Hinriki. Safnar hann þá liði og fer á móti greifanum. Þeir börðust hjá Bornhöfði, og hafði Valdimar konúngur ósigur, og misti annað augað. Olli það mest þessum ósigri að Þéttmerskir menn sviku konúnginn í bardaganum. Upp frá þessum tíma, gjörði Valdimar einga tilraun til að ná aptur löndum þeim er hann hafði mist, en lét sér helzt annt um að efla hag þeirra er hann hélt eptir. Hann setti Jótlands Lög, og voru þau að vísu góð á þeim tímum. Litlu fyrir andlát sitt (1241), skipti hann ríkinu með sonum sínum, og olli það miklum deilum þeirra í millum. Skyldu enir yngri hafa lönd sín í lén af Eiríki Plógpenníngi, er elztur var þeirra bræðra. Hann var veginn af Abeli bróður sínum. Eptir þá tíð komst ríkið svo

mjög á fallanda fót, að við sjálft lág að það mundi sundrast með öllu.

## Frá því er Sveissar náðu frelsi sínu.

Sveiss (Schweiz), eður Helvetia öðru nafni, hafði um lánga æfi verið í sambandi við Þýðskaland. En Rúdólfur keisari af Habsborg, er átti mörg héröð í Sveissalöndum, vildi sameina það er hann átti ekki, þar í landi, við sín lönd. Þó fór hann vel og stillilega að Sveissum; en Albrekt keisari son hans beitti hörðu við þá. Setti hann þeim landstjóra, er veittu þeim hið mesta ofríki; hét einn þeirra Gésler, og er hann nafnkénndur orðinn. Undu Sveissar hið versta slíkum afarkostum. Þá sórust 3 menn í félag til að frelsa úr ánauð ættjörðu sína, hétu þeir: Verner Stáffakker frá Sveiss, Valter Furst frá Urí, og Arnold Melktal frá Untervalden. Síðan bættust 30 manns við, bundu þessir allir það svardögum með sér, í landsbygð þeirri er Rutlí heitir við Fernskógavatn (Vierwaldstädtersjøen), 17da dag Des: 1307, að verja réttindi sín er þeir hefðu tekið í arf eptir forfeðurnar. Litlu síðar bar svo til að Gésler landstjóri, reisti staung eina og setti þar á hatt, og bauð að allir sem fram hjá geingi skyldu lúta honum. Þá gekk þar fram hjá Vilhjálmur Tell veiðimaður, hann var einn af samsærismönnum. Tell vildi ekki hlýða boðum landstjórans, var hann þá tekinn höndum og leiddur fyrir Gésler. Skipar landstjórinn honum til strafss, að skjóta epli af höfði sonar síns. Tell gekk

til og skaut eplid af hofdi sveininum. Gésler sá ad Tell hafdi adra ør hjá sér, og spyr hví hann gjørdi svo. Þá svarar Tell: Þér var sú ør ætlud, hefda eg hæft son minn í stad eplisins. Gésler lét leggja Tell í fjøtra, og færa á skip sitt, og ætladi ad flytja hann heim til sín yfir Fernskógavatn. Á vatninu styrmdi ad þeim svo mjøg, ad lág vid drukunn, var þá ekki annad til úrræda, en leysa fjøtrana af Tell og láta hann setjast undir stýri; því hann var stjórnari hinn besti. Hann lagdi skipinu þar ad landi sem hamrar voru fyrir, og er skipid rennir ad, hleypur hann af upp á klett einn, og hryndir skipinu frá landi. Gésler nádi landi á ødrum stad. en þar var Tell fyrir og skaut hann til bana. Vid þetta óx samsærismønnum hugur, og sátu nú ekki leingur um kyrrt. Einn þeirra átti unnustu í einni af borgum Austurríkis manna þar í landi. Adfaranótt ársins 1308, hjálpadi hún honum upp í borgina, sídan hjálpadi hann féløgum sínum ad komast þángad, og tóku þeir svo borgina um nóttina ad menn urdu eigi varir vid. Adra borg tóku þeir frá Austurríkis mønnum á þann hátt: þad var sídur ad færa landstjórum gjafir á nýársdegi. Nokkrir menn sveissiskir, ráku gángandi fé ad borginni, og kvádust færa þad landstjóra. Voru þeir látnir gánga inn í borgina. Þá tóku þeir undan klædum sínum hvassa járnbrodda, festu þá vid hjardprik sín, og tóku med þessum vopnum borgina. Þannig sigrudust Sveissar á Austurríkis mønnum med hreysti sinni og rádum. Þó vantadi enn mikid á, ad frelsi þeirra mætti kallast

grundvallad. Ekki høfdu enn nema 3 fylki geingid í félag, og rekid ofríkismennina af høndum sér, þessi fylki voru: Urí, Untervalden og Sveiss, og Albrekt keisari bjóst til hefnda. Fór hann med her manns til Sveissalands, en Jóhann af Svaben, bródurson hans, vóg hann á þeirri leid, fyrir þá søk ad keisari hafdi haldid undir sér erfdaløndum hans. Hinrik keisari hinn 7di, kannadist ad sønnu vid, ad Sveissar hefdu nád frelsi sínu, en Austurríkismenn gátu samt ekki gleymt því er þeir høfdu mist, og gjørdi margar tilraunir til þess ad ná aptur landinu. Þeir áttu orrustu vid Sveissa undir Morgarta fjalli, og bidu ósigur; adra orrustu áttu þeir hjá Sempakk, og var Leópold hertogi fyrir þeim (1386). Þar gekk Arnold Vinkelríd í daudann fyrir landa sína, svo þeir feingi sigur. Austurríkismenn stódu fastir fyrir sem bjarg, gjørdu Sveissar mørg áhlaup á fylkingar þeirra, og feingu ekki adgjørt. Þá kallar Arnold Vinkelríd til landa sinna þessum ordum: veitid ássjá konu minni og børnum! sídan hleypur hann fram og grípur tveim høndum spjót nokkurra óvina sinna er fyrir voru. Stódu spjótin ígégnum hann, en hlid kom á fylking þeirra Austurríkismanna, ruddust Sveissar þar innum, og hjuggu á bádar hendur, snéri nú mannfallinu á herfogans menn, og drápu Sveissar hvørn sem fyrir vard. Þar féll Leópold hertogi og kappar hans allir. Eina orrustu áttu Austurríkismenn vid Sveissa eptir þad, og feingu Sveissar sigur. Komust þá sættir á med þeim, og urdu Austurríkismenn ad vidurkénna frelsi

Sveissa. Með sömu harðfeingi vörðust Sveissar á-ráseum Karls hins hugdjarfa, Búrgúndíu hertoga. Hann átti orrustur við þá hjá Granson, Múrten og Nansý, misti þar aud fjár og margt manna, og fèll sjálfur í enni síðustu orrustu (1477). Urðu nú Sveissar frægir af öllum þessum sigrum, um alla Norðurálfu, képptust og allar þjóðir um, að fá þá til að gánga á mála hjá sèr. Voru þeir jafnan í liði Frakklands konúnga, og þóktu afbragð annara manna bæði að hreysti og trúmennsku. Smámsaman bættust fleiri fylki við, og sóruzt í fèlagið, og urðu þau að lyktum 13 saman. Var stjórnarlögum þeirra margbreytt, þar sem í sumum var alþýðustjórn, í sumum höfðingjastjórn; en öll sameiginleg málefni fylkjanna, voru lögð til eins allsherjar þings er kallast landdagur.

## Frá ófriði millum Englismanna og Frakka á 14 og 15 öld.

Meðan Englismenn áttu Normandíu á Frakklandi, voru laungum óeyrðir milli ríkjanna. Þó urðu enn meiri brögð að því, þegar Játvarður 3ji, Engla konúngur kvaðst borinn til ríkis á Frakklandi; og kom fram með þá kröfu. Hann var son Játvarðar 2ars, og Ísabellu dóttur Filippusar ens fríða, Frakka konúngs. Þá er Karl 4ði var andaður, síðastur konúngur af Kapetínga ætt, (er sat að ríkjum á Frakklandi eptir Karlúnga), og menn höfðu kjörið til ríkis frænda hans Filippus 6ta af Valois (Valoa), vildi Játvarður 3ji ekki samþykkjast það, réðist á Frakk-

land, en vard litid ágeingt í fyrstu. Hann stefndi her sínum til Parísarborgar, þar komu Frakkar til móts vid hann og hafdu ofurefli lids. Treystist Játvardur ekki ad berjast vid þá, og hélt sínum her undan til borgar þeirrar er Crecy heitir. Þar bördust þeir, og þóktust Frakkar hafa sigurinn í höndum sér, en svo lauk med þeim, ad Játvardur konúngur fékk mikinn sigur. Regn hafdi geingid er þeir börđust, og hyfdu slaknad bogastreingir Frakka, og vard þeim þad ad ólidi. Þessi orrusta stód 1346 árum eptir Krists burd. Játvardur kóngsson, er af herklædum sínum var kalladur svarti prins, sýndi í þessari orrustu bædi vit og hreysti. Eptir þad settist Játvardur konúngur um Kaleborg (Calais). En Jóhann frá Vienne vardi borgina med mikilli hreysti. Loks þrutu vistir fyrir borgarmönnum, og gáfust þeir þá upp. Var þá Játvardur konúngur hinn reidasti, og lág vid sjálft hann mundi láta drepa hvert manns barn í borginni. Þó lét hann loks sefast, med því móti ad 6 menn væru gefnir á sitt vald. Hlutudust menn um hverjir gánga skyldu á konúngs vald. Þar var sá madur í borginni er Evstace de St. Pierre hét, hann gekk fram og kvadst láta skyldi líf sitt fyrir landa sína. Urdu þá fleiri til er hans dæmi fylgdu. Voru þeir sídan leiddir 6 saman, med snörur um háls til Játvardar, vildi hann þá þegar í stad láta taka þá af lífi, geingu þá menn á milli og sögdu konúngi, ad borgarlidurinn hefdi gjört þad eina er rétt var, og mundi þad verda évarandi blettur á ordstýri hans, ef hann léti aflífa

menn þeſsa. Skipadiſt konúngur vid ord þeirra, og gaf þeim líf. Filippía drottníng Játvardar, er þá kom frá Skotlandi og hafdi nýunnid þar ſigur, átti og gódan hlut ad þeſsu máli. Nokkru ſeinna herjadi Játvardur (ſvarti prins) úr héradi því ſem Gienne heitir, á Frakkland. Hann hafdi lítid lid, og hætti ſér lángt uppí land, en í grend vid Peituborg (Poitiers) umkríngdi Jóhann gódi Frakka konúngur hann. Sá Játvardur ſitt ó-vænna, og bauzt ad halda burt af Frakklandi til Gienne, þar ſem enſkir menn áttu landeignir; en Frakkar treyſtu lidsafla ſínum og lögdu þegar til orr-uſtu. Par feingu enſkir menn ſigur og tóku Jóhann konúng höndum (1356). Hafdi Játvardur kóngsſon hann med ſér til Lundúnaborgar, og fór med hann vægdarſamlega. Medan Jóhann konúngur ſat í vard-haldi á Englandi, var ſvo róſtuſamt á Frakklandi, ad naumaſt hafa í annan tíma ordid meiri brögd ad því, nema ef telja ſkal ſtjórnarbiltínguna miklu, ſyrir en ſíduſtu aldamót. Lutu óeyrdirnar meſt ad því, ad mínka kóngsvaldid, en bændamúgurinn vaknadi af laung-um ánaudarſvefni, og hefndi ſín ofbodslega á lendum mönnum, undirokurum ſínum. Hafdi Karl kóngsſon fullt í fángi med ad ſefa óeyrdirnar, tókſt honum þad þó um ſídir. Eptir andlát ſödur ſíns, Jóhanns kon-úngs, tók Karl vid ríkisſtjórn á Frakklandi, og nefnd-iſt hinn 5ti med því nafni. Tók hann aptur frá Englis-mönnum allt þad, er þeir höfdu lagt undir ſig á Frakk-landi, nema Raleborg. Átti Frakka konúngur þad einkum ad þakka, hinum ágæta hershöfdíngja Bertrand

du Guesclin. Enda var þá og Játvardur kóngsson, hetjan, andadur, en Játvardur konúngur (hinn 3i.) fadir hans, ólíkur því í elli sinni, sem hann hafdi verid hinn fyrri hluta æfi sinnar. Á døgum Játvardar ens 3ja, fekk alþýdan á Englandi fyrst algjørlega rétt til þíngsetu á þjódþíngi (Parlament) þeirra, og þá adgreindist til fulls og alls nedri málstofan, (alþýdustofan, Hous of Commons) frá efri málstofunni (Lávardastofan, Hous of Lords), (1343). Er þjódarþíng þetta sídan ordid mjøg vídfrægt.

Eptir daga Karls 5ta (1380), kom til ríkis sonur hans Karl 6ti, hann var mestan hluta æfi sinnar vitstola, voru þá enn óeyrdir á Frakklandi, og képptu þeir konúngs frændurnir, Hertoginn af Orleans og Hertoginn af Búrgúndíu um vøldin. Sætti Hinrik Engla konúngur hinn 5ti, (sonur Hinriks hinns 4da af Lankasturs ætt) því tækifæri, fór herferd til Frakklands, og vann mikinn sigur á Frøkkum hjá þorpi því er Azincourt heitir, høfdu þó Frakkar lid miklu meira. Litlu sídar áttu þeir fund med sér, Karl konúngsefni Frakka, son Karls 6ta, og Jóhann hinn hugdjarfi, Búrgúndíu hertogi, var hertoginn veginn á þeim fundi. Gjørdi þá Filippus gódi, sonur Jóhanns hertoga, samtøk vid enska menn og Isabella Frakka drottníng gekk í lid med þeim af hatri vid Karl son sinn. Var þá eingin sá madur, fyrir nordan Lóra fljót (Loire), er fylgja vildi Karli. Fridur var saminn millum ríkjanna í Troyesborg (1420), skyldi Hinrik 5, fá Katríuar dóttur Karls 6ta og erfa ríki á Frakk-

landi eptir hann, en Karl konúngsson missa tilkall til. Tveim vetrum sídar andadist Hinrik konúngur, nokkrum vikum fyrr enn Karl 6ti Frakka konúngur. Var þá sonur hans, 9 mánada gamall, til konúngs tekinn yfir England og Frakkland, og nefndur Hinrik hinn 6ti. Skyldu födurbrædur hans, hertogarnir af Bedford og Glócester, hafa öll forrád á hendi. Hertoginn af Bedford á Frakklandi, en hinn á Englandi. Kreppti nú mjög ad Karli Karlssyni (enns sjötta), er einn flokkur manna hafdi tekid til Kóngs yfir sig, og kallad Karl enn 7a. Var eigi annad fyrir ad sjá, enn hann mundi aldrei komast til ríkis á Frakklandi. Englismenn unnu hvervetna sigur, og settust um Orleansborg, mátti kalla úti um ríki Karls 7da, ef sú borg ynnist. En þá vard sá atburdur, er gjördi skjót umskipti á högum Frakka. Stúlka ein frá Dom Remi í Lótríngasveit, ad nafni Jóhanna Dark (Jeanne d' Ark), gekk á fund Karls konúngs, og kvadst vera send frá Gudi, til ad reka Enska menn burt af Frakklandi. Trúdu margir þessu, en Jóhanna fór med sveit manna til lids vid þá í Orleans, urdu þá Enskir menn frá od hverfa. Þessunæst kom hún Karli til Reimsborgar, eins og hún hafdi heitid honum; var hann þar krýndur. Vildi hún nú fara frá hernum, en menn feingu hana til ad bregda af þeirri fyrirætlun. Litlu sídar komst hún í hendur Englismanna. Kolludu þeir hana galdranorn, og sjálfir háskólakennendurnir í Parísarborg samsinntu því, var henni þá hrundid á bál og brend til ösku. 20 árum seinna let Karl konúngur rannsaka mál henn-

ar ad nýu, var þá gjørdur ómerkur dauda dómur henn-ar, og henni reistur heidursvardi í Orleans. En vid sigurvinningar Jóhønnu hafdi Frøkkum aukist svo hug-ur, ad Englismenn gátu ekki rønd vid reist. Enda var þá Búrgúndíu hertogi genginn í lid med þeim, var þá og róstusamt mjøg á Englandi svo þadan var ekki lids ad vænta, unnu Frakkar aptur øll þau lønd er þeir høfdu misst, nema nokkrar eyar fyrir Normandíu strøndum, og Kaleborg. Þannig vard Karl 7di konúngur yfir øllu Frakklandi, þó mønnum þækti um tíma litlar líkur til þess.

## Frá því er Margrét drottníng sam-einadi Nordurlønd, í Kalmar. (Kalmar-Unionen).

Undverdlega á døgum Valdimars konúngs sig-ursæla; stód Danaveldi í miklum blóma, en á ofan-verdri æfi hans, fór því heldur ad hnigna, og eptir andlát hans (1241), urdu enn melri brøgd ad því. Olli því einna mest deilur þær sem konúngarnir áttu vid lenda menn og klerka. Þar vid bættist og fjand-skapur sá, sem reis milli Dana og Holsetulands greifa. Þegar Kristofer 2ar, Danakonúngur and-adist, var ríkid þvínær allt hlutad sundur. Helztu fylkin voru í ymsra manna høndum. Jótland hafdi verid vedsett Gért greifa af Holsetalandi, gékk hann mjøg hardt ad Jótum og gjørdi þeim margt til mink-unar. Kristófer konúngur andadist 1334, høfdu þá Danir eingan konúng yfir sér í 6 ár, en Holsetar

trádu þá mjøg undir fótum, til þess er Níels riddari Ebbason vóg Gért greifa að Randárósi (1340). Tóku þá Danir Valdimar Kristófersson til konúngs yfir sig, hann kölludu þeir Atterdag (Aptur dagur). Hann náði aptur øllum þeim hlutum ríkisins er kom- ir voru á sundrúng; suma lagði hann undir sig með herskyldi, en sumar borgir og fylki leysti hann af veði. Hann gifti Margrétu dóttur sína Hákoni enum 6ta, Noregs konúngi, varð það orsøk til þess að Dan- mørk og Noregur sameinuðust. Eptir andlát þeirra Valdimars konúngs (1375) og Hákonar konúngs (1380), erfði Olafur Hákonarson bæði ríkin, en Margrét drottníng móðir hans hafði forráð øll, því Olafur var barn að aldri. Sjø vetrum síðar andaðist Olafur, var þá Margrét kjørin til ríkisstjórnar í báðum ríkjum. Litlu síðar geingu og Svíar á vald Margrét- ar drottníngar. Sá konúngur réði þar fyrir landi er Albrekt hét, frá Meklenborg; hann hafði boðað til Svíþjóðar mikinn fjølda þýðskra manna, varð hann af því mjøg óvinsæll af Landsmønnum, og leituðu marg- ir høfðíngjar af Svíþjóð. traustsʼ hjá Margrétu drottn- ingu. Hún var hinn mesti óvin Albrekts konúngs; hafði hann kallað hana Múnkadækju (Munkedeie), sakir vinfeingis þess er var með henni og Sóreyar ábóta, og sendt henni brýni, með þeim orðum, að hún skyldi hverja á því nálar sínar. Hét drottníng þeim øllum liðveitslu er á hennar fund komu, ef þeir vildi fá sér í hendur ríkisstjórn í Svíþjóð. Eptir það sendir hún Ivar Lukku, herøhøfðíngja sinn með her manns til

Svíþjódar. Albrekt koníngur fór í móti honum, og hittust hjá Falkaupángi. Feingu Danir sigur, en Svía koníngur var handtekinn og hafdur í vardhaldi, til þess er hann afsaladi sér ollu tilkalli til koníngdóms í Svíþjód. Þesu næst stefndi Margrét mönnum af Danmörku, Noregi og Svíþjód til fundar í Kalmar (1397), skyldi þar rædt um sameiníngu ríkjanna. Var þar ákvedid: ad jafnan skyldi einn vera koníngur yfir þesum þrem ríkjum; skyldi hann sitja 3 mánudi á ári, í hvörju þeirra; þau skyldu hvört um sig hafa sín lög og réttindi, og til enna ædri valda skyldu þeir einir komast, er í því landi væru bornir. Þegar koníngur andadist skyldu menn eiga fund í Hálmstad og taka sér nýan koníng. Margrét fékk því og til leidar komid á Kalmar-þíngi, ad systurdóttur son hennar Eiríkur af Pommern, var tekinn til koníngs yfir þesi 3 ríki, þó skyldi húu hafa forráð öll. En þad vard hvörki ríkjunum til mikils gagns, edur Margrétu til stórrar gledi. Eirík skorti hvörttveggja, bædi vilja og mátt, til ad vera dugandi koníngur. Hann gjördi bædi mörgt til skapraunar Margretu drottníngu, og breytti í mörgu eptir andlát hennar, bædi af grimd og af gáleysi, útaf Kalmar-samþyktinni, og svo fór, ad Svíar og Danir ráku hann frá völdum. Flýdi Eiríkur þá til eyar þeirrar er Gotland edur Gulland heitir, og gjördist víkíngur. Nokkru sídar var hann rekinn þadan, og lézt loks á Vindlandi í mestu eymd og volædi.

## Frá því er Tyrkir unnu Miklagarð; og frá Mongólum.

Rómaveldi hið eystra, eður hið gríska keisaradæmi, hafði svo að segja leingi verið í andarslitrunum. Voru Persar og Arabar um lánga æfi enir skæðustu óvinir þess; þó urðu Tyrkir þessa skæðastir. Þeir voru komnir austan úr Asíu, frá löndum þeim er liggja umhverfis hið Kaspiska haf, kölluðu menn í fornöld þau lönd Skytía, en á seinni tímum Tartaríu. Setur Tyrkja fyrst á 6tu öld eptir Krists burð, þá er þeir veittu Grikkja keisurum móti Persum, síðan tóku þeir við Múhameðs trú, og geingu á mála hjá Kalífum í Bagdad. Ráðu höfðingjar þessa málaliðs (þeir kölluðust Emír al Omra), skjótt miklum völdum hjá Kalífum. Jarlar Kalífanna, sem flestir voru tyrkneskir herhöfðingjar, brutust undan, og settu á stofn ýms smáríki, er þó mörg áttu skammau aldur; eitt hið helzta af þeim er Seldsjúkka-ríkið, áttu höfðingjar þess, um 200 ára tíma, jafnan í ófriði við Grikkjakeisara og krossfarendur. Nálægt 1300 árum e. Kr. b., setti höfðingi sá er Osmann eður Otmann het, (máske af Seldsjúkka ættum) ríki eitt á stofn, í Asíu enni minni, gagnvart Miklagarði. Orkan son hans tók ríki eptir hann, og fekk dóttur Miklagarðs keisara, og þar með tilkall til ens gríska keisaradæmis. Ráðu og Tyrkir á hans dögum fótfestu í Norðurálfu. Hann kallaði sig fyrstur Súltan (Soldán), og hefir það nafn haldist síðan. Amúrat 1ti, sonur Orkans, lagði undir sig Masedoníu og Trasíu,

og settist ad í Hadríansborg. Hann hóf þann hermannaflokk er Janítskarar hétu, af kristnum úngmennum er hann hafdi hertekid, og lét kénna Múhameds trú. Vard sá flokkur frægur mjøg fyrir hreysti sakir. Eptir Amúrat kom til ríkis sonur hans, Bajazet 1ti, hann var enn mesti hermadur, og hefdi ad líkindum tekid Miklagard, hefdi ei annad kallad ad honum. En þad voru hinir nafnfrægu Mongólar.

Mongólar voru ættadir austan úr Mid-Asíu, af øræfum þeim er liggja sudur af Køldu-Svíþjód (Síbería) en fyrir nordan Kínaveldi. Þeir voru íllmannlegir og undarlega skapadir, bleikir á hørund, varaþykkir, kinnbeinaháfir, flatnefjadir og inneygdir; hunda átu þeir og ketti, og margt annad íllþýdi; þeir voru skinnum klæddir, og høfdust vid í tjøldum á ýmsum stødum, og ráku med sér hjardir sínar. Øndverdlega á 13du øld safnadi einn af høfdíngjum þeirra (er kølluðust Kanar) er Temúdsín hét, þeim undir merki sín, og kølludu þeir hann Díngiskan (konúng konúnga). Hann fór herskyldi yfir Asíu, og lagdi hana þvínær alla undir sig. Synir hans og eptirmenn herjúdu allt vestur ad Veiksel fljóti. Fóru heidíngjar þessir yfir løndin med hrædilegri grimd, drápu menn og brendu bygd alla. Sjer þess enn nokkurn vott eptir 600 ára tíma. Þá var svo høgum háttad hér í Nordurálfu, ad høfdíngjar þeir er þjódum áttu ad stýra, voru annadhvørt dádlausir, edur lágu í deilum sín á milli, og sumir hugsudu einúngis um Jórsalaferdir og krossgaungur. Um sídir ádrædi Hinrik hertogi af Slesíu ad fara í móti Mon-

gólum. Varð sundur þeirra hjá Ligniz borg (1241). Feingu heiðíngjar sigur, því liðsmunur var helzt til mikill. Eptir þá orrustu snéru Mongólar af leiðinni suður á Ungaraland. Stokk allt undan sem lífi vildi halda, en borgir og bygðir manna brunnu til ösku. Litlu síðar kollvörpuðu morðvargar þessir Kalífa ríkinu í Bagdad (1258), sem fyrr segir. Þetta hið mikla Mongólaríki sundraðist sem önnur stórveldi í Austurálfu, í mörg smærri ríki, er Kínverjar, Rússar og Tyrkir lögðu undir sig. En um hin 14ðu alda mót eptir Kr: hóf Tímur eða Tamerlan Mongóla veldi að nýu. Hann var það sem braust inní lönd Bajazets Soldáns, barðist við hann hjá Ankóruborg (1402), vann sigur á honum, og tók hann höndum; er sagt hann hafi sett Soldán í grindabúr af járni, og hast með sér á ferðum sínum um Asíu, til þess er Bajazet barði höfði á járngrindurnar af mikilli örvilnun og fekk bana af.

Þessar ófarir Tyrkja fyrir Tamerlani, ollu því, að nokkuð dróg magn úr þeim um stund, en bráðum réttu þeir við aptur þegar Amúrat 2ar kom til ríkis. Hann var hraustur maður og hafði sigur í orrustum við kristna menn. Þarf það eigi að undra þó þeir færi halloka fyrir Tyrkjum, er þá skorti bæði þrek og samlyndi til mótvarnar, en snerust allir við múnk lífi og þrætum andlegra efna. Er það eitt til sanninda merkis, að um þessar mundir sem Amúrat annar vosði yfir Miklagarði, voru þar ekki fleiri fyrir til varnar enn 500 hermanna, en þá voru klaustrin bæði í borginni

og umhverfis hana 300 ad tølu. Í þetta mund var sá madur uppi á Ungaralandi er Jóhannes Húnnyades hét, hann var enn mesti kappi og vardi landid hardfeingilega fyrir Tyrkjum, áttu kristnir menn þad honum ad þakka ad Amúrat gjørdi 10 ára vopnahlé vid þá, lagdi sídan vøldin nidur, svo hann gæti lifad í nædi, og fekk þau í hendur Múhamed, syni sínum. En erindsreki páfa æsti menn til ófridar, og leysti Ladislás enn 5ta, Ungara konúng, frá eidi þeim, er hann hafdi bundid med vopnahlé vid Amúrat. Hélt Ladislás konúngur her sínum sudrá Tyrkjalønd. En Amúrat tók vid vøldum aptur og stefndi lidi sínu til móts vid kristna menn. Vard fundur þeirra hjá borg þeirri er Varna heitir (1444). Høfdu kristnir menn þvínær komid Tyrkjum á flótta og unnid sigur, med rádum og framgaungu Hunnyadesar, en Ladislás konúngur spillti honum med framhleypni sinni. Þá var þad, ad einn tyrkneskur madur af Janitskara flokki tók í tauma á hesti Amúrats, og sneri vid undir honum hestinum. Kalladi Soldán þá, svo lidsmenn hans heyrdu, Gud sér til fulltíngis móti enum kristnu eidrofs mønnum, tókst nú en hardasta orrusta ad nýu. Þar féll Ladislás konúngur og nálega allur hans her. Eptir Amúrat kom son hans Múhamed 2ar til ríkis, hann hafdi einkum hugfest ad taka Miklagard. Þá rédi þar fyrir Konstantínus keisari hinn ellefti, hann sendi vestur í lønd og hét á kristna menn til lids vid sig, en þad kom fyrir ekki. Sídan sendi hann menn á fund Múhameds, og beiddist fridar, hét Múhamed ad

láta slá þá lifandi ef þeir kæmu optar fyrir sín augu. Eptir það settist Múhamed um borgina, og sparaði eing-ar vígvélar, að hann feingi unnið hana, en borgar menn vörðust af mikilli hreysti. Tyrkir drógu skip sín yfir granda einn inní höfnina, og þvínæst réðu þeir til áhlaups á borgina, og feingu þannig tekið hana (1453, 29 Maí). Þar féll Konstantínus keisari við góðan orðstýr, og margar þúsundir kristinna manna. Leifði Múhamed sínum mönnum að ræna borgina og drepa menn eins og þá lysti; voru það ógurlegar að-farir. Á þriðja degi hélt hann sigri hrósandi inní borg-ina. Hefir hún síðan verið aðsetur staður Tyrkja höfð-ingja. Þegar Múhamed hafði tekið Miklagarð, slóg miklum ótta á kristna menn, þó gjörðu þeir enn sem fyrri litlar tilraunir til að stöðva yfirgáng Tyrkja, og eptir það lagði Múhamed mörg lönd undir sig. Um þessar mundir réð fyrir Epírus, (það liggur vestur af Masedoníu) höfðíngi sá, er Georg Kastrióta eður Skanderbeg hét, hann hafði leingi verið með Tyrkj-um, en flýði loks frá þeim til ættjarðar sinnar, og brauzt þar til valda. Varði hann síðan ríki sitt fyrir Tyrkjum með svo mikilli hreysti, að undrum gegndi. Hefir og sumt það verið sagt af afreksverkum Skander-begs, er fjærri er öllum sanni. Þegar Tyrkir komu á legstað hans, tóku þeir bein hans, og báru á sér sem helga dóma, er vernda skyldi þá móti öllum hættum.

Þó kristnir menn mistu mikils þar sem Mikli-garður var unninn, leiddi þó það gott af því, að vísindi breiddust víðar út um Norðurálfuna. Margir

lærdir menn flýdu af Grikklándi fyrir Tyrkjum, vestur á Italíu, feingu þeir þar beztu vidtøkur, og gátu stundad vísindi í skjóli ennar Mediceisku ættar, er þá sat ad voldum í Toskana.

Tímabilid frá Krossleidángrum og til þess er Vesturálfa fannst er einkar merkilegt, af uppgøtvunum þeim enum miklu og mørgu er þá voru gjørdar, og sem flestar hafa haft ómetanlegar afleidíngar fyrir mannkynid. Medal þessara uppgøtvana má fyrst telja: Púdrid, er Þjódverskur múnkur einn, sá er Bertold Svarts er nefndur, fann upp 1330, tóku menn þá smámsaman ad brúka þad í orrustur, smída fallbyssur og handbyssur og skjóta af, breyttist þá gjørsamlega allur hernadur og vopnavidskipti manna. Ønnur uppgøtvan var sú, ad menn fundu upp ad gjøra pappír af léreptum. Fyrir Krists daga høfdu menn skrifad á blød af rótum pappírs pløntunnar. Þvínæst brúkudu menn pergament (bókfell), er gjørt var af skinnum kálfa og sauda. Eptir Krists daga lærdu menn hér nordur í álfunni af Kínverjum, ad gjøra pappír af bómull (vidarull), var sá þynnri og þægari í allri medferd enn pergament, en þókti jafnan dýr. Fyrir því tóku menn þad upp, ad gjøra pappír af bómullar klútum, og loks (nálægt 1300) af lérepts klútum, er hann sídan miklu þynnri og ódýrari. Enfremur fundu menn upp: eirstúngu (Kobberstikker kunsten), og trémyndaskurd (Formskjærerkunsten), rjódrudu menn litum á myndirnar og settu á pappír; leiddi sú uppgøtvun til annarar meiri, en þad var prentara íþróttin

(Bogtrykkerkunsten), hin þarflegasta og blessunarríkasta af öllum íþróttum. Jóhann Gúttenberg, ágætur madur, frá Meginzuborg (Mainz) á Þýdskalandi, fann hana fyrstur upp 1436; hann gjördi af tré marga bókstafi, festi þá saman á taug, bar á blek og setti á pappír; til þess þeir yrdu stödugri, fann hann upp prentpressuna. Sidan gjördi hann félagskap vid Jóhann Fást, gullsmid og audgan mann, og Pétur prest Schöffer, ágætan skrifara. Prestur kom upp med ad steypa bókstafina af málmi, í stad þess ad rista þá af tré. Gjördu þeir þad, og þannig var hinni miklu uppgötvun lokid. Skömmu seinna hóss sundurþykki med þeim Guttenberg og Fást, lauk svo ad Guttenberg dó í fátækt og volædi, en hinir drógu sér allan ábatann af því sem hann hafdi fundid upp. Ár 1457 kom hin fyrsta bók út á prenti, var þad sálmabók á latínu máli. Þó dádust menn mest ad hinum fögru biblíum, er þessu næst komu á gáng, voru þær bædi fagrari, og helsíngi ódýrari enn þær sem múnkarnir skrifudu og seldu mönnum; því sagt er ad ein skrifud biblía hafi kostad allt ad 500 rbdl: Rædur ad líkindum, ad flestir hafi hætt ad kaupa þær úr því. En múnkarnir reiddust meir enn frá verdi sagt, og sögdu medal annars, ad þeir Fást væru galdramenn og hefdu íþrótt sína frá djöflinum.

Uppfrá þessum tíma tóku menn af miklu kappi ad lesa, rita, kaupa og safna bókum, og þar ed sönn vísindi fóru um þessar mundir ad lifna vid aptur, svo breiddi prentara íþróttin, á örstuttum tíma, hid nýja

ljós út um alla Norðurálfuna, og undirbjó og efldi, fremur öllu öðru, endurbót trúarbragðanna, er menn svo stórlega þörfnuðust.

## Fundin Vesturálfa. (Ameríka).

Kristófer Kolúmbus hefur maður heitið. Hann var ættaður frá Genúa. Hann var siglínga maður mikill, og manna bezt að sér í þeirri ment. Hann kom til Portúgals á þeim tímum, er þarlendir menn gáfu sig mjög við landaleitum. Hafði Hinrik konúngsson, er kallaður var sæfari (Navigator), fyrstur manna stofnað þær og varið miklu fé til, en síðan styrkti konúngur sjálfur. Hinriki var að þakka að menn fundu Madéruey, hinar Azórisku og Kapóverdisku eyar, og að vesturstrendur Suðurálfu voru kannaðar. Kolúmbus hafði nú hugfest að finna fleiri lönd. Af ýmsum líkum réði hann, að fyrir vestan haf mundi land vera, er hann hélt vera Indíaland. Vildi hann fá styrk hjá einhverri ríkisstjórn til að finna lönd þessi, og leitaði fyrst á hjá löndum sínum í Genúa, en þeir synjuðu honum hjálpar, og Portúgalsmönnum fórst ekki betur. Leitar hann nú á fund Spánverja konúngs. Þar réði þá ríkjum Ferdínand hinn katólski og Isabella drottníng. Hafði Ferdínand konúngur feingið Kastilíu ríki með Isabellu (1479), en áður réði hann fyrir Arragoníu. Ferdínand neitaði Kolúmbusi í fyrstu allrar liðveitslu, þókti mönnum og þessi fyrirætlun hans mjög óvíturleg. Þó lét Kolúmbus ekki hugfallast, ítrekaði aptur beiðni

fína og fékk loks áheyrslu. Ádur hafdi Ferdínand lagt allt kapp á ad vinna Granadaborg, frá Márum, þá borg áttu þeir sídasta á Spáni. Þegar hér var komid (1492), hafdi Ferdínand unnid borgina; var nú gledi mikil vid hirdina. Leitudu þá vinir Kolúmbusar þess hjá Konúngi, ad hann styrkti hann til vesturferdar, og hét konúngur þeim því. Þridja dag Ágústí mánadar 1492, lagdi Kolúmbus med 90 manns á 3 smáskipum, útá hid mikla Atlanshaf. Kom honum nú í gódar þarfir uppgötvun sú, er Flavío Gioja frá Amalfí á Sydra-Vallandi hafdi gjört öndverdlega á 14du öld, en þad var Leidarsteininn (kompásinn). Þó höfdu menn þekkt hann á 13du öld. En sem Kolúmbus hafdi verid nokkra tíd í hafi, gjördist íllur kurr medal skipverja, og skorudu fast á hann ad snúa aptur. Og sem þeir sáu ad þess var einginn kostur, létust þeir mundu kasta honum útbyrdis, og þar kom, ad hann hét ad gjöra sem þeir beiddu, ef þeir sæu ekki land ad þriggja daga fresti. Á þridja degi sáu þeir land (12. Okt.). Var þad Gvanahani, ein af enum Lúkaisku eyum. Nefndi Kolúmbus hana St. Salvator (þ. e. Frelsari), sökum þess ad hann frelsadist frá því ad snúa heimleidis aptur vid svo búid. Kolúmbus gekk á land med brugdnu sverdi, og eignadi eyuna Spánar konúngi. Þar var fyrir á eynni villþjód ein, eirrand á hörund, og ráfadi ber um mörkina sem fénadur á afrétt. Ekki fundu þeir Kolúmbus þar gull, sem þeir þó helzt leitudu ad, og því hélt hann enn leingra, og fann þá eyland mikid, er

þeir menn er þar bjuggu fyrir kölludu Kúba. Þadan hélt hann í austur, og fann annad eyland mikid er eybúar kölludu Hayti, en Kolúmbus nefndi þad Hispaníóla, seinna nefndist þad St. Domíngó. Þar var honum sagt ad byggju mann ætur í næstu eyum. Kólúmbus lét reisa þar virki, og lét þar nokkra eptir af mönnum sínum, og er hann hafdi búid sig sem best hann gat ad vistum, og ýmsum hlutum er þar feingust á eyunni, lét hann í haf og sigldi til Spánar. Tóku menn þar vid honum tveim höndum. Kólúmbus fór 4 ferdir vestur um haf í landaleit, og fann margar eyar, og loksins kom hann ad meginlandi, er þó hefir ekki verid vid hann kennt, heldur vid þann mann, er Amerigo Vespúrci hét. Hann var ættadur frá Florents í Italíu, og var siglíngamadur mikill, og kom vid land þar sem nú er Sudur-Ameríka. Hann vard fyrstur til ad rita bók um landaskipun og landnám manna í Vesturheimi, og var sá hluti veraldar, kalladur Amerigós land edur Ameríka. Kólúmbus þág ekki þau laun sem hann átti skilid, fyrir afreksverk þau er hann hafdi unnid, og þrautir þær, er hann hafdi ratad í. Mótstödumenn hans feingu og eittsinn rægt hann svo vid Ferdínand konúng, er þeir sögdu ad hann hefdi í hyggju ad brjótast til valda í löndum þeim er hann hafdi fundid, ad konúngur lét setja hann í fjötra og flytja til Spánar. Ad sönnu vard Kólúmbus sýknsaka, en Ferdínand vildi ekki efna þad, er hann hafdi heitid honum, en þad var, ad Kólúmbus skyldi verda jarl yfir löndum þeim er hann

finndi. Fékk Kólúmbus aldrei rétt hluta sinn, og andadist (1506) sorgbitinn og á tálar dreginn af vondum mönnum. Ferdínands konúngs er gétid ad mörgu, en slægvitska hans og undirferli vekja jafnan viđbjóđ manna. Eida og loford virdti hann ad vettugi, þegar hagnadur hans var annars vegar. Á dögum hans var lögleiddur á Spáni hinn óttalegi ransóknarréttur (Inqvisition), skyldi leita uppi alla trúvillu menn og refsa þeim. Múnkar þeir, er kénndir eru vid Dominikus, stýrdu þessum rétti, og vanbrúkudu hann hrædilega. Var mörgum þúsundum saklausra manna kastad í æfilaung fángelsi. En þeir sem uppvísir urdu ad einhvörri trúarvillu, voru brenndir á báli, med mikilli vidhöfn; kölludust veitslur þær og helgihöld er þá voru vidhöfd: Auto da Feer (Brennuveitslur).

Auk Kólúmbusar urdu fleiri menn frægir af landnámum í Vesturálfu (Ameriku). Ferdínand Kortes hét madur einn á Spáni. Hann fór vestur um haf, og kom vid land í Norduramerík (1520), fám skipum, med 600 manns. Þar var fyrir ríki eitt mikid, hét þad Mexikó, og rédi fyrir því keisari sá er Montezúma hét. Kortes lagdi grundvöll ad borg einni og kalladi Vera Krúz. Landsmenn undrudust mjög Kortes og menn hans, og héldu þá vart mennska menn, er hefdu þrumur og eldíngar í hendi sér, enda höfdu þeir aldrei séd byssur eda riddaralid. Eptir nokkrar smáorrustur gjördi Kortes félag vid eitt litid fríveldi er Tlaskala hét; veitti þad honum dyggilega

fylgd. Hélt hann nú viðstöðulaust inní höfuðborg Mexíku = manna, tók keisara höndum, og setti honum ýmsa kosti. Þetta stóðust ekki borgarmenn. Þyrptust þángað sem Spánverjar höfðu híbýli sín, og létust mundu veita þeim aðgaungu. En er keisarinn varð þessa vís, steig hann uppá múrvegg einn, og vildi sefa menn sína, en þeir espuðust æ því meir, og lýstur einn þeirra keisarann steinhögg mikið, svo hann fékk bana af. Urðu nú Spánverjar að leita undan úr borginni. Varð það en mesta mannhætta, því borgin stóð í vatni einu, og lágu að eins mjóar stiflur til lands. Misti Kortes þar margt manna, en komst sjálfur undan með meiri hlutann. Litlu áður hafði jarlinn á Kúbu sendt sveit manna móti Kortes, er taka skyldi hann höndum, en Kortes brá við skjótt, vann sigur á þeim, og fékk þá er eptir voru í lið með sér. Eptir það hélt hann til Mexíkuborgar, og tók hana eptir harða orrustu. Beittu enir fégjörnu Spánverjar mikilli grimd við enn nýja keisara Gvatimózín og landsfólkið. Kortes nam fleiri lönd, enn hér segir. Hann sætti, eins og Kólúmbus fyrrum vanþakklæti af konúngi sínum, og andaðist 1547.

Um þær mundir sem Kortes lagði Mexíkó undir sig, leituðu aðrir sér fjár og frægðar í Suður Ameríku. Frans Pízarró er maður nefndur, spanskur að kyni, hann var svínahirðir í uppvexti sínum, og lærði hvorki að lesa né skrifa, en vel var hann viti borinn, og skorti hvörki dug né áræði. Hann fór lands-

námsferð til Peru *). Þar var fyrir mikil gnægð gulls og silfurs. Höfðu þar lengi setið að völdum ættmenn Inka er nefndu sig: börn sólarinnar. Þegar Pízarró kom þángað, var konúngur ný andaður, en synir hans tveir, Húaskar og Atapalíba áttu ófrið sín á milli. Leitaði Atapalíba liðs hjá Spánverjum, en Pízarró sveik hann í trygðum og lét síðan drepa hann. Pízarró lagði Peru alla undir sig, og sat þar að völdum, uns hann var af dögum ráðinn 1542. Um sama leiti sem Pízarró lagði Peru undir sig, vann félagi hans, sá er Almagró hét, það land er Kílí heitir, það liggur suður af Peru.

Landnám þessi, er nú hefir verið sagt frá, urðu Norðurálfu búum til ens mesta ábata og framfara. Þeir gjörðust siglíngamenn meiri enn áður, og öfluðu sér þekkíngar á mörgum hlutum er áður voru ókunnir. Í Vesturálfu spruttu margir þeir ávextir er menn höfðu eigi fyrr séð. Þá lærðu menn fyrst að þekkja jarðepli og Kínabörk. Kaffibaunir og sykur, er menn þekktu áður, vöx ágæta vel í Ameríku; en auk þess fékkst þar ógrynni gulls, silfurs, gimsteina og ýmsra fémætra hluta. Þjóðir þær er þar bjuggu fyrir, græddu ekki við komu Spánverja. Því fyrst var það, að þeir kúguðu þær með allskonar grimd til að taka við kristni, og þarnæst létu þeir þær vinna baki brotnu í málmnámum, og á ökrum sínum, dóu þá þessir vesælu menn hrönnum, er óvanir voru slíkri þrælkun. Múnkur nokk-

*) Sjá Landaskipunarfræði Síra G. Oddssonar, 3 Part. bls. 363.

ur spánskur, Bartólomeus de las Kasas að nafni, hugði að hvørnig létta mætti ánauð þessari á Vesturálfu-mønnum, og réði til að sækja blokkumenn til Suðurálfu, og setja þá í námurnar, þeir væru sterkari og mundu því betur þola erfiði. Þókti mønnum það óska ráð, og þannig varð múnkur þessi, er ætlaði að gjøra miskunarverk, frumkvøðull að enni illræmdu blokkumanna verzlun.

Nálægt því tímabili er Kólúmbus fann Vesturálfu, fundu menn sjóleið til Austindía. Portúgalsmenn høfðu lengi haft húgfast að finna þá leið, og sá maður er Bartólomeus Díaz hét, hafði komist fyrir suðurodda Afríku, og kallað hann: Stórmhøfða, af hvassviðri því er hann hreppti þar og neyddi hann til að hverfa aptur. En Jóhann Portúgals konúngur hinn annar, breytti nafninu og kallaði: Góðrar vonar høfða, því hann gjørðist þá vongóður um að skipaleið mundi finnast til Austindía, og gaf raun þess síðar vitni. Sex árum seinna enn Kólúmbus fann Vesturálfu, sigldi hinn nafnfrægi farmaður Vasko de Gama fyrir Vonarhøfða, og létti ei fyrr enn hann tók land í Kalíkút á Malabarstrøndum, í Austurálfu. Þá réð fyrir Portúgal Emanúel konúngur hinn mikli. Þannig náðu Portúgalsmenn enni arðsømu Indlands verzlun undir sig. Þeir køstuðu og eign sinni á ýms lønd og borgir. Eru hér að eins nefndar tvær Góa og Díú. Aður var sú verzlun í høndum Feneyínga og Genúa manna. Fluttu Feneyíngar varníng sinn eptir høfinu rauða, svo yfir Egypta-

land til Alexandersborgar, og þaðan sjóleidis heim til sín. En Genúamenn sóktu hann austur í nýlendur sínar við svarta hafið. Jók það verð þessa varnings um helsing, að menn urðu að flytja hann landveg nokkuð af leiðinni; en Portúgalsmenn gátu nú flutt hann alla leið sjóveg, síðan leiðin fannst, og fyrir því selt hann betra verði enn hinir. Síðan gekk þessi mikla verzlun úr greipum þeim í hendur Hollendínga, en þeir hafa aptur orðið að láta hana lausa við Enska menn. Á dögum Emanúels ens mikla, fundu menn, einnig Brasilíu, er Portúgalsmenn eignuðust af hendíngu. Maður hét Kabral, hann skyldi fara frá Portúgal til Austur Indía, en er hann sigldi suður með Afríku, kom á hann veður, og rak undan vestur í haf, og kom að landi einu er hann kallaði Brasilíu, eignaði hann landið Emanúel konúngi sínum. Um þær mundir sigldi Magellan frá Portúgal, fyrstur manna umhverfis jarðarhnöttinn.

---

# Nýa Sagan.

## Frá Siðabót Lúthers. (Reformationen)

Á ýmsum tímum hafði yfirgángur páfa, komið mönnum til að ransaka lærdóma þeirra, og sannfærast um á hverju veikum fæti þeir voru bygðir. Gjörðust þá sumir til að kveða upp úr og mæla móti „Jarli Krists". Einn af þessum djarfmæltu mönnum var Pétur Valdus (Pierre Vaux), er verið hafði kaupmaður í Lýonsborg á Frakklandi (1200). Annar var Jóhann Vikleff, guðfræðiskénnari í Oxnafurðu á Englandi (1360). Sættu þeir báðir og áhángendur þeirra þúngum ofsóknum af pápiskum mönnum. Þó tók lángt yfir þegar Jóhann Hús, frá Prag í Bæheimi, hóf kénníngu sína móti Páfa. Honum var stefnt til klerkaþings í Kostniz, og fékk hann áður loforð af páfa, og verndarbréf Sigmundar keisara, til þess að honum skyldi þar ekki verða mein gjört, en jafnskjótt sem hann kom til fundarins var hann gripinn og settur í varðhald, og síðan brenndur (1415). Því biskupar sögðu, að eingin skylda væri að efna loforð við villumenn. Ári síðar hlaut Híerónýmus, vinur Jóhanns

og sambyrgismadur, sömu afdrif. En þessi hin miklu fólksfuverk, espudu svo vini þeirra í Bæheimi, ad þeir gripu til vopna móti keisara; gjördist Jóhann Ziska foríngi þeirra. Hann var enn mesti kappi, og fékk keisarinn ekki adgjört, medan hann var uppi; en eptir lát hans urdu Bæheims-menn ósáttir sín á milli, fór þá eins og vid var ad búast, ad þeir urdu ad semja frid vid Sigmund keisara, og gánga aptur til hlýdni vid hann.

Allt til þessa hafdi Páfinn ordid yfirsterkari öllum þeim er á móti honum risu, en loks kom sá madur, er hvorttveggja fylgdi, bædi hugrekki og hamíngja til ad draga þrótt úr páfa og villu hans. Sá madur hét Marteinn Lúther, hann er fæddur í þorpi einu á Saxlandi er Eisleben heitir, 10. dag Nóv. 1483. Fadir hans var námumadur, rádvandur en fétitill. Í uppvexti átti Lúther vid ýmislegt andstreymi ad strída; þvínæst vard hann Agústínusar múnkur, og sídan kénnari í gudfrædi vid háskólann á Wittenbergi, er þá var nýsettur á stofn. Um þessar mundir fór múnkur einn um Saxland, sá hét Tezel, og seldi mönnum, fyrir mikid fé, aflátsbréf páfa, á bréfum þeim stód, ad hvör sem keypti skyldi fá kvittun af öllum sínum syndum. Leó páfi hinu 10di, hafdi þá Péturs kyrkju í Rómaborg í smídum, og þurfti ærnu fé til ad kosta, komu því afláts peníngar þessir í gódar þarfir. Lúther sá ad slík verzlun spillti mjög gódum sidum, og tók því ad mótmæla henni, á Wittenbergi 1517. En hérmed var ekki búid. Lúther rannsakadi enn betur kenn-

ingar páfa, og fann ad þær skeikudu helzt til mikid frá heilagri ritníngu og skynsemi manna, og hóf nú opinberlega mótmæli sín gégn þeim. Þetta þókti páfa en mestu býsn, og reiddist Lúther meir enn frá meigi segja, og lýsti banni yfir hönum. En Lúther kunni ekki ad hrædast, og lét sér ekki bilt vid verda. Lét hann brenna Páfa bullu fyrir allra augum á Wittenbergi, og eptir þad var ekki ad hugsa til ad sættir kæmust á. Þá rédi fyrir Saxlandi kjörfursti Fridrik hinn vitri, átti Lúther þar jafnan trausts ad leita sem hann var. Maximilían var þá keisari yfir Þýdskalandi, og var Lúther ad mestu sjálfrádur fyrir honum; en sem hann var andadur, og Karl 5ti sonarson hans hafdi tekid ríki, stefndi hann mönnum til þíngs í Vorms, skyldi Lúther þar verja sig og kenníngu sína. Þá urdu margir til ad ráda Lúther frá ad fara þángad, og sögdu honum hvörnig Jóhanni Hús hefdi reidt af. En Lúther kvadst fara mundi, þó þar væri jafnmargir djöflar sem þaksteinar á húsum uppi. Fór hann eingu ad sídur til Vorms, treystandi Gudi og gódu málefni; þar lýsti hann því yfir, ad hann gæti ekki breytt í neinu meiníngu sinni, nema því ad eins ad sér væri sýnt og sannad af ritníngunni, ad hann hefdi misskilid hana og villst. Þad gátu menn ekki. Lúther breytti því ekki heldur, er hann hafdi sagt, og var hann þá gjördur útlægur um allt land. Á heimleidinni frá Vorms, lét Fridrik kjörfursti menn sína í dularklædum, taka Lúther höndum og flytja til Vartborgar kastala, og var hann þar um hríd á laun vid

óvini sína. Þar snéri hann biblíunni á þýdska túngu. Ádur var hún einúngis til á Hebresku, Grísku og Látínu máli, gátu því ekki adrir enn klerkar og lærdir menn lesid hana, en leikmönnum öllum var fyrirmunad ad rannsaka hvört páfar fylgdu henni edur eigi. Þad er mælt ad medan Lúther sat í Vartborg, kæmi djöfullinn til hans, og vildi glepja fyrir honum í störfum hans, en Lúther greip blekbittu sína og kastadi eptir honum. Hefir frásaga þessi orsakast annadhvört af hugmynda abli Lúthers, edur af glettum annara manna. Þegar hann var kominn aptur frá Vartborg, hélt hann áfram kenníngu sinni móti Páfa; féllust margir á hana, og breiddist hún út um mörg lönd. Filippus Melankton hét einn háskóla kennari á Wittenbergi, hann var manna lærdastur, stilltur vel, og vinur Lúthers, og var honum til ennar mestu adstodar. Melankton setti saman bók þá, er kölluð er: Augsborgar trúarjátníng, fyrir þá sök, ad Lútherskir menn handseldu hana Kárli keisara enum 5ta á allsherjarþíngi í Augsborg (1530); en keisari tók hana ekki gilda. Litlu ádur hafdi hann gjört þá skipun á þingi í Speier, ad Lútherskir mættu ekki halda áfram sidabreytíngunni. En þeir mótmæltu („próteſterudu") þeirri skipun. Eru þeir sídan kalladir Protestantar (mótmælendur). Tók nú mjög ad vara sundurþykki med Próteſtöntum og Páfiskum edur Katólskum, gjördist þaraf selnna full-kominn fjandskapur og strid, sem kunnugt er ordid. Lifdi Lúther ekki til enda þess. Hann dó 1546 í Eisleben, er hann hafdi þángad farid til ad sefa óeyrdir

med enum mansfeldsku höfdíngjum. Lúther er ad miklu leiti ad þakka ad vísindi og kunnátta breiddist út medal manna, en því verdur eigi neitad, ad keppni hans og ofmikill ákafi, leiddu hann stundum, leingra enn hófi gegndi. Hann átti þrætu vid Erasmus lærda, frá Rotterdammi, um frjálsrædi manna til gódra verka, neitadi Lúther því. Nokkru eptir andlát Lúthers, hófst hid svonefnda Smalkaldar stríd, milli Karls keisara og enna prótestantisku höfdíngja, er samband höfdu gjört sín á milli, í Smalkalden. Voru þeir Jóhann Fridrik Kjörfursti af Saxlandi, og Filippus Landgreifi af Hessen oddvitar þeirra. Keisari fékk Mórits hertoga af Saxlandi í lid-med sér, og vann sigur á Kjörfurstanum í orrustunni hjá Mühlberg, og tók hann höndum. Póktist keisari nú géta leikid vid prótestanta eptir vild sinni, en honum brást þad. Mórits hafdi feingid kjörfurstatigning eptir Jóhann Fridrik, og fylgdi keisara ad eins, medan hann sá ad sér var nokkur hagur í; en sem hann sá, ad keisari vildi bæla undir sig alla Prótestanta, og ekki láta lausan teingdafödur sinn Filippus Landgreifa, tók hann þad rád, ad fara leynilega ad keisara, og gjördi samband vid Hinrik 2ann Frakka konúng. Átti keisarinn þess einga von, og kom Mórits ad honum óvidbúnum, og vard hann ad flýa undan og semja frid, og leifa Lúthersku mönnum fullkomid trúarbrágda frelsi á Pýdskalandi. Er þad ad víſu all merkilegt, þegar menn adgæta veldi keisarans, sem nádi yfir allt Pýdskaland, Spán og fleiri lönd. Karl keisari hafdi ádur átt í

stridum vid Frans 1ta Frakka konúng. Áttu þeir eina orrustu hjá Páviaborg, þar var Frans konúngur höndum tekinn, og hafdur í straungu vardhaldi í Madríd, og fékk ekki lausn fyrr enn keisarinn rédi einn öllum fridarkostum. Þá sætt rauf Frans litlu sídar, og áttu þeir þrisvar í ófridi eptir þad, og höfdu ýmsir betur. Karl átti og í ófridi vid Sólíman 2ann, er í þad mund rédi fyrir Tyrkjaveldi; hann hafdi geingid í félag vid Frakka, og freistad ad ná Ungaralandi úr höndum Ferdínands, keisara bródurs. Tyrkir héldu her sínum allt ad Vínarborg, og settust um hana, en urdu frá ad hverfa vid svobúid. Þá herjudu og tyrkneskir víkíngar um Midjardarhafs strendur, hét foríngi þeirra Raudskeggur (Cair Udin Barbarossa), hann lagdi lönd undir sig á nordurströndum Afríku. Fór Karl keisari þess vegna tvær herferdir sudur þángad, og vard vel framgengt hid fyrra sinnid, en í seinni förinni vard hann fyrir miklum óhöppum. Loks eyrdi keisarinn ekki leingur vid stjórning, og fékk Ferdínandi bródur sínum til umrádа Þýdskaland og Austurríki, en Filippusi 2rum, syni sínum, Spán og Nidurlönd. Sjálfur gekk hann í klaustur eitt, í Placencíu dal á Spáni, og stundadi ýmisleg frædi. Mælt er ad hann hafi haft fyrir sér mörg sigurverk, og reynt ad láta þau öll gánga jafn hradt. En þess var einginn kostur. Þá mælti keisarinn: eg gét ekki látid sigurverk þessi verda samferda, því þarf ekki ad undra, þótt eg gæti eigi feingid alla þá menn, er eg rédi yfir, til ad verda samhuga. Hann lét

gjøra útför sína meðan hann var á lífi, kistuleggja sig og brúka alla viðhøfn sem við andaða høfðingja. Segja menn það feingi svo mikið á hann, að hann andaðist litlu síðar, (1558).

Í sama mund sem Lúther hóf síðabótina á Norður-Þýðskalandi, var sá maður uppi í Sveiss, er Ulrik Zwínglí hét, hann var prestur í borg þeirri er Zürich heitir. Þar komu erindsrekar páfa, og seldu aflátsbréf. Tók þá Zwíngli að rannsaka kenníngu páfa, og tala á móti henni. Gjørðust sum fylkin til að fylgja honum, en sum héldu fornum sið. Af þessu vaktist ófriður þar í landi, og féll Zwínglí í þeim óeyrðum. Kenníngu hans var síðan nokkuð breytt af Jóhanni Kalvín, presti í Genefuborg. Þeir sem fylgdu hans kenníngu, eru kallaðir Kalvínistar eður Reformeraðir, og víkja þeir í ýmsum greinum frá Lútherskum.

Meðan þessir menn, sem nú var getið, skutu Páfanum skélk í bríngu, og eyddu ríki hans, hófst Múnkafélag eitt, er af øllum mætti efldi pápiskuna. Félagsbræður þessir kølluðust Krist-múnkar (Jesuiter). Hét høfundur þeirra Ignatius Loyóla, spánverskur að kyni. Hann hafði eittsinn orðið sár í orrustu, en meðan hann lág í sárum, bárust honum í hendur, søgur ýmsra píslarvotta og helgra manna, kémur honum þá til hugar, að komast sjálfur í tølu þeirra. Fékk síðan leyfi af páfa, að hefja nýtt múnkafélag. Hétu félagsbræður þessir, sem aðrir múnkar, páfanum, fátækt, skýrlífi og støðugri hlýðni í øllum greinum.

Þykja þeir hafa efnt vel hid sídast talda. Flokkur þeirra jókst med degi hvörjum, og urdu þeir hinir rádríkustu. Létu þeir sér einkum annt um, ad frædu úngmenni, boda heidíngjum kristna trú, og taka skriptir af höfdíngjum. Þegar fram lidu stundir vildu þeir allstadar hafa hönd í med, og grunudu menn þá um samsæri móti ýmsum höfdíngjum, voru þeir vída reknir af laudi burt, og 1773 aftók Klemens páfi, hinn 14di, Múnkafélag þetta med öllu. Seinna hefir þó Píus páfi enn 7di komid henni á aptur.

## Frá því er sambandi þad raufst er gjört var í Kalmar.

Eptir dauda Margrétar Dánadrottníngar, tóku Svíar einkum ad una illa sambandi því er hún hafdi gjört í Kalmar, og fyrr er getid. Í Danmörku var nýr ættleggur kominn til ríkis med Kristjáni enum 1ta, frá Aldinborg (1448). Vildu Danir þá einir öllu ráda, og þókti Svíar einkum verda útundan. Kostudu þeir þá endur og sinnum af sér okinu, og tóku landstjóra yfir sig af þjód sinni. Medal þeirra eru þessir helztir: Karl Knútsson, Steinn Stúri enn eldri, Svanti Stúri, og Steinn Stúri enn ýngri. Ad sönnu vann Hans, Dana konúngur, sonur Kristjáns 1ta, sigur á Steini Stúra enum eldra, en ekki var ad hugsa til ad fullkominn fridur og samband feingist. Eptir Hans konúng kom til ríkis Kristján konúngur annar, sonur hans. Fór hann med her manns á hendur Svíum, og átti orrustu vid Stein Stúra enn

hýngra. Fékk konúngur sigur en Steinn féll. Lagdi konúngur þá undir sig Svíþjód alla og Stokkhólm, höfudborg í því landi. Lét hann þá stefna til þíngs í Stokkhólmi, lendum mönnum og klerkum (1520). Á þeim fundi lét hann drepa, án dóms og laga, mestan hluta lendra manna, og hélt ad Svíar mundi ekki þora ad ófpekjast eptir þad. En honum vard ekki ad því. Svíar gripu til vopna, og brutu af sér ok Dana. Sá hét Gustaf Vasa, er fyrir þeim var. Hafdi Kristján konúngur ádur hast hann í straungu vardhaldi, og helzt til ránglega, því Gustaf var settur honum í gislíngu. En er hann sá sér færi, hljóp hann burt úr fángelsinu, og nordur til Dala, þad er í Svíþjód, þar bjuggu þeir menn er Dalakarlar eru nefndir, þeir voru manna hraustastir, gjördist Gustaf foríngi þeirra, og ráku þeir Dani úr landi. Tóku Svíar Gustaf fyrst til Landstjóra yfir sig og sídan til konúngs. Hann kom Svíþjód fyrstur konúnga í álit, lögleiddi Lúthers trú, og þad ad ríkid geingi í erfdir til sinna ættmanna.

Kristjáni ödrum var nú farid ad gánga flest á móti; lenda menn og edli borna ofsókti hann hvervetna, og sást lítt fyrir, vard hann af því mjög óvinsæll af höfdíngjum öllum. Þad mislíkadi mönnum og, ad kona sú er Sigbrit hét, módir Dyveku konúngs frillu, rédi mestu vid hann. Lendir menn á Jótlandi sögdu konúngi upp allri hollustu, og vard hann ad flýa til Hollands. Tóku þá Danir til konúngs yfir sig, födurbródur hans, Fridrik hinn 1ta. Reyndi nú Krist-

ján ad brjótast aptur til ríkis, enda var og alþýdan honum medmælt, en sem hann var kominn til Kaupmannahafnar, og vildi semja vid Fridrik, var hann tekinn höndum og settur í dýblýsu í Suđurborg á Als-ey, og haldinn hardt. Leitudust Lýbiku menn og alþýda Dana vid, ad leysa hann úr fángelsi, og koma honum til ríkis eptir daga Fridriks konúngs, en þad tókst ekki. Ofrid þann er þaraf reis milli Kristjáns enns 3ja, Fridrikssonar enns 1ta, og Lýbikumanna og bandamanna þeirra, hafa menn kallad: greifa stridid, fyrir þá sök, ad greifi nokkur frá Aldinborg var fyrir lidi Lýbikumanna. Svo lauk ófridi þessum, ad Kristján 3ji fékk sigur, rýmkadi þá nokkud vardhald á Kristjáni ödrum, og var hann fluttur til Kallúndborgar á Sjálandi. Medan Kristján annar sat ad völdum, kom Lúthers trú til Danmerkur, og féllust margir á hana, en á dögum Kristjáns 3ja var sidabótin lögtekin yfir alla Danmörku, á allsherjarþíngi í Kaupmannahöfn (1536) og vard ekki ófridur af nè mannavíg.

## Trúarbragda deilur á Frakklandi, er lykta med því ad Hinrik 4di hefst þar til ríkis.

Mjög tóku menn misjafnlega undir sidabót Lúthers, vard henni í sumum löndum alls ekki framgeingt, og var þoggud nidur med öllu, aptur í sumum löndum sættu þeir, er hinn nýa sid tóku, grimmum ofsóknum og lífstjóni. Svo var þad á Frakklandi. Á dögum þeirra

brædra, Frans 2ars, Karls 9da og Hinriks 3ja, sona Hinriks konúngs enns annars, er hvor ríkti eptir annan, var sem mestur uppgángur hertoganna af Guise, voru þeir einhvør en helzta máttarstod páp= iskra manna þar í landi, og veittu próteståntum, (ed= úr Húgónóttum sem þeir einnig kølluðust þar í landi) þúngar ofsóknir; en hin Bourbonska konúnga ætt styrkti þá. Attu flokkar þessir margar orrustur og grimmar, fjølguðu próteståntar ódum, og sáu pápiskir menn ad sér mundi ekki svobúid duga. Fyrir þá søk fann Katrín kóngamódir (af Medici) þad ráð upp ad svíkja þá (próteståntá) í trygdum. Var þá fridur sam= inn med þeim (pápiskum og Húgónóttum). Lagdi Karl konúngur hinn 9di þad ráð, ad Hinrik af Bour= bon, er þá var konúngur í Navarra, og ædstur høfd= íngi Húgónótta, skyldi fá Margrétar af Valois (Va= loa), systur sinnar. Voru þá allir helztu menn Pró= testanta bodadir til Parísar á konúngs fund. Kas= par Coligný, herskipa fóríngi, hinn ágætasti madur og vitrasti, var þá fyrirlidi þeirra. Veittu þau Katrín og Karl konúngur son hennar, honum enar beztu vid= tøkur. En í laumi, og án þess Húgónótta grunadi nokkud, baud konúngur ad drepa hvørt mannsbarn af þeim sem í Parísarborg finndist. Nóttina eptir Bartólómeus= messu, edur adfaranótt enns 25. Agústi 1572, hófst í Parísarborg eitt hid ógurlegasta manndráp, er nokkru sinni hefir ordid, (er þad kallad Parísar blódveitsla). Coligny var sá fyrsti er drepinn var, køstudu mordvarg= arnir líki hans útá strœti, og léku þad. mjøg sviviðu=

lega. Sagt er ad konúngur hafi skotid útum hallarglugga á þegna sína, þá er hinn nýa sid höfdu tekid, og eggjad pápiska menn ad drepa þá, hvar helzt sem þeir hittust á Frakklandi. Töldust þá sumir undan þeirri skipun, og kváðust ekki vera bödlar. Í þrjá daga stódu manndráp þessi á Frakklandi, segja sumir ad 70 þúsundir Próteslanta hafi fallid, en adrir segja frekar ad 100 þúsundir. Þó tókst mönnum ekki ad eyda þeim flokki med öllu. Skömmu seinna dó Karl 9di, öllum dauda, af hugarvíli. Var þá Hinrik bródir hans til konúngs tekinn, er ádur var konúngur á Pólínalandi, og strauk þadan sudurá Frakkland er hann frétti lát bródur síns. Þegar hann var settstur ad völdum, gjördust hertogarnir af Guisa, og félagid helga (den hellige Ligue; er stofnad var til ad útrýma Próteslöntum, en veruda Pápiska menn) svo voldugt og yfirgángs mikid, ad konúngur vard ad leita trausts hjá Hinriki konúngi af Navarra, þótt hann væri oddviti Próteslanta. Héldu þeir uafnar þá miklu lidi til Parísar, og settust um borgina, því hún hélt med Guisum, en medan því fór fram, var Hinrik Frakkakonúngur veginn af manni þeim er Jakob Klement hét, og var einn af múnkaflokki Dominicusar (1589). Hinrik af Navarra stód nú næstur til ríkis á Frakklandi. En þó hann væri hinn ágætasti höfdíngi um flesta hluti, þóktist hann sjá, ad sér mundi ekki rótt verda í völdum; ef hann héldi vid trú Húgónótta. Því rédi hann þad af ad taka vid Páfa trú, en gaf þó út trúarbragda skrá þá í Nantesborg (det nant-

iſke Edict), er het Húgónóttnm fulln frelſi í öllum trúarbragda efnum. Komſt ſvo fridur á. Hinrik hinn 4di var ſannnefndur fadir og vinur þegna ſinna, og kom gódri ſkipun á í ríki ſinu, hafdi hann ſér til adſtodar vin ſinn og rádgjafa, hertogan af Súllý. En þó Hinrik konúngur væri áſtſæll af þjód ſinni, gat hann þó ekki umflúid ſomu afdrif ſem fyrirrennari hans (Hinrik 3i) hafdi fengid. Hann var veginn (1610), á ſtrætum úti í Paríſarborg, af manni þeim er Frans Ravaillac hét, ſegja menn ad kriſtmúnkar hafi keypt hann til þeſs, er þeir höfdu konúng grunadan um, ad hann væri ekki einlægur í Páfatrúnni.

## Frá ſídaſkiptum á Englandi á dogum Hinriks 8da, Játvardar 6ta, Maríu og Elíſabetar.

Á dögum Lúthers rédi ſá konúngur fyrir Englandi er Hinrik hét, hinn 8di med því nafni, hann var grimmur madur, kvennhollur og reikull í rádi. Í fyrſtu ritadi hann móti kenníngu Lúthers, gaf þá páfi honum vidurnefni, og kalladi: verndarmann trúarinnar; héldu Englakonúngar því nafni um ſtund. En ſídan óvíngadiſt med þeim Hinriki konúngi og páfa. Hinrik var kvæntur og átti Katrínu, ekkju bródur ſíns, hún var af ættum Spánar konúnga. Nú lagdi hann áſtarhug á Önnu Bólein, eina af hirdmeyum drottníngar ſinnar, og þykiſt ekki lengur mega vera ſaman vid drottníngu fyrir teingda ſakir, leitar páfa, og bidur hann ſkilja þau. En páfi færdiſt undan, fyrir

því hann vildi ekki styggja Karl keisara enn 5ta frænda Katrínar drottningar. Því næst bar konúngur þetta mál undir ýmsa háskóla í Norðurálfu, og sem þeir höfðu lagt álit sitt á málið, sagði hann skilið við drottníngu, og gekk að eiga Önnu Bolein. En páfanum reiddist hann ákaflega, og sagðist úr öllum félagskap við hann, og lýsir því yfir að hann sjálfur hafi öll klerka og kennimanna forráð í ríki sínu. Samdi hann þá sex trúarbragða greinir, er allir skyldu fylgja, eður að öðrum kosti sæta reiði sinni og refsíngum. Hinrik konúngur kvæntist sex sinnum; tvær af konum sínum grunaði hann um ástir við aðra menn, og lét drepa; tvær rak hann frá sér, og tvær héldu drottníngar tign til dauða dags.

Eptir andlát Hinriks konúngs (1547), tók Játvarður 6ti, son hans ríki á Englandi, hann var þá úngur að aldri; varð siðabótinni vel framgeingt á hans dögum, og var einkum að þakka enum þjóðkunna erkibiskupi, Tómasi Kranmer frá Kantaraborg. Enn Játvarður andaðist eptir 6 ára ríkisstjórn, og varð það Prótestöntum til mikils skaða. Því María systir hans, er þá kom til ríkis, hélt fast við hinn forna sið, og ofsókti siðabóta menn, lét hún aflífa marga þeirra og þará meðal Kranmer biskup, var honum hrundið á bál og breudur sem trúvillumaður, og varð hann karlmannlega við dauða sínum. María giftist Filippusi öðrum Spánar konúngi, og var jafnt á komið með þeim í mörgu. Honum var að kenna að Enskir menn lendtu í ófriði við Frakka, og þá misti María drottníng Kalesborg. Gekk henni það svo nærri, að hún kvað hafa

sagt: ad ef skodad væri í sér hjartad, mundu menn géta lesid þar á ordid: Kalais (Kale). María andadist 1558, og vard mönnum ekki harmdaud. Þá kom til ríkis Elísabet hálfsystir hennar, hún var alin upp vid hinn nýa sid, og fyrir því hafdi María haft hana í vardhaldi. Nú sem hún var komin til valda, stýrdi hún bædi viturlega og skörulega. Hún lögtók Lúthers trú í ríki sínu, en lét erkibiskupa og biskupa sitja í völdum eins og ádur hafdi verid, og hafa trúarbrögd Englismanna nafn af því, og eru köllud: biskupa trú. Um þær mundir var María Stúart drottning yfir Skotlandi; hún hafdi alist upp á Frakklandi, og verid gift Fransl kongi ödrum, en ad honum ondudum, fór hún aptur til Skotlands og tók þar vid ríkisstjórn. Skottar höfdu ùtekid vid sidabót Lúthers, en María fylgdi pápiskum sid, og gédjadist landsmönnum ekki ad því. Litlu sídar giptist hún úngum manni og edlibornum, Hinriki Darnley; hann var hinn mesti stórbokki í skapi og urdu samfarir þeirra ekki gódar, og einn dag braust Darnley inní herbergi drottníngar, og drap fyrir augum hennar Rizzíó saungmann, hinn ítalska, er honum þókti vera í nógu miklum kærleikum vid hana. Hætti þá ad mestu samvistum þeirra Hinriks og Maríu eptir þad. Þó bar þad vid ad hún kom á hans fund, og einhvörju sinni er hún var ný geingin frá honum, vard brestur mikill, hljóp þá hús þad í lopt upp er Hinrik var í, og fannst hann daudur skammt frá. Féll strax grunur á Bóthwell greifa, og mikinn vin Maríu, og sumir gátu til ad hún mundi vera í vitordi

með honum, enda var þá María svo óforsjál að hún giftist honum skömmu síðar. Gjörðu þá Skottar uppreist móti henni, og varð hún að flýa til Englands, og og leita trausts hjá Elísabetu. En bæði var það, að Elísabet sá ofsjónum yfir fegurð hennar, enda hélt hún og, að María kynni að steipa sér úr völdum, og lét því taka hana höndum, og setja í varðhald. Var henni skipað að hrynda af sér ámæli því, er hún hafði af dauða Hinriks Darnleys. En það vildi hún ekki gjöra. Nokkrum sinnum voru samsæri gjörð til að leysa hana úr fángelsi, en jafnan fór svo að bert varð um slíkar ráðagjörðir. Loksins var henni eignað að hafa tekið þátt í samsæri móti Elísabetu, var hún þá dæmd til dauða, og hálshöggvin, og hafði setið 19 ár í varðhaldi. Bæði vegna þess sem nú var frá sagt, og líka vegna hins að Elísabet hafði styrkt Niðurlendínga móti Filippusi öðrum á Spáni, lendti hún í stríði við hann. Gjörði þá Filippus konúngur út skipaher mikinn á hendur Elísabetu, kölluðu Spánverjar þann flota: ósigrandi, en leiðángur sá fór allt á aðra leið, enn til var ætlað. Lestust sum skipin í stormi, og týndust, en sum voru eydd og hroðin af enskum mönnum, og komst vart helfíngurinn og þó nauðulega undan til Spánar. Einn af ennum ensku sjóhetjum, er mestan hlut átti í, að sigra skipaflota Spánverja, hét Frans Drake; hann hefir og siglt umhverfis jarðarhnött vorn. Meðan Elísabet ríkti, gjörðu Irar uppreisn, sendi drottníng þá vin sinn, greifann af Essex þángað til að sefa hann, en hann leysti það erindi svo af hendi, að

drottníngu líkadi midur, og lagdi fæd á hann. Leitadist greifinn vid ad hefna sín á drottníngu, og æsti lidinn móti henni. Var hann því dæmdur til dauda og tekinn af lífi, og unni drottníng honum þó manna mest. Er sagt hún hafi eittsinn gefid honum gullhríng einn, og mælt svo fyrir, ad hann skyldi senda sér hrínginn ef hann þækti ist í háska staddur. Hann sendi hann og, en hríngurinn komst í hendur greifakonu einnr er hatadi Essex, og sendi hún hann ekki frá sér til drottníngar. Þegar sú kona var ad dauda komin, sagdi hún drottníngu upp alla söguna, og bad hana fyrirgéfa sér. Elísabet svaradi: Gud fyrigéfi ydur, en eg gét þad ekki. Litlu sídar andadist Elísabet drottníng (1603). Hún unni mjög íþróttum og vísindum. Var þá uppi Vilhjálmur Shakspeare (Sjekspír) þjódskáldid mikla, er marga trúdleiki (skodunarspil) hefir orkt, og undrast allir, sem til þekkja, prýdi þeirra. Á dögum Elísabetar nam Valtari Raleigh land þad í Nordur Ameríku er hann nefndi Virginíu (Meyland) til heidurs vid meykóng sinn. Tóku þá ad vaxa sem mest siglíngar og verzlun Englismanna.

## Frá uppreist Nidurlendínga gegn Spánverjum.

Alt fram ad dögum Karls 5ta, Þýdskalands keisara, höfdu Nidurlendíngar (svo nefnist þjód sú er býr med sjó fram vestan á Þýdskalandi, og nordur af Frakklandi) verid frjáls þjód, greind í mörg fylki og smá. Stód þá hagur þeirra blómlega, voru þeir starfs-

menn miklir og höfðu mikla verzlun bæði innanlands og utan. Þegar Karl keisari var orðinn einvaldur þeirra, var hann þeim mildur og eptirlátur, þó fundu þeir að eitthvað kreppti að frelsi þeirra, en af virðíngu við keisarann, briddu þeir ekki á óeyrðum meðan hann var uppi. Þángað hafði og siðabótin komið, og hafði meiri hluti landsmanna fallist á hana. Þegar Filippus 2ar (sonur Karls keisara) var orðinn konúngur þeirra, reyndi hann til að brjóta undir sig frelsi þeirra, bæði í andlegum og líkamlegum efnum, skipaði hjá þeim nýa biskupsstóla, og skerpti rannsóknar réttinn. Og nú sem mest óánægja í landinu, og rúm 300 manna eðliborinir, sendu Margrétu frá Parma, hálfsystur Filippusar, er þá hafði landstjórn á hendi á Niðurlöndum, bænarskrá, og beiddust að breytt yrði aptur skipun þeirri er Filippus konúngur hafði gjört. En þessari beiðni þeirra var neitað, voru þeir kallaðir Ölmusumenn (Geusen), og það gjört til spotts við þá, en síðan tóku þeir sér það nafn sjálfir, til að einkénna með flokk sinn. Oddvitar flokks þessa, voru Vilhjálmur kóngsson frá Oraniu, og greifar tveir, Egmont og Horn. Til að sefa uppreistina sendi Filippus konúngur, hertogann af Alba, herhöfðíngja sinn, kappa mikinn, en grimman mann og slægvitran. En sem hann var þángað kominn, skipar hann mönnum í dóm, var sá nefndur Blóðdómur. Fyrir þann dóm stefndi hann mörgum landsmönnum, og þar ámeðal þeim þremur, er áður voru nefndir. Vilhjálmur flýði, en þeir Egmont og Horn vildu ekki fara að hans ráðum; voru þeir

handteknir og drepnir. Leitadi Alba allra bragda til ad þraungva landsfólkinu til hlýdni, en þad kom fyrir ekki, og var hann loks kalladur heim til Spánar. Sídan sendi Filippus adra hershöfdíngja í hans stad, og fór á sömu leid. Gjördist nú Vilhjálmur foríngi nokkurra fylkja, og sórust þau öll í félag í Utrekt (1579), og hétu hvört ödru ad verja frelsi sitt fyrir Spánar konúngi. Veitti Nidurlendíngum all erfidt móti Spánverjum, og þarf ekki þad ad undra vid slíkt ofurefli sem eiga var, einkum eptir ad Alexander Farnese, sonur Margrétar af Parma, hafdi tekid vid herstjórn spánskra. Hann var einhvörr hinn mesti hershöfdíngi á þeim tímum. Hann vann margar borgir af Nidurlendíngum, og loksins hina audugu Antverpens borg, eptir frægustu vörn. Svo létu og Spánverjar myrda Vilhjálm af Oraníu, og mundu nú Nidurlendíngar hafa ordid ofurlidi bornir, nema England hefdi veitt þeim lid, og Moriz Vilhjálmsson frá Oraníu hefdi verid födur sínum líkur ad hreysti og dugnadi. Á verzlun sinni í Austur-Indíum græddu Nidurlendíngar aud fjár, og kom þad nú í gódar þarfir. Spánverjar höfdu leingi reynt ad dylja þá leidarinnar þángad, en Kórnelíus Hútmann fann hana, urdu þá Portúgalsmenn, þeir er þar voru fyrir vída undan ad hrökkva. En fyrir þá sok áttust þeir illt vid, Portúgalsmenn og Nidurlendíngar, ad Portúgal var þá komid undir Spánverja. Þá lögdu og Nidurlendíngar undir sig Mólúkka eyar*), þær voru aud-

*) Sjá Landaskip: frædi, 3 Part. bls. 161.

ugar mjøg, og fluttu þeir þadan, þvínær til allra Nordurálfu-byggja ýmsa sælgjætis vøru, og tóku mikid fé í móti.

Þar kom ad Spánverjum leiddist ófridur þessi, er þeir gátu eigi sigrast á Nidurlendíngum, og sømdu vid þá vopnahlé þad er standa skyldi 12 ár. Ad sønnu hófst ófridur ad nýu, en 1648 þá er hinn Vestfalski fridur var saminn, kønnudust allir stjórnendur Nordurálfunnar vid þjódfrelsi Nidurlendínga. Voru fríveldi þessi 7 saman og hétu: Holland, Gelderland (Geldern), Sæland (Zeeland), Frísland, Efri-Ysel (Over-Yssel), Utrekt og Græníngjaland (Grønningen). Voru þau um lánga æfi, hin audugustu og áttu mikla verzlun. Verid hafa þar lærdir menn uppi, t. a. m. Erasmus frá Rotterdammi, er margt hefir ritad, og þar á medal sumt um múnkana sem mjøg er kímilegt, urdu þeir mjøg undir í þeim vidskiptum. Ennfremur má telja Húgo Grotius; hann sætti enum mestu ofsóknum, fyrir þá søk ad hann fylgdi trúarbragda flokki Armíníusar. En sá flokkadráttur reis milli tveggja kennimanna: Armíníusar og Gomarrusar. Fylgdi Moriz Landstjóri enum sídarnefnda, en Olden-Barneveld rádherra foríngi, og Húgo Grótíus enum fyrra. Olden-Barneveld var tekinn af lífi, en Grótíus settur í myrkvastofu. Komst hann þadan med rádum konu sinnar. Hún var vøn ad senda honum kistu eina med bókum, og í þeirri kistu var hann eittsinn borinn burt úr dyblissunni.

## Frá Kristjáni 4da Danakonúngi.

Kristján 4di var sonur Fridriks 2ars, Kristjáns sonar ens þridja. Fridrik konúngur 2ar hafdi unnid undir sig Péttmerski, hád orrustur vid Svía, og þókt nýtur konúngur. Hann andadist 1588, var Kristján þá ellefu vetra. Voru 4 menn settir til ríkisgætslu med honum, er svo hétu: Niels Kaas Kanselleri, Pétur Múnk herskipaforíngi, Kristófer Valkendorf þjódfjárhirdir og Jorgen Rósenkrans hofudsmadur á Jótlandi. Medan þessir menn sátu ad voldum, fór hinn vídfrægi stjornuspekíngur Tycho Brahe burt af Danmorku, sokum haturs þess er Valkendorf lagdi á hann, til Rúdólfs keisara ens annars í Prag, og var þar til daudadags. Brahe hafdi verid í miklum kærleikum vid Fridrik konúng annan, og gaf konúngur honum Hveney í Eyrarsundi. Þar lét Brahe reisa stjornuhús mikid, er hann kalladi Uraníuborg, og gjordi þar himin-athuganir sínar, sem frægar eru ordnar.

Þegar á únga aldri bar á laungun Kristjáns til sjóferda, og var svo jafnan medan hann lifdi. Fór hann eittsinn sjóleid nordur fyrir Noreg, og var þá stýrimadur (Kaptein). Var sú ferd gjor til ad forvitnast um landamærí, því um þær mundir var ágreiníngur nokkur um þad, med Svíum og Donum. Af þeim ágreiníngi reis sídan ófridur, þá er Karl enn 9di, Svía konúngur, nefndi sig konúng Lapplendínga, og krafdist skatta af Finnum, er bjúggu nordan á Noregi. Þegar Kristjáni 4da kom sú fregn, hélt hann lidi sínu til Svíþjódar og tók Kalmar; reiddist

Karl konúngur þá svo mjøg, ad hann ritadi Kristjáni bréf, og skoradi hann til hólmgaungu vid sig, en Kristján gjørdi gaman af. Karl konúngur andadist medan á stridinu stód. Kom þá til rikis sonur hans Gustaf Adolf, hinn frægasti konúngur. Stód enn ófridur nokkra stund, til þess er fridur var saminn í Knérød (1613), guldu Svíar Dønum þúsund þúsundir rikisdala í hernadar kostnad. Medan á þessum ófridi stód keyptu Svíar til þess skotska menn, ad herja á Noreg, því þar var þá ekki lid fyrir til landvarnar. Sá hét Sinklar er fyrir Skotum var. Þá gripu bændur í Gudbrandsdølum til vopna, fóru ad Skotum, og drápu svo nálega hvørt mannsbarn, ad ekki stódu uppi nema tveir.

Nokkru sídar fór Kristján konúngur til lids vid Próteſtanta sudrá Þýdskalandi, og átti orrustu vid Tilly hershøfdíngja keisarans, þar sem heitir Luther am Barenberg (1626). Þar beid Kristján konúngur ósigur, og vard ad semja frid í Lýbiku vid keisarann, og lofa ad styrkja aldrei framar Próteſtanta á Þýdskalandi. En þá vard Gustaf Adolf til ad lidsinna þeim, og eptir fall hans, héldu hershøfdíngjar hans áfram hernadi á Þýdskalandi. Einn þeirra hét Ljónhardur Þorsteinsson (Leonhard Thorstenson), hann brauzt af Þýdskalandi nordur á Danmørk, svo Danir áttu ser einkis ills von, og ód yfir ýms hérød. Vard þar litid um vørn af hendi Dana, og løgdu Svíar undir sig Holsetaland allt og Jótland. En Kristján konúngur bjóst ad verja þeim Beltissund yfrá eyarnar, gjørdist hann

nú sjálfur foríngi fyrir skipalidi sínu, þótt hann væri þá hníginn mjøg á efra aldur. Hann mætti herskipum Svía undir ey þeirri, er Femern (fyrrum: Ymbría) heitir, og tókst þar en hardasta orrusta. Konúngur fékk høgg svo mikid af spítubroti, ad hann misti hid hægra auga, og úr honum hrukku tvær tennur, féll hann vid, en spratt upp þegar, og bardist djarflega. Þar feingu Danir sigur, en Svíar héldu skipum sínum inná Kílarfjørd, og setti konúngur Galten herskipaforíngja sinn til ad hafa gætur á þeim. Þó komust Svíar út hjá honum, og sigldu til móts vid skipaflota Hollendínga. En konúngur reiddist Galten svo mjøg, ad hann lét taka hann og drepa. Sídan unnu Svíar og Hollendíngar í félagsskap sigur á Dønum í sjóorrustu, og med því lendir menn voru sérdrægir, og brugdust konúngi þegar mest þurfti á ad halda, neyddist hann til ad semja frid vid Svía, í Brømsebrú 1645, og láta af hendi vid þá: Herjadal, Jamtaland, Gótland og Ey-sýslu (Øsel) og Halland í 30 ár. Þrem vetrum sídar andadist Kristján konúngur. Hefir hann verid einn hinn þrekuesti og starfsamasti af Danakonúngum, og sjást vída menjar þess. Hann hefir reist margar borgir og ágætar byggíngar, t. a. m. Kristjaníu og Kristjánssand í Noregi, Kristjánsstad í Skáney, Kristjánshøfn á Amakri (hjá Kaupmannahøfn), og Lukkustad (Glückstadt) á Holsetalandi. Rósaborgar høll, Børsen (samkomuhús kaupmanna), Sivalaturn (til handa stjørnufrædíngum), og Hólmis kyrkju í Kaupmannahøfn. Hann jók verzlun Dana, og sendi

Ova Gjeddu med nokkur skip til Austur-India, og keypti hann Trankvebar á Kórómandelströndum, vard þad upphaf ad verzlun Dana, og verzlunarfélagi þeirra í Austurheimi. Kristján konúngur sendi og Jens Múnk stýrimann, til ad leita Grænlands ad nýu, en ísar bægdu honum frá ad komast ad austurbygd landsins, þar sem Íslendingar enir fornu höfdu haft bústadi sína, og vard hann ad sitja um veturinn vestan á landinu, dóu þar flestir af honum, en um vorid komst hann aptur med tveim mönnum til Danmerkur, og þókti þad furdu gegna. Kristján konúngur gekk ad eiga Kristínu Múnk, og lét vígja sér til vinstri handar, þá er drottníng hans var önduð, og átti vid henni mörg börn. Hét eitt þeirra Eleónóra, unni konúngur henni mikid og gipti hana Korfits Ulfeldi, lendum manni. Ulfeldur mikbrúkadi traust þad er konúngur hafdi á honum, og gjördist sídan landráda madur. Ýms eru rök til þess, ad Kristjáni enum 4da vard í mörgu midur ágengt, en vid mætti búast, af slíkum atorku manni sem hann var, má helzt til þess telja þvermódsku og óhlýdni lendra manna, er þá voru næsta voldugir, og gjördu konúngi sínum margt til skapraunar. Um þessar mundir voru þeir uppi: Arild Hvítfeldur, er ritad hefir Danmerkur sögu, Arrebó biskup, skáldafadir Dana, Longómontanus stjörnufrædíngur, og Olafur Ormur (Worm) fornfrædíngur.

## Þrjátýgi ára strídid (1618—1648).

Eptir daga Karls keisara ens 5ta, tók Ferdínand

1ti bródir hans keisara dóm á Þýzkalandi. Hann var mildur høfdíngi og lidhollur Próteſtøntum. Svo var og Maximilian 2ar, ſon hans. En á døgum Rúdólfs 2ars og Mathíasar, ſona Maximilíans, ſættu þeir mørgum afarkoſtum af páfamønnum. Var ſá einn, ad erkibiſkup í Prag á Bæheimalandi, lét ríſa nidur nokkrar kyrkjur Próteſtanta þar í borginni, undu þeir því illa, ſem von var, og brutuſt inn á keiſarans menn þar ſem þeir ſátu á rádſtefnu, tóku þeir þá nokkra af þeim høndum og koſtudu útum hallarglugga nidur í dýkin umhverfis høllina. Hóſſt nú óſtridurinn, er Bæheimsmenn gripu til vopna (1618). Gjørduſt greifar tveir er hétu Thurn og Mansfeld fyrirlidar þeirra. Geingu nú allir trúarbrædur þeirra, á Mæri (Máhren), Auſturríki og Sleſíu, í flokk med þeim. Ari ſídar deydi Mathías keiſari; hóſſt þá til ríkis á Þýzkalandi, Ferdínand keiſari hinn 2ar, af Styrjumørk. Hann var hinn meſti vin páfa, og hafdi faſt í huga ad brjóta undir ſig alla Próteſtanta. Fyrir því vildu Bæheimsmenn ekki kannaſt vid keiſaradóm hans, og tóku til konúngs yfir ſig Fridrik kjørfurſta af Falzi (Pfalz). Hann var giftur Elíſabetu dóttur Jakobs 1ta Englakonúngs. Voru þeir ad litlu bættari, því Fridrik var madur duglítill. Herlid Ferdínands keiſara brauzt inná Bæheimaland, undir herſtjórn Maximilians af Bæaralandi, vann ſigur á lidsmønnum Fridriks hjá Prag (1620) á fjallinu hvíta, og neyddi ſjálfan hann til ad flýa burt af Bæheimi. En þarmed var ekki búid, lønd hans voru tekin af høn-

um og feingin í hendur Maximiliani. Vesnadi nú mjög hagur Próteſtanta á Þýzkalandi. Keiſarinn hafdi hërs-høfdíngja tvo, er í þá tíd þóktu bera lángt af ødrum; þeir hétu Tilly og Vallenſtein. Snéruſt þeir nú vid Próteſtøntum, og þjádu landid hryggilega med yfirgángi ſínum. Var ekki annad fyrir ad ſjá enn eydaſt mundi flokkur Próteſtanta. Leitudu þeir þá lids hjá Kriſtjáni 4da Danakonúngi, því bædi hafdi hann tekid vid Lúthers trú, og líka var hann ſveitarhøfdíngi (Kredsoberſt) á Nedra Saxlandi. Kriſtján konúngur fékk óſigur í orruſtunni hjá Lúther am Barenberg (1626), og vard ad gánga ad hørdum fridarkoſtum, eins og ádur er ſagt. Rédi nú keiſarinn einn øllu á Þýzkalandi, og lét þad bod útgánga, ad Próteſtantar ſkyldu lauſar láta allar eignir er þeir héldu fyrir katólſkum mønnum.

Um þeſsar mundir rédi Guſtaf Adolf, ſon Karls konúngs ens 9da, fyrir Svíþjód. Hann var hid meſta afbragd annara konúnga, er þá voru uppi. Hann var madur ſtórvitur, og lét honum hvørttveggja jafnvel bædi landſtjórn og herſtjórn. Hann var ſterkur madur og vopnfær vel og hætti ſér mjøg í orruſtum. Hann var þúngur í refsíngum vid óvini ſína og hardur ſtórbokkum øllum, en manna mildaſtur og lítilláta ſtur vid adra. Hann var trúmadur mikill og unni mjøg ſannleika og rétti; en var ſvarinn óvinur allrar páfavillu; væntu Lúterſkir mehn þadan mikils trauſts ſem Guſtaf konúngur var. Þeſsi hinn ágæti konúngur tókſt á hendur ad hjálpa Próteſtøntum á Þýzkalandi. Þókt-

ist hann elga bædi sjálfs sín í ad hefna á Ferdínandi keisara, þar sem hann hafdi ekki viljad vidurkénnast konúngs tign Gustafs, og styrkt óvini hans móti honum, enda skorudu líka Próteſtantar fast á hann til lids vid sig. Adur hafdi Gustaf konúngur átt í óeyrdum á Pólinalandi og fengid sigur, en samdi nú frid vid þá þjód, til ad géta snúist því betur vid keisara og hans mønnum. Gustaf hélt heiman med 15000 manns og kom skipum sínum vid Vindland (Pommern) 4da Júlii 1630. Var lid hans valid mjøg bædi ad vopnum og hreysti. En sem Svía her var gèinginn af skipum npp, kraup konúngur á kné og her hans allur, og hét á Gud til fulltíngis sér.

Nú tóku Svíar til starfa styrkir í huga, hrukku keisarans menn hvervetna undan, og hafdi Gústaf þegar tekid Stettínaborg, helztu borg á Vindlandi, þegar keisari spurdi komu hans þar vid land. Ritadi hann konúngi bréf eitt, og er þar drjúgmæltur vel, og segir ad konúngi muni þad rád best duga, ad verda sem fyrst á brott af Pýzkalandi. Gaf konúngur ad því lítinn gaum og fór sínu fram. Gekk hvørt hérad og borg af ødru til handa honum; þraungvadi hann sumum til þess, en sumir tóku vid honum tveim høndum, og kvádu hann sendan sér sem verndar eingil. Mátti þad og med sanni segja, því þeir Tilly og Valenstein fóru med svo mikilli grimd yfir landid, ad ølluni stód ótti af; en Svíar herjudu hvørki né rændu, og gulldu þad allt aptur fullu verdi er fyrir þelm var greidt. Nú spyrjast þau tídindi til Vínarborgar, ad

Gustaf konúngur hefir lagt undir sig mørg héröd og borgir, og bregdur keisarinn sér litid vid þad alltsaman; gjøra sumir menn ad því gabb mikid. kalla Gustaf: Snækonúng, og ødrum þvílíkum nøfnum og segja ad hann muni brádna, þegar hann komi leingra sudur. En þegar þad fréttist ad snækonúngur þessi hefdi lagt ad velli ýmsar hersveitir af keisarans lidi, þá þøgnudu hádfuglarnir í Vínarborg. Vorid eptir hélt Svíakonúngur her sínum sudrá Brandínaborg til móts vid Tillý, og tók borg þá er heitir Frakkafurda vid Oddorá. Fekk Tillý ekki hrakid hann þadan, og hélt svo til Magdaborgar, og settist um hana; þad var stór borg og audig, og bjuggu þar Lútherskir menn. Vildi Gustaf þegar koma borginni til hjálpar, en fekk ei komist nógu snemma, því kjørfurstinn í Brandínaborg gjørdi honum ýmsan farartálma, og þókti konúngi ekki tryggilegt ad fara þadan úr landi ad svo støddu. En þá hafdi Tillý tekid Magdaborg (10 Maí 1631), og lagt hana í eydi med enni mestu grimd, þegar konúngur vár búinn til ferdar þángad. Þessu næst gjørdust þeir Vilhjálmur landgreifi af Hessen, og Kjørfurstinn af Saxlandi, bandamenn Svía. Um þessar mundir hafdi Tillý tekid Leipzig; héldt nú Gustaf konúngur og Kjørfurstinn her sínum móti honum, vard fundur þeirra þar sem heitir á Breidumørk (Breitenfeld) hjá Leipzig (7 Sept. 1631). Gustaf konúngur treysti Saxlendíngum midlúngi vel, og fyrir því skipadi hann þeim øllum sér, í hinn vinstra fylkíngar arm. Tillý rédi þeim megin fram med riddara-

lidinu sem Saxlendíngar stódu fyrir, en þeir ridludust skjótt og hrukku undan. Sídan sókti Tillý þar ad sem Svíar voru fyrir, en þeir stódu fastir á fótum og ridludust ekki. Þvínæst sókti Gustaf konúngur fram og med honum allur Svíaher, og berjast med svo miklum ákafa, ad þeir fá komid keisarans mønnum á flótta, en fallnar ádur 7000 af þeim. Komst Tillý naudugslega undan med nokkra menn, og lét náttmyrkrid geima sín.

Eptir þennan sigur héldu Saxlendíngar lidi sínu inní erfdalønd Keisarans, en Gustaf hélt vestur á bóginn og sudrá Bæaraland. Þar kom Tillý enn á móti honum, og vildi banna Svíum leid yfir Lech-elfu. Vard þar orrusta allhørd, og feingu Svíar sigur, en Tillý féll. Var nú fokid í flest skjól fyrir keisara, þar sem Vallenstein skømmu ádur var kominn í óvingan vid hann, og keisari hafdi vikid honum frá hernum. Sat Vallenstein í borg sinni á Bæheima landi, og hélt sig jafn ríkmannlegar enn keisarinn, enda var hann og audugri madur og hafdi meira lid yfir ad ráda. Sá nú Ferdinand keisari ekki annad rád vænna, enn leita Vallensteins, og fá hann til ad takast aptur herstjórn á hendur. Kom svo ad Vallenstein hét keisara lidi sínu, en einn skyldi hann ráda fyrir þeim her, sem hann safnadi ad sér, og vard keisarinn ad láta sér þad vel líka. Svíakonúngur hélt nú lidi sínu austur um land, en Vallenstein hafdi skjótt dregid ad sér mikid lid, og rekid Saxlendínga burt af Bæheimi. Sídan rédist hann á Saxland, herjadi þar og brendi bygd-

ina. Hélt Gustaf konúngur þángad eptir honum. Og með því Wallenstein hafði sendt frá sér Pappenheim herhöfðíngja, enn mesta kappa, með nokkru liði, þá þóktist Gustaf hafa nógan liðsafla til að berjast við Wallenstein. Því hraðar hann nú ferð sinni sem mest hann má, og nær Wallenstein hjá þorpi því er Lûzen heitir. Daginn eptir (6. Nov. 1632), var þoka mikil og veður kalt. En nær dagmálum létti af þokunni. Lét Svíakonúngur þá blása til atlögu. Eggjar nú Wallenstein sína menn bæði með fögrum loforðum, og grimmum hótunum. En Svíar hófu upp stríðssaung sinn, og súngu sálm Lúthers, þann er þetta er upphaf að: Ovinnanleg borg er vor Guð. Eptir það settist konúngur á hest, reið fram fyrir fylkíngar brjóst manna sinna og mælti þessum orðum: Nú viljum vér byrja starf vort! Góður Guð virðist að stýra því! Hjálpa mér Jesús í dag, að berjast til lofs þínu heilaga nafni! Nú sigu saman fylkíngar. Skutu Wallensteins menn ákaft af fallbyssum á Svía, og féllu margir fyrir, en hopuðu þó hvergi, og sækja að því fastar. Konúngur var sjálfur fyrir hægra fylkíngararmi, og gánga Svíar þar svo harðt fram, að hinir hrökkva fyrir. Þá var konúngi sagt að hinn vinstri fylkíngararmur hans hopaði aptur fyrir Þjóðverjum. Setur hann þá herhöfðíngja þann er Horn hét, þar fyrir sem hann var, en ríður sjálfur við nokkra menn þar að sem menn hans hopuðu. Þá fékk konúngur byssuskot í vinstra handlegg, og blæddi mjög. Beiddi hann þá hertogann af Láenborg að fylgja sér burt af vígvellin-

um, og ríku þeir báðir samt á bak við herinn til ens hægra fylkingararms. Þá fékk Gustaf skot í bakið, var það banaskot, og féll hann af hestinum í valinn. Vissu menn eigi hvaðan skotið kom. Riðu menn þá yfir konúng, bæði vinir hans og óvinir, og fannst lík hans ekki fyrr enn daginn eptir. En sem Svíar vissu að konúngur þeirra var fallinn, gjörðust þeir svo óðir að ekki stóðst við þeim, og höfðu þegar komið Vallenstein á flótta, þegar Pappenheim kom til með riddaraliði sínu; harðnaði þá orrustan á ný, en svo lauk að Pappenheim féll; unnu Svíar þar mikinn sigur. Vallenstein flýði undan suðrá Böheim, og hafðist ekki að framar í þessu stríði. Þókti keisara sem hann mundi sitja á svikráðum við sig, og lét drepa hann litlu síðar (1634).

Eptir fall Gustafs Adolfs, kom dóttir hans Kristín til ríkis, og var þá barn að aldri, þó var Svíþjóð stýrt vel og viturlega, og stríðinu haldið áfram á Þýzkalandi. Axel Oxenstjerna, mikill stjórnarvitríngur og vinur Gustafs, hafði utanríkis málefni á hendi, en hershöfðíngjar Svía, lærisveinar Gustafs höfðu herstjórn á Þýzkalandi, og feingu mikla frægð. Meðal þeirra eru þessir frægastir: Bernhard af Weimar, hann tók við herstjórn í orrustunni hjá Lützen, þá er Gustaf var fallinn, og vann sigurinn að fullu með frábærri hreysti og snarræði, Horn, Bannér, Ljónhardur Þorsteinsson og Vrangel. Að sönnu biðu Svíar eittsinn ósigur móti Ferdinand keisara syni hjá Nordlíngaborg

(1634). Sagdi kjørfurstinn af Saxlandi sig þá úr fé-lagskap við Svía; en litlu síðar gjørðu þeir samband við Frakka, og unnu það svo upp aptur er þeir høfðu mist. Einkum vann L. Þorsteinsson optar enn einu-sinni ágætan sigur á páfa mønnum.

Um síðir leiddist mønnum ófriðurinn, bæði keisara og øðrum; voru bygðir manna á Þýzkalandi mjøg eyddar, og margur átti þar um sárt að binda. Áttu sendi-herrar ýmisséra þjóða þá fund með sér, í borgum þeim er heita Munstur og Ósnabryggja, og tóku að semja um frið. Stóð leingi á því áður friður kæmist á, því Frakkar og Svíar voru harðir í krøfum. Ár 1648 komust loks sættir á. Var þá Prótestøntum (Lúterskum og Reformeruðum) heitið sømu réttindum sem páfa mønnum á Þýzkalandi. Svíar feingu Vindland fyrir vestan Oddorá (Forpommern), Rý-ey, Vismar, Brima, Verden og 5 milliónir ríkis-dala í peníngum. Kjørfurstinn af Brandina-borg fékk Austur Vindland (Bagpommern), og ýms-ar borgir. Aðrir høfðíngjar, þeir er mist høfðu lønd sín feingu þau aptur. Frakkar feingu Elsaz og Breisach. Þá kønnudust og allir høfðíngj-ar við, að Sveiss og Niðurlønd væru þjóðveldi, og sjálfráð sín ráðandi. Friður þessi hefir verið kallaður hinn Vestfalski. Gjørðist þá mikil breytíng á kjørum og kostum enna þýzku þjóða, og hafa menjar þess staðið allt fram á vora daga.

## Frá enskum mönnum, Karli 1ta, Kromvell og fleirum.

Eptir dauda Elísabetar drottníngar (1603), kom til ríkis á Englandi Jakob hinn fyrsti, son Maríu Stúart, sem fyrr er gétid. Hann sameinadi England og Skotland, og hafa þau ríki sídan verid undir einum konúngi, og kölluð Bretland hid mikla (Storbritannien). Jakob konúngur hneigdist mjög til smásmuglegrar ransóknar á trúarbragda efnum, en vanrækti ríkisstjórn sína. Hann lýsti því og yfir ad öll réttindi og frelsi þjódarinnar væru einúngis nádargjafir konúnganna. Vard hann af þessu og ödru ekki ástsæll af þjód sinni. Eptir hann kom til ríkis sonur hans Karl 1ti. Hann lét Búkkingham rádgjafa sinn ráda mestu, og telja sig á margt óviturlegt. Hann lagdi skatta á ríki sitt, án þess ad hafa samþykki málstofumanna (Parlaments medlima), og vildi þraungva Skotum til ad fylgja sidum Englismanna í andlegum efnum. Þá urdu Skotar óvægir og gjördu uppreist. En konúngur stefndi málstofumönnum til þíngs, og vildi fá til fé ad sefa uppreistina. Þessu neitudu þíngmenn, og ekki þar med búid, heldur kröfdust þeir, ad refsad væri tveim mönnum: Strafford rádgjafa og Laud erkibiskupi. Um sídir lét Karl konúngur undan, en þá tók ekki betra vid. Málstofumenn komu med hvörja ákæruna, og hvörja kröfuna á fætur annari, og gjördist af því fullur fjandskapur milli konúngs og þeirra. Í fyrstu veitti konúngsmönnum betur, en brádum vard annad ofaná. Medal málstofumanna reis

upp sá madur, er bædi var vitur og bilaði ekki árædi; hann hét Oliver Kromvell. Hann gjørdist oddviti flokks þess er Independenter (lausir menn) hétu; voru þeir enir ákøfustu bædi í stjórnar og trúarbragða efnum, og med tilstyrk þessara manna fékk hann yfirráð í málstofunum. Fyrir herlidi þjódarinnar rédu þeir Kromvell og Fairfaxi, og voru sigursælir í vidskiptum vid konúnginn. Tvær orrustur unnu þeir mestar hjá Jórvík (York) og Nesbæ (Naseby). Flýdi þá konúngur á nádir Skota. En Skotar voru þau lítilmenni ad þeir seldu konúng í hendur málstofumønnum fyrir 400,000 pund Sterling. Konúngur reyndi ad flýa en nádist, og komst í høndur hérmanna. Nefndi Kromvell þá menn í dóm, og dæmdu þeir konúng til dauda, og var hann hálshøggvinn (1649). Karl konúngur hafdi marga góda kosti til ad bera sem valdalaus madur, en til konúngs var hann midur fallinn, hann misskildi anda þjódar sinnar og aldar, og vantadi bædi mannþekkíngu og rádfestu til ad verjast hættum þeim er umkríngdu hann, og loks komu honum á kaldan klaka.

Nú reyndu bædi Skotar og Irir ad efla til ríkis Karl, son Karls ens fyrsta, en Kromvell hafdi hvervetna sigur, og eptir orrustuna hjá Vorcester, flýdi Karl yfir til Frakklands. Vildi nú Kromvell øllu fyrir sér, eins og honum bjó í skapi. Tók af Málstofurnar. Lét taka sig til Verndara (Protector) yfir England, og rédi nú meiru enn nokkur konúngur þar í landi. I þessum vøldum sat hann til daudadags, og átti þad ad þakka viturleik sínum og hardfeingi. Leitudu

kon̄úngar og útlendir höfdíngjar vináttu hans. Eru og vidskipti hans vid adrar þjódir miklu glæsilegri enn innanlands stjórn hans. Hann hádi strid, bædi vid Nidurlendínga og Spánverja, og þókti vaxa af hvorutveggju. En þó hann skorti hvorki vøld né álit, lifdi hann samt vid sífelda órósemi, var hann bædi hræddur vid adra, og adrir vid hann, og aldrei svaf hann margar nætur í sama herbergi. Kromvell andadist 1658, var þá Ríkardur sonur hans settur til sømu valda, en hann hafdi hvorki dug né drottnunargirni fødur síns, og lagdi sjálfkrafa nidur vøldin litlu sídar. Georg Monk, høfudsmadur á Skotlandi, tókst nú á hendur ad semja vid ena ensku málstofumenn, um, ad koma Karli 2um, syni Karls 1ta til ríkis (1660). Vard þvi og framgeingt, og kallast sá atburdur: The restoration, (Endurnýjúng). Landsmenn tóku bádum høndum vid Karli ødrum, en sá føgnudur stód ekki lengi, því Karl skeytti lítid um réttindi þjódarinnar, og unni mjøg páfa trú. En málstofumenn vildu bædi vernda réttindi manna, og Prótestanta trú, og áttu því jafnan í deilum vid konúng. Hann var og alla jafnan hádur Lodvíki 14da, Frakka konúngi, og missøfnum rádgjøfum sínum. Vard hann af øllu þessu svo óvinsæll, ad þegar hann andadist (1685) var ad því komid ad þjódin øll gjørdi uppreist. En svo óánægdir sem menn høfdu verid med Karl 2ann, vesnadi þó um allan helfíng, þegar Jakob 2ar, bródir hans kom til ríkis. Sjálfur var hann katólskur, og vildi þrøngva mønnum til ad taka vid þeirri trú. En til þess ad kom-

ast hjá því, leitudu Englismenn traustś hjá Vilhjálmi 3ja, Niðurlanda jarli; hann átti Maríu dóttur Jakobs Englakonúngs. Vilhjálmur brá við þegar, og fór með her manns til Englands, gengu þá allir helztu menn í lið með honum. Jakob flýði til Frakklands, og komst aldrei til ríkis aptur á Englandi, þó Loðvík 14di reyndi að styrkja hann til þess. En Vilhjálmur var til konúngs tekinn yfir allt Stórbretaland. Þessi stjórnarbilting varð 1688, og er það merkilegt um hana, að einkis manns blóði var úthellt, nema hvað nokkrir Hollendingar féllu í litilvægri misklíð við enska menn.

## Frá Friðreki 3ja Danakonúngi. Karli 10da Svíakonúngi, og frá því er einvaldsstjórn komst á í Danmørku.

Eptir dauða Kristjáns konúngs ens fjórða (1648), tók ríki í Danmørku Friðrekur konúngur enn 3ji, son hans. Gjørði þó ríkisráðið og Korfits Ulfeldur honum það næsta erfiðt. Varð konúngur, áður hann kæmi til ríkis, að skrifa undir skuldbindíngar skrá eina (Haandfæstning), er veitti lendum mønnum og ríkisráðinu hið mesta veldi. Or nú mjøg sundurþykki með konúngi og Ulfeldi, og svo lauk, að Ulfeldur støkk úr landi, og fyrst til Hollands og síðan til Svíþjóðar og var þar í skjóli Kristínar drottníngar. Nokkru síðar lagði Kristín niður vøldin, svo hún gæti lifað í næði, tók síðan páfatrú og fór til Róms, og var þar mestan hluta æfi sinnar. Hún kvað svo á, að eptir sig skyldi koma til ríkis frændi sinn, Karl Gustaf af Tví-

bryggju (Zweibrücken) edur hinu 10di, er í 30 ára stríðinu hafdi haft herstjóru, og þókt ágætur foringi. Þegar hann var settstur ad völdum, átti hann jafnan í óeyrdum, fyrst vid Pólska menn, sídan vid Dani. Jóhann Kasimir Pólinalands konúngur, þóktist eiga tilkall til konúngsdóms í Svíþjód, er Sigmundur konúngur fadir hans hafdi misst, fyrir því ad hann hélt svo fast fram Páfa trú. Karl Gustaf rédist því á Pólinaland, í félagi vid Fridrik Vilhjálm enn mikla, kjörfursta af Brandinaborg. Svíakonúngur átti orrustu vid Pólska menn hjá Varská. Þeir börduzt í þrjá daga, og feingu Svíar sigur. Lagdi sídan Karl konúngur mest allt Pólinaland undir sig. En nú tóku adrir konúngar ad sjá offjónum yfir sigursældum hans. Fridrik 3ji, Danakonúngur, hugdi nú mundi gott færi til ad ná aptur löndum þeim, er Danir höfdu misst, þá fridurinn var saminn í Brömsebrú. Sagdi nú Fridrik Svíakonúngi strid á hendur, og tók Brimaborg og Verden. En jafnskjótt sem Svíakonúngur frétti þad, gjördi hann vopnahlé vid Pólinaland, og heldur lidi sínu til Danmerkur. Hann hafdi 10,000 manns. Í Hamborg fékk hann ýmsa hluti er hann þurfti til herferdar þessarar, og leid nú ekki á laungu ádur hann hafdi tekid Holsetaland, Slesvík og Jótland. Gekk honum nú allt ad óskum; þá voru ísalög svo mikil, ad konúngur gekk med allan herinn yfir á Fjón, og þadan yfirá smá eyarnar og til Sjálands. Sló nú miklum ótta á borgarlidinn í Kaupmannahöfn, og sendi Fridrik konúngur strax á fund Svíakonúngs til ad leita

um sættir. Setti Karl konúngur svo harda fridarkosti, ad Danir gátu eigi geingid ad. Fóru sendimenn aptur vid svobúid; en Karl hélt iidi sínu áfram, og þokadist nær hofudborginni, var þar lítil vorn fyrir, því menn hofdu ekki búist vid óvina her á Sjálandi. Vard Fridrik ad gánga ad þeim kostum sem Karl vildi setja, og somdu þeir frid í Hróarskéldu þad ár (1658). Létu Danir þá af hendi: Skáney, Halland, Blekíng, Bahús, Prándheim og Borgundarhólm, og 2000 riddaralids. Pókti monnum nú sem afstadnar væru allar þrautir, en því fór fjærri. Karl konúng ydradi þess mjog ad hann hafdi gjort þessa sætt, því hann vildi einn ollu ráda á Nordurlondum. Fyrir þá sok lýsti hann því yfir, ad Danir hefdu ekki fullnægt ollum þeim fridarkostum er þeir hefdu játast undir i Hróarskéldu, og heldur nú med miklu lidi til Sjálands, og settist um Kaupmannahofn; gripu borgarmenn til vopna, bædi leikir menn og lærdir. Eggjadi Fridrik konúngur til drengilegrar varnar. Toldu þá sumir hann á, ad forda sér og flýa úr borginni, en hann kvadst vilja deya í hreidri sínu. Um þær mundir tóku Sviar Krónuborg med vélum. Þeir sogdu hofudsmanni þar, ad Kaupmannahofn væri þegar unnin, og mundi honum því best ad géfast upp. Og svo gjordi hann. Par tóku Svíar fallbyssur er þeir fluttu til Kaupmannahafnar, og komu þar í gódar þarfir. Tók nú mjog ad þreyngja ad borgarmonnum, en þeim vildi þad til bjargar, ad Hollendingar voru bandamenn þeirra, og braust herskipaforingi þeirra, sá

er Opdam hét, innum Eyrarsund, og færdi Dønum vistir og adrar naudsynjar, svo nú gátu þeir enn varist leingi. Þá rédi Karl konúngur það af að taka Kaupmannahøfn í áhlaupi, en borgarmenn tóku djarflega á móti, urdu Svíar frá að hverfa og feingu mikid manntjón. Þá voru í Kaupmannahøfn nokkrir íslenzkir menn er børdust med Dønum, og geingu vel fram: Teitur Torfason, er sídan vard rádsmadur í Skálholti, mikill madur og sterkur; Marteinn Røgnvaldsson, hann vard sýslumadur í Múla-Sýslu enni nyrdri, vitur madur og hraustur að afli; Oddur Eyólfsson, er sídan vard prestur að Holti undir Eyafjøllum, vitur madur og vellærdur; og fleiri voru þar íslenzkir menn sem hér getur eigi. Eptir þetta fór Svíum að gánga midur, bidu þeir vida ósigur einkum hjá Nýborg á Fjóni. En Borgundarhólmsmenn og Þrændur høfdu þegar rekid þá af høndum sér. Helt Karl konúngur þá til Gautaborgar, og andadist þar litlu sídar (1660). Var þá fridur samin milli ríkjanna, í Kaupmannahøfn, urdu Danir að láta það allt, er um var samid ádur í fridargjørdinni í Hróarskeldu, nema Þrándheim og Borgundarhólm.

Oftidur sá er nú var getid, vard undirrót til þess, að stjórnarbreyting vard í Danmørku, og Einvaldsstjórn sú komst á, er sídan hefir þar verid. Ádur enn Lúthers trú nádi að festa rætur í Danmørku, var klerkavaldid sem mest, eins og annarstadar; en eptir sidaskiptin, komust lendir menn svo mjøg til valda, að

allir menn adrir, og konúngurinn sjálfur, máttu ekki um frjálst höfud strjúka. Nú þegar hér var komid mönnudu þeir sig upp, klerkarnir, og borgarmenn í Kaupmannahöfn, og kröfdust, ad lendir menn skyldu bera allar álögur og útgjöld til jafns vid adra kóngsþegna. Enda var þess og mikil þörf: alþýdan var lángkúgud og félaus, og gat ekki goldid skatta. Atvinnuvegir lágu í dái. Hermenn feingu ekki mála. Ríkissjódir allir tómir. Var þá stefnt til allsherjar þíngs í Kaupmannahöfn. Ox nú sundurþykki sem mest milli manna. Lendir menn báru alljafnt fyrir sig einkaréttindi sín; en hinnsvegar fundu Kaupmannahafnar-búar, ad sér var mest ad þakka þad, ad landid komst ekki allt í fjandmanna hendur, hafdi og konúngur þessvegna veitt þeim ýms hlynnindi. Borgarmenn höfdu þann oddvita er Nansen hét. Geingu klerkar í flokk med þeim, og var Svanur biskup fyrirlidi þeirra. Þessir tveir menn er nú voru nefndir, og nokkrir fleiri, tóku sig saman um ad ónýta skuldbindíngarskrá konúngs, og selja honum í hendur einvaldsstjórn og ríkiserfdir, bædi í karl- og kvenn-legg. Reyndu lendir menn ad sporna vid þessari fyrirætlan, en feingu ekki adgjört. Vard nú konúngur einvaldur, og unnu menn honum nýja hollustu eida. Þá menn, er mest höfdu unnid ad þessum störfum, sæmdi konúngur virduglegum gjöfum, og gjördi Svan ad erkibiskupi, og Nansen ad bæarforseta (Præsident) í Kaupmannahöfn. Eptir þad lét Fridrik konúngur, hinn nafnfræga Pétur Schumacher, er sídan fékk lends manns tign og var kalladur Griffenfeld,

semja nýa stjórnarskrá (Kongeloven). Er þar ítarlega skírt frá skyldum og réttindum Danakonúnga. Þeim einum løgum meiga Danakonúngar ekki breyta. Þegar Fridrik konúngur hafdi feingid øll vøld í hendur, let hann sér annt um ad bæta margt sem ábótavant var í ríkinu, og gjørdi á ýmsu góda skipun. Eptir hann (1670) kom til ríkis, sonur hans Kristján 5ti. Hann gjørdi samband vid Fridrik Vilhjálm enn mikla kjørfurstа af Brandínaborg, og lendti því í strídi vid Karl 11ta Svíakonúng, og Lodvík 14da Frakkakonúng. Kjørfurstinn vann sigur á Svíum í orrustunni hjá Fehrbellin, og Dønum veitti jafnan betur í sjóorrustum, og unnu opt sigur á Svíum. Níels Júl vann fræg. an sigur á Svíum á Kjøgevík (1677) og tók þar edur eyddi mestum hluta af herskipum þeirra. Strídi þessu lauk svo ad fridur var saminn í Lundi og Fontainebleau (Fontenbló) 1679; mistu Svíar ekki mikils og áttu þad Frøkkum ad þakka. Kristján 5ti gjørdi, med adstod Griffenfelds, endurbót á mørgu í ríki sínu, og lét semja bædi Dønsku og Norsku løg. Griffenfeldi var sídan hrundid úr vøldum og dæmdur frá lífi, en konúngur gaf honum líf, og lét setja æfilángt í myrkvastofu á Múnkahólma vid Þrándheim, sat hann þar fánginn í 18 ár, til þess honum var veitt frelsi, ári ádur hann lézt.

## Frá Lodvíki enum 14da, Frakka konúngi.

Lodvík konúngur enn 14di, Lodvíksson enns 13da var 5 vetra ad aldri, er hann kom til ríkis, (1643)

og hafdi Mazarín kardínáli ríkisstjórn á hendi til þess er konúngur kom til vits og ára. Brídi þá laungum á deyrdum, einkum gégn Kardínála. Hér flokkur sá slaungumenn (La fronde), er honum var skædastur. Þeir voru svo kalladir af því þeir köstudu steinum inn um glugga hjá mótstödumönnum sínum. Mazarín vard jafnvel ad fara úr landi, en kom aptur litlu sídar, þegar Lodvík var ordinn frjáls forrædis. Lodvík konúngur gjördist skjótt svo umsvifa mikill, ad öllum nágrönnum hans stód ótti af. Drottnúnargyrni hans var svó mikil, ad lángt keyrdi úr hófi. Máttu Spánverjar, Þjódverjar og Nidurlendíngar opt ast kenna á yfirgángi hans. Herhöfdíngjar Lodvíks, Túrenne og Kondé og fl., unnu einkum margan sigur honum til handa. Voru og Frakkar einhverjir enir mestu orrustumenn á þeirri tíd, og tóku upp margar nýjar venjur í orrustum. Þannig fundu þeir fyrstir manna upp vopn þau, er heita byssubroddar (Bajonnetter), og ad einkenna sig í klædaburdi, (Uniformer).

Lodvík 14di hádi 4 stór strid vid adrar þjódir. Hid fyrsta reis af því, ad Lodvík konúngur krafdist ad fá en spánsku Nidurlönd, þegar Filippus 4di Spánverja konúngur var andadur, tengdafadir hans; en Englismenn, Svíar og Hollendíngar gjördu samband sín á milli (Trippelalliance), og neyddu hann til ad semja frid í Akkensborg (Aachen) 1668, héldu Spánverjar því, er þeir áttu í Nidurlöndum, en Lodvík nokkrum kastölum sem hann hafdi tekid af Nidurlendíngum.

Litlu síðar hófst hið annað stríð: Loðvík vildi hefna sín á Hollendíngum, og gjørði samtøk við Karl 2an Englakonúng, Karl 11ta Svíakonúng og fleiri høfðíngja, og hefði þá að líkindum verið úti um Hollendínga, nema Leópold Þjóðverja keisari, Karl 2ar Spánarkonúngur og kjørfurstinn af Brandínaborg hefðu geingið í lið með þeim. Enda var þá og sá maður uppi á Hollandi, er Loðvík átti fullt í fángi með; en það var Vilhjálmur hinn 3je er þá gjørðist landstjóri þeirra Niðurlendínganna, og seinna varð konúngur yfir Stórbretalandi. Um þessar mundir féll hinn mikli herhøfðíngi Túrenne *). Um síðir komust sættir á í Nimvegen (1679), og lauk svo því stríði. Feingu Hollendíngar flest aptur er þeir høfðu misst, en Frakkar ýmsar borgir og herøð. Gjørðist nú yfirgángur Loðvíks svo mikill, að honum þókti sér ekkert ofvaxið, og tók af øðrum þjóðum það sem hann átti ekkert tilkall til. Sáu menn nú, að ekki mundi svo búið meiga standa; átti og Vilhjálmur 3ji mestan þátt í því, að Keisarinn Spánarkonúngur, og Englismenn, gjørðu samband sín í milli móti Loðvíki. Hófst þá hið þriðja stríð, og þó landher Frakka væri optast sigursæll meðan þessi ófriður stóð, misstu þeir þó herskipaflota sinn, og ríkissjóðir tæmdust. Mótstøðu menn Loðvíks høfðu og feingið nóg af stríðinu, og samdist loksins friður með þeim og Loðvíki í Rýsvík, (1697).

I þann tíma réði Karl 2ar fyrir Spáni sem-

*) Sjá Sjóðabók J. Þorlákssonar *I.* bls. 94.

ádur er sagt; hann var allra konúnga vesælastur, og var í barnæsku vasinn vidarullu; og mátti ekki heyra nokkurn háfada svo hann hlyti eigi tjón af. Og svona var hann veikur alla æfi. Hann átti ekki barna, og þóktist bædi **Lodvík** 14di vera þar rétt ad erfdum kominn til handa sonarsyni sínum, **Filippusi** af Anjou (Ansjú); og sömuleidis **Leopold** keisari fyrir hönd yngra sonar síns **Karls**; og **Jósef Ferdinand** Bæaralands Kjörprins. Arfleiddi Karl annar, Kjörprinsinn ad öllu ríki sínu, en litlu sídar dó Jósef Ferdinand snögglega. Tók nú Lodvík ad semja vid **Vilhjálm** 3ja um skipti á Spánarríki; vildi Lodvík ad minsta kosti ná nokkru af ríkinu til handa Filippusi, en Vilhjálmi var ekki um, ad nokkur einn skyldi erfa allt ríkid og verda mjög voldugur. Allt um þad ávann Lodvík þad hjá **Karli** 2um, ad Filippus skyldi erfa ríkid, og litlu sídar andadist Karl konúngur (1700). Fór nú **Filippus** til ríkis síns á Spáni, og geingu landsmenn allir til hlýdni vid hann; gat þá Lodvík 14di sagt, ad nú gætti ekki lengur **Pýrenæa** fjallanna (þad er afar hár fjallgardur milli Frakklands og Spánar). Flestar þjódir létu sér líka þad sem ordid var, nema **Leopold** keisari, hann sendi strax her manns til **Mailands** undir herstjórn **Evgens** Prins af Savojen, og hóf þannig hid fjórda stríd Lodvíks konúngs. Evgen var ágjætastur allra hershöfdíngja er þá vóru uppi, stjórnarvitríngur hinn mesti, og þaraofan besti drengur. Hann nádi skjótt fórfestu í Italíu, en keisarinn sparadi ekki ad eggja adrar þjódir til félags vid

sig móti Frakklandi. Gjørdu og Englismenn og Hollendíngar, auk annara, samband vid keisara. Um þessar mundir andadist Vilhjálmur Bretakonúngur, kom þá til ríkis Anna drottníng, dóttir Jakobs annars, og sendi hún hershøfdíngja sinn, hinn vidfræga Marlbórough (Marlborro) til meginlands, hélt hann til fundar vid Evgen, og sameinudu þeir lid sitt. Stód Frøkkum mikill ótti af þessum tveimur mønnum, og fóru mjøg halloka fyrir þeim. Frakkar bidu mikinn ósigur vid Hochstädt, Ramillies, Oudenarde og Malplaqvet. Kreppti þá svo ad Lodvíki, ad hann fór ad leita um sættir. En Bandamenn settu svo harda fridarkosti, ad hann gat ekki geingid ad þeim. Þeir krøfdust ad Lodvik skyldi ekki einúngis hætta ad styrkja sonarson sinn Filippus, heldur jafnvel vopnast móti honum ef hann vildi ei med gódu afsala sér øllu tilkalli til Spánar. Því neitadi konúugur og stód nú ófridur enn í nokkur ár. Englismenn høfdu lendt flota sínum vid Spán, tvisvar rekid Filippus Konúng frá ríki, en Frakkar styrktu hann í hvørttveggja sinn aptur til ríkis. En nú vard sá atburdur á Englandi er gjørdi enda á stridi þessu. Kona Marlboroughs hafdi styggt drottníngu, og komst fyrir þad í óvingan vid hana, og madur hennar med; var honum þá vikid úr vøldum, og brádum samid vopnahlé vid Frakkland, og því næst var farid ad semja um frid í Utrecht. Í Þýdskalandi voru þau umskipti ordin, ad Josef Keisari enn 1ti, er næstur kom eptir Leópold fødur sinn, var daudur, vard nú Karl bródir hans, er

ádur átti ad verda konúngur á Spáni, Keisari yfir Þýdskalandi og enum austurrisku erfdaløndum, og kalladur hinn 6ti. Ottudust menn, ad hann yrdi of voldugur, ef hann yrdi konúngur á Spáni. England, Holland, og fleiri, sømdu þessvegna frid í Utrecht (1713). Skyldi Filippus halda konúngstign á Spáni, en láta hin spánsku Nidurlønd, Mailand og Neapel til Karls. England skyldi hafa Minorka og Gibraltar og Nýaskotland í Nordurameriku. Þenn-an frid vildi Keisarinn ekki samþykkjast, og hélt einn fram ófridi um hríd; þó gjørdi hann árí sídar frid í Rastad og Baden, líkan því sem hinir høfdu gjørt í Utrecht.

Ofridur þessi hafdi steipt Frakklandi í hid mesta volædi, og voru einkum ríkisskuldir ordnar miklar. Lodvík Konúngur andadist litlu sídar 1715, var hann þá 76 vetra, og hafdi verid konúngur 71 ár. Menn hafa lastad drottnunargyrni hans, og umburdarleysi vid Prótestanta edur Húgónótta, er hann vildi þraungva øll-um til páfa trúar. Flýdu þeir undan til Englands og Brandenaborgar, og tók Fridrik Vilhjálmur bád-um høndum vid þeim, og kéndu þeir landsmønnum marga þarfa hluti. Leiddist Lodvik einkum af frillu sinni, Madm. Maintenon og skriftafødur sínum La Chaise til ad ofsækja Prótestanta. Um fyrri hluta æfi hans voru ýmsir ágætir menn honum til adstodar í stjórninni; má fyrst og fremst telja Kolbert er leingi hafdi fjárgeymslu ríkisins á hendi, med frábærum vitur-leika, og kom fyrstur fótum undir verksmidjur og hand-

ydnir manna á Frakklandi. Louvois (Lúvoa) stýrdi öllum hermanna málefnum med mikilli atorku, en þókti vera hardur madur. Vauban var afbragd annara manna í því ad byggja vígi og kastala og med hugviti sínu umgyrdti hann margar borgir á landamærum Frakklands.

Á þessu tímabili voru og uppi á Frakklandi margir lærdir menn, og margt var stofnad til frama vísindum og íþróttum. Á dögum Kolberts hófst hid konúnglega vísindafélag, og félag enna fögru menta (Academie des inscriptions & belles lettres). En Richeleu Kardínali hafdi þegar á dögum Lodvíks 13da, sett á stofn hid frakkneska vísindafélag. (Academie). Medal rithöfunda þeirra er uppi voru á dögum Lodvíks 14da, voru þessir helztir: Molíeri, hann hefir orkt vídfræga gledileika. Corneilli hinn eldri, og ýngri, og Racine, þeir voru ágæt sorgarleika skáld. Lafontene reit ýmsar smásögur. Á ofanverdum dögum Lodvíks 14da fæddist Voltaire, en ekki samdi hann bækur fyrri enn á dögum Lodvíks 15da. Hann, ritadi nokkud um flestar vísindagreinir, hædi klerka lidinn og hjátrúna, og efldi mjög manna á millum djarfar og frjálslegar hugmyndir. Samtída honum var J. J. Rousseau (Rússo), er auk annars hefir ritad nafnfræga bók um uppeldi barna, sem heitir Emil.

## Frá Karli 12ta.

Medan hid spánska erfdastríd geysadi um vestur lönd Nordurálfu, var ófridur mikill milli nordur-

landa. Þá er Karl konúngur enn 11ti andadist (1697), tók ríki í Svíþjód Karl 12ti son hans og var þá 15 vetra. Vildu nágrannar hans færa sér þad í nyt, ad Konúngur var svo úngur, og ná aptur löndum þeim, er þeir ádur höfdu látid fyrir Svíum. Gjördu nú þessir höfdíngjar samband sín á milli: Pétur mikli Rússakeisari, Agúst 2ar Pólínalands konúngur og kjörfursti á Saxlandi, og Fridrik 4di Danakonúngur. Fridrik konúngur vard fyrstur til ad hefja strídid, og rédist á Holsetaland, hertogi sá er þar rédi fyrir (Kristján) var mágur Karls konúngs. Karl brá skjótt vid, og fer til Sjálands med her manns, og býst ad setjast um Kaupmannahöfn, en svenskur, enskur og hollendskur skipafloti lagdist um sama mund fyrir borginni, og átti ad skjóta á hana. Sá Fridrik konúngur þá sitt óvænna, og samdi frid (vid hertogann) í Travendal 1700, og hét ad gánga úr sambandi móti Karli. Eptir þad snéri Karl móti hinum fjandmönnum sínum. Lönd þau er Svíar áttu med Eystrasalti, hafdi Pétur Keisari rádist á, og var settstur um Narvaborg med óvígum her. Þángad heldur nú Karl lidi sínu sem hradast til lids vid borgarmenn. Hann hafdi 8 þúsundir vopnadra manna, en Rússar þvínær 80 þúsundir. Þó rédi Karl til atlögu, og fékk mikinn sigur. Var þad bædi, ad Svíar voru hraustir í orrustum og hermenn miklir, enda voru Rússar í þá tíd litt æfdir vid vopn, og hershöfdíngjar þeirra ekki á eitt sáttir. Þá var og snæfok þann dag er þeir börd-ust, og áttu Rússar ad vega móti vedrinu. Í þess-

ari orrustu handtók Karl konúngur fleiri menn af Rúss- um enn hann sjálfur hafdi lidsmenn til. Sídan hélt hann til móts vid Agúst Konúng, þarsem hann sat um Rígaborg; lauk svo þeirra vidskiptum, ad Karl fékk sigur en Agúst flýdi sudur á Saxland; Vann Karl konúngur alt Pólínaland undir sig, og neyddi lands- menn til ad kjósa sér nýan konúng. Þeir kusu Stan- islás Lesinsky lendan mann, og einn hinn merkasta þar í landi. Skømmu seinna vard Agúst ad semja frid vid Svíakonúng í Altranstad, og affaladi hann sér þá kóngstign á Pólínalandi, samþykktist vali Stanisláfar, og lofadi ad framselja Patkúl, sendiherra Rússakeisara á Saxlandi, er ádur hafdi flúid burt úr Svíþjód, fyr- ir þad hann taladi máli lendra manna á Liflandi; en þad var á døgum Karls konúngs ens 11ta. Karl 12ti sýndi á Patkúl ena mestu grimd og lét hjólbrjóta hann til dauda.

Þá er Karl konúngur hafdi dvalist um hríd á Saxlandi og hvílt her sinn, hélt hann lidi sínu austur til Rússlands, hittust þeir Agúst konúngur í Dres- den á þeirri ferd. Þadan fór Karl austurum Pólína- land. Flýdu Rússar hvervetna undan, og Pétur keis- ari tók ad bjóda sættir. Tølum um þær í Moskó sagdi Karl. Héldu menn nú ad hann mundi stefna lidi sínu til Moskóar, en þad gjørdi hann ekki, held- ur hélt inni hérød þau er Ukraine heita, þókti mørg- um þad hid mesta órád, því þar voru eydimerkur stór- ar, og margar ófærur, en vegir engir; gjørdust lids- menn mjøg þjakadir af vistaskorti og vosbúd, og biladi

flest nema hugur Karls kongs. En því fór hann þessa leið, að hann hafði gjört samband við Mazeppu höfuðsmann Kósakka. Lofaði Mazeppa að koma til móts við hann með nógu liði og herbúnaði. Mazeppa kom og, en allslaus, og hafði keisarinn feingið fregn af fyrirætlan hans, og komst Mazeppa nauðuglega undan með nokkra menn. Annað óhapp þessu líkt vildi Karli til. Lövenhaupt hershöfðingi átti að koma til móts við hann með 15 þúsundir manna, og allskonar herbúnað; en Rússar gjörðu honum margar árásir á leiðinni, og varð hann loks að brenna farángur sinn allan, en komst með einar 6 þúsundir manna til Karls. Karl konúngur hélt enn áfram, og versnaði hagur hans æ því meir, hafði herinn ekki annað til matar enn brauð, lítt ætilegt. Það var einhverju sinni að einn af liðsmönnum sýndi konúngi brauðbita, og kvartaði yfir hvörsu hardt væri að hafa slíkt til matar. Þá mælti konúngur: slæmt er brauðið að sönnu, en borða má það. Karl gekk í allar þrautir til jafns við menn sína, og við það jókst þeim hugur og dugur. Um síðir kom hann til Púltava; í þeirri borg áttu Rússar forðabúr mikil og auðug. Sá Karl, að feingi hann tekið borgina, mundi hann aptur geta komið fótum undir herlið sitt, og ef til vildi, náð takmarki því er hann stefndi að. En hinsvegar vissi Pétur hvörsu áríðandi sér var að verja borgina, og hélt þángað sem hvatlegast með 70 þúsundir manns. Svíakonúngur hafði ekki þriðjúng liðsafla móti Rússum. Þó réði hann af að leggja til orrustu við þá. Konúngur var

sár á fæti, og gat ei setid á hesti og lét því bera sig á burdarstóli, og var hann skotinn undan honum. Svíar börđust djarflega, en lidsmunur var helzt til mikill, og urdu þeir ofurlidi bornir, vard Karl ad setjast á hest og flýa undan til þess ad falla eigi í hendur óvina sinna. Þar lét konúngur þrímer allan her sinn og hershöfdingja; voru menn hans ýmist högnir nidur í stráedur handteknir. Þessi orrusta vard 1709.

En þad er frá Karli ad segja ad hann flýr indan og sudur á Tyrkjalönd. Dvaldist hann þar í 5 ár, og lét ei af ad eggja Tyrkja móti Rússum, tókst þad og um sídir. Var þá sendiherra Rússa tekinn höndum, og settur í hid svónefnda Sjö-turna fángelsi, og vildu Torkjir med því jarteikna, ad þeir segdi Rússum stríd á hendur. Gjördu þeir nú út mikinn her á hendur Rússum og settu Stórvesírinn *), Baltaski Mehemet yfir hann. En Pétur keisari hélt lidi sínu til móts vid Torki; og allt sudur í Moldáar hérød. Vard honum nú slíkt hid sama á, sem ádur Karli konúngi, ad hann hætti sér lángt inní lönd óvina sinna. Og vissu Rússar ekki fyrri enn óvígur Tyrkja her umkríngdi þá öllumegin. En keisara vildi þad til, ad Katrín drottníng hans gaf þad rád er frelsadi hann úr þessum háska. Hún vissi ad Mehemet var madur fégjarn; safnar hún því öllum dýrgripum sínum og ser á hans fund, og beidist grida og fridar fyrir mann sinn, og bidur hann þiggja af sér dýrgripina. Tyrkjanum þókti fé fagurt og þádi. En Pétur hélt öllu lidi sínu í nádum heim á leid.

*) Stórvesír er ædsti rádgjafi Soldáns.

Pessi fridargjörd var sídan kénnd vid þorp eitt lítid þar í grénd, er heitir Húsí. Þetta fiéttir Karl konúngur og kémur litlu sídar til herbúda Tyrkja, og vard hann þá svo reidur Mehemet hershöfdíngja, ad hann krækti reidsporum sínum í skykkju hans og reif hana alla nidur í fald. Sídan reyndi Karl ad espa Tyrkja móti Rússum, en vard nú lítid ágengt. Loksins leiddist Tyrkjum dvöl hans þar í landi, og minntu hann á ad halda heim, en Karl lét sem hann heyrdi þad ekki. Þá tóku þeir til sinna ráda og vildu reka hann úr landi, en Karl lét ekki undan ad heldur, og sat enn sem fyrr. Tyrkir sendu her manns móti honum, en Karl bjóst ril várnar med heimilismönnum sínum. Þá vard eldur laus í húsi hans, og vildi hann forda sér í annad hús, en á leidinni krækust sporar hans í eltthvad, og féll hann vid. Tóku Tyrkir hann þá höndum, og sveid Karli þad sáran, þó var hann vel látinn af þeim, því þeir undrudust mjög hreysti hans. Um sídir bjóst hann þó til burtferdar, enda var þá og öll þörf á komu hans heima í Svíþjód. Eptir orrustuna vid Púltava höfdu óvinir hans gjört samband á ný móti honum. Agúst hafdi rekid Stanislás frá völdum á Pólínalandi; Danir herjad á Skáney; Rússar tekid öll skattlönd Svía fyrir sunnan Kyrjálabotn (Finnlands flóa). Svíar höfdu ekkert herlid heima. Ungir menn voru annadhvört fallnir í orrustum, edur sátu í dýblissum. Steinbokk hét einn ágætur hershöfdingi í Svíþjód. Hann safnadi ad sér bændum um Skáney, og voru þeir hvörki

vel að vopnum búnir, né heldur vanir orrustum; þeir börðust hjá Helsingjaborg í Skáney, og fengu bændur sigur, en Danir lögðu á flótta. En Danir létu ei við svobúið standa, en réðust á Svía suðurá Þýðskalandi. Þar var þá enn Steinbokk fyrir, og vann sigur á Dönum og Saxlendingum, hjá bæ þeim er Gadebúsk heitir, sá bær er í Meklenborg. Eptir það hélt hann liði sínu til Altónu, og lagði eld í borgina; vöknuðu bæarmenn við íllan draum og flýðu undan klæðlausir í grimdarkulda. Síðan hélt Steinbokk norðureptir Holsetalandi og fékk leyfi Kristjáns Lýbiku biskups, er þá hafði landstjórn á hendi í Hertogadæmunum (því hertoginn var barn að aldri) að halda liði sínu inní Tönningen. Þángað komu Danir og bandamenn þeirra með miklu liði, og settust um Svía, og varð Steinbokk að géfast upp fyrir þeim með 11 þúsundir manns. Hann var síðan settur í myrkvastofu í Kaupmannahöfn. Um þessar mundir gjörði Tordenskjöld, danskur herskipaforingi, Svíum mikinn skaða, áður hét hann Pétur Vessel, en Friðrik konúngur 4ði gaf honum þetta nafn, fyrir sakir hreysti sinnar og afreksverka. Nú voru og Engla og Prússakonúngar gengnir í sambandið móti Svíum.

Nú er að segja frá Karli 12ta er hann snéri heim úr Tyrkjalöndum og hélt áfram nætur og daga við annan mann, til þess er hann kom til Strælu (Stralsunds) á Vindlandi; hafði hann þá farið 280 mílur á hálfum mánuði. Í það mund sátu Danir og bandamenn þeirra um borgina. Borgarhliðum var lokað

upp fyrir Karli, og sýndi hann þar sem optar að hann kunni ekki að hræðast. Meðan hann dvaldist í borginni var það einhvörju sinni, að hann las skrifara sínum fyrir bréf og féll þá sprengiknöttur niður í næsta herbergi og sprakk, þá varð skrifarinn svo hræddur, að hann misti pennann úr hendi sér. Konúngur spyr hvað að honum gángi, en hinn fékk ekki öðru svarað en þessu: æ! knötturinn herra! Hvað kémur hann bréfinu við, mælti konúngur, og las honum fyrir eptir sem áður. Þegar Karl sá að borgarmenn mundu eigi géta varist, fór hann þaðan á smáskútu einni, og komst á svenska fregátu, en þó skutu Danir ákaft eptir honum frá víggyrðíngum sínum. Nú var ekki öll hætta úti með þessu, því Tordenskjöld var í hafinu (Eystrasalti) á herskipum, og hafði allan hug á að ná Karli á sitt vald. Allt fyrir það náði konúngur landi í Svíþjóð, og hugði nú helst að hefna sín á Dönum og Englismönnum. Við Pétur keisara ætlaði hann sér að semja frið, eptir ráðum vinar síns Görts barúns, en konúngur létst fyrr enn þessu yrði framgeingt. Karl bráutst um þessar mundir með her inní Noreg, og réðist á Fridrikshald, en Pétur Kolbjörnsson eggjaði bæarmenn til að brenna borgina, svo þeir gætu því betur varið Fridriksteins kastala. Varð Karl frá að hverfa, því Tordenskjöld brendi upp skip hans öll í Dýnekilshöfn, þar sem á var vistir og herbúnaður Svía. Nokkru seinna settist Karl aptur um kastalann, en eitt kvöld gékk hann að sjá hvað störfum manna miðaði. Förunautar hans stóðu litið eitt frá hon-

um. Þá reid af skot, og kom það í höfuð konúngi, og stóð hann uppvið brjóstvarnirnar og hafdi gripið til sverðs síns og var þá örendur er menn hans komu til. Leikur mjög efi á hvadan skotið kom, hvört heldur frá kastalanum, eda frá mönnum hans sjálfs. Eptir fall konúngs héldu Svíar burt úr Norégi. Kom þá til ríkis systir Karls könúngs, Ulrika Eleónóra, og afsaladi sér ádur eins ótakmörkudu valdi, og því er hast hafdi Karl enn 11ti. Litlu sídar fékk hún völdin í hendur manni sínum Fridriki af Hessen, med sámþykki þjódfulltrúanna, og var þá farid ad leita um sættir milli manna. Svíar sömdu frid vid Rússa í Nýstad, og létu af hendi vid þá Ingermannaland, Lífland og Estland, og Vébjargir á Finnlandi móti 2ur milliónum ríkisdala. Vid Dani sættust þeir í Fridarborg (1720), og urdu ad skuldbinda sig til ad borga Eyrarsundstoll (þ. e. toll af skipum sínum er færi um Eyrarsund); Greida Dönum 6 hundrud þúsundir ríkisdala, og heita ad styrkja ekki Holsetalands hertoga til valda í Slesvík, (það fylki höfdu Danir tekid medan ófridurinn stód), en Danir skiludu því aptur er þeir höfdu tekid medan á stridinu stód. Englismenn feingu Brímá og Verden, er þeir höfdu keypt af Dönum, en Danir höfdu einnig nád þeim borgum medan stridid stód. Þó vard Georg Engla konúngur ad greida Svíum 1a millión ríkisdala. Prússar feingu Stettínaborg og nokkurn hluta af Vindlandi (Pommern).

Þannig lauk þessu stridi, ad Svíar urdu mjög

undir. Bædi mistu þeir mörg og mikil skattlönd. Herlid þeirra var fallid í orrustum, og fjárhyrdslur ríkisins tómar, og olli Karl 12ti þeim óhöppum. Ad sönnu átti hann í fyrstu hendur sínar ad verja, en sigursæld hans framanaf gjördi hann fullan ofmetnadar: Hann vildi brjóta undir sig óvini sína, og ad sídustu brauzt hann öndverdur móti hamíngju sinni.

## Frá Pétri mikla.

Á dögum Karls 12ta Svíakonúngs rédi fyrir Rússlandi Pétur Czar hinn fyrsti, og er hans ádur ad nokkru getid. Fyrir þá tíd koma Rússar lítid vid málefni Nordurálfu búa, enda voru þeir og mjög á eptir ödrum þjódum í allri mentun. Fadir Péturs hét Alexius, og hafdi hann þegar byrjad á menníngu Rússa, en ordid lítid ágeingt. Alexíus átti þrjá sonu: Fedór, Ivan, og Pétur, og dóttur eina er Sofía hét. Fedór var eldstur þeirra brædra, og tók ríki eptir födur sinn, og var vitur madur og stjórnsamur eins og hann hafdi verid. Hann ríkti skamma stund, og kaus til ríkis eptir sig yngra bródur sinn Pétur, því honum þótti hann betur fallinn til höfdíngja enn Ivan. En Sofía systir þeirra, er sjálf vildi komast til valda, fékk hermannaflokk einn er Strelizar hétu, til ad gjöra uppreist, og kom því til leidar ad brædur hennar voru bádir til Czara teknir, en sjálf skyldi hún eiga þátt í stjórninni med þeim. Ekki leid á laungu, ádur henni þókti Pétur rádríkur, og stód henni ótti af honum, og reyndi því til ad ráda hann af dögum. En

hann fékk fregn af fyrirætlan hennar, safnadi mønnum sínum, tók Sofíu høndum og setti í klaustur, en settist sjálfur ad ríkjum. Ivan sagdi af sér vøldum en hélt þó Czars nafni til dauda. Skjótt sá Pétur ad þjód sinni var í mørgu ábótavant, og lét sér alla æfi vera mest um þad hugad, ad efla framfarir hennar í øllum greinum. Fyrst og fremst kom hann fótum undir herlid sitt, og sjálfur var hann fyrst undirfóríngi vid herinn, og komst svo smámsaman hærra, til þess ad vera lendum mønnum til fyrirmindar. Kaupverzlun og siglíngar lét hann sér mjøg annt um ad bæta, og í því skyni fór hann til Hollands, og lærdi þar skipasmídi í þorpi því er Zardammur heitir, þadan hélt hann til Englands, og fannst honum mjøg um skipasmídi Englismanna. Sídan hélt hann til Vínar, og ætladi þadan sudurá Feneyar, en þá kom honum sú fregn ad heiman, ad Sofía hefdi enn komid Strelizum til ad gjøra uppreist. Brá hann þá vid, og fór sem skjótast heimleidis. Gordon herfóríngi hafdi þegar unnid sigur á uppreistarmønnum er Czarinn kom heim, en hann lét nú refsa þeim þúnglega er hann kom sjálfur til. Hann lét leggja þá nidur vid høggstokka, mann vid mann í lángar radir, og hjó sjálfur høfud af sumum þeirra, því grimmur var Czarinn jafnan ødrum þrædi, þó hann bætti í mørgu sidu þjódar sinnar. Sídan afmádi hann med øllu þennan Streliza flokk. Í ófrid, þeim er hann átti vid Tyrki báru Rúsar hærra hlut og feingu Asófsborg sudur vid svarta haf. Þessu næst hófu þeir ófrid vid Svía, og veitti í

fyrstu mjøg erfidt. Orrustan hjá Narvaborg (1700) skaut Rússum mjøg skélk í bríngu, bidu þeir opt ósigur þó þeir væru lid fleiri. En Pétur lét aldrei hugfallast, og sagdi: Svíar vinna sigur á oss, þángadtil þeir kénna oss ad sigra sig, og hafdi hann rétt ad mæla. Sídan þegar Pétur leitadi um sættir, svaradi Karl konúngur, ad þeir skyldu tala um þær í Moskó. En Pétur lét sér ekki bilt vid verda og sagdi: Karl bródir minn þykist jafnan vera Alexander, en eg vona ad Daríus verdi ekki á vegi hans þar sem eg er. Litlu sídar vann Pétur og vinur hans Mensikoff sigur á Karli hjá Púltava (1709). Medan Karl 12ti var á Pólínalandi, tók Pétur ýms skattlønd frá Svíum, og reisti þá Pétursborg, er seinna vard høfudborg ríkisins, og einhvørr enn mesti verzlunarstadur vid Eystrasalt. Þá bygdi hann og Krónustad med ágætri høfn. Um þær mundir kynntist hann fyrst vid Katrínu er seinna vard drottníng hans. Hún var ættud af Liflandi og af lágum stigum, var handtekin af Rússum og komst í hús Menzikoffs. Þar sá Pétur hana fyrst, lagdi ástarhug á hana og giptist henni á laun. Sídan lagdi hún honum rádid góda, þegar Tyrkir komu honum í kreppuna, eins og ádur er sagt, en hann launadi henni því, ad hann tók hana sér til drottníngar, og gjørdi þad heyrum kunnugt. Hann var henni alleptirlátur og fór mjøg ad ordum hennar, þótt adrir menn rédu eingu vid hann. Med fyrri konu sinni átti Pétur þann son er Alexíus hét; hann ólst upp medal klerka, og hafdi hjá þeim lært, ad

allar nýbreytíngar födur síns væru skadsamlegar. Féll Pétri þad næsta illa, sem von var. Enda lét Alexíus menn skilja, ad hann mundi kollvarpa því öllu er fadir hans hafdi gjört, jafnsnart og hann væri setstur ad völdum. Loksins flýdi hann úr landi, en er hann kom heim aptur lét fadir hans nefnd manna rannsaka gjörd; ir hans, var hann dæmdur til dauda og dó í vard; haldi litlu sídar. Pétur eyddi mjög klerkavaldi í ríki sínu, og í stad ens volduga Patriarcha (erkifödurs) skipadi hann nokkra af embættismönnum sínum í nefnd til ad stýra andlegum málefnum ríkisins. Hann efldi kroptuglega vísindi, listir, og allt þad sem ordid gat þjódinni til framfara. Vid ríki sitt jók hann löndum öllumelgin. Eptir fridarsamníngin í Nýstad tók hann sér keisara nafn, og hafa einvaldar Rússa haldid því sídan. Pessi hinn mikli madur andadist 1725 á 3ja ári hins sjötta tugar. Tók þá vid ríkisstjórn drottn; íng hans Katrín 1ta, hún ríkti vel og sköruglega, en andadist ad tveggja ára fresti.

## Frá Fridriki enum mikla Prússa konúngi.

A ofanverdri seytjándu öld (frá 1640 til 1688) rédi fyrir Brandínaborg Fridrik Vilhjálmur kjör; fursti, hinn mikli, hann var hermadur mikill og hinn mesti stjórnarvitríngur, og jók ríki sitt á marga vegu. Kémur hann mjög vid sögu Lodvíks 14da og Karls 10da Svíakonúngs. Fridrik kjörfursti sonur hans, tók sér fyrstur konúngsnafn yfir Brandínaborg og enu Prússnesku hertogadæmi; og nefndi sig Fridrik 1ta,

hafa þau lønd síðan heitið Prúſsaríki eða Prúſsalønd (Preussen). Sonur hans Fridrik Vilhjálmur 1ti jók ríkið að løndum og var vitur maður og ſtjórnſamur, ſpar á fé og harður í ſkapi. Hann lét eptir ſig annuga ríkisſjóðu og mikinn her vel æfðan og vopnum búinn; kom Fridriki 2rum ſyni hans hvørttveggja í góðar þarfir. Í æſku ſinni átti Fridrik frábærlega hart hjá føður ſínum. Beiddiſt hann einhvørju ſinni að meiga fara úr landi, og kynna ſér aðrar þjóðir, en faðir hans tók því fjærri. Réði þá konúngsſon það af, að hlaupaſt á burt með kunníngjum ſínum 2ur, Keiti (Keit) og Katta (Katt). En konúngur frétti fyrirætlan þeirra, og lét taka þá høndum, ſon ſinn og Katta, en Keitir komſt undan. Katti var dæmdur til dauða og hálshøggvinn úti fyrir hallargluggum konúngsſonar, og honum ſkipað að horfa á, og vantaði lítið á, að þeir Katti færu eina før báðir. Fridrik 2ar kom til ríkis eptir lát føður ſíns 1740. Það ár, litlu ſíðar, andaðiſt Karl Þýðſkalands keiſari ſonur Leópolds keiſara; hann var ſeinaſtur af Habsborgar ætt, er ſetið hafði að ríkjum á Þýzkalandi 467 ár. Áður Karl keiſari lézt, ſetti hann þau løg (er kallaſt hin pragmatiſka ſanction), að dóttir ſín María Tereſía ſkyldi erfa ríki eptir ſig, og ſamþykktuſt fleſtir ſtjórnendur því í norðurálfu. En litlu eptir dauða Karls keiſara, krafðiſt Fridrik 2ar Prúſsakonúngur, af Maríu Tereſíu ýmſra héraða í Sleſíu, er hann þóktiſt eiga tilkall til frá fornu. Þeſsu neitaði María, en Fridrik hélt her ſínum inní Sleſíu, og Schverin hers-

höfdíngi hans og lærisveinn Evgens af Savojen, vann sigur á Austurríkis mönnum hjá Mollvits. Þá risu upp hinir adrir óvinir Maríu Teresíu: Karl Bæaralands kjörfursti þóktist vera rétt ad öllum erfdum hennar borinn, og fékk lidveitslu frá Frakklandi og Spáni. Frakkneskur og bæverskur her brauzt inní Bæheim, vard María ad flýa med Jósef son sinn til Ungaralands, og skoradi á landsmenn til lids vid sig. Þeir brugdu sverdum og sóru ad verja drottníngu sína medan nokkur þeirra stædi uppi. Vopnudust þeir nú þjódvæpni og ráku enn bæverska her af höndum sér, en María drottníng samdi frid vid Fridrik 2ann í Breslá og fékk honum í hendur mestalla Slesíu og greifadæmid Glaz. Karl kjörfursta, er um þessar mundir gjörst hafdi keisari, og kallad sig Karl enn 7da, ráku nú drottníngarmenn úr riki, og lét hann fyrirberast í Frakkafurdu vid Main. Frakkar urdu ad rýma Bæheim, og bidu sídan mikinn ósigur hjá Dettínga þorpi (Dettingen) fyrir Georgi 2rum Englakonúngi, er var einn af bandamönnum Maríu Teresíu. Nú tók Fridriki ödrum ad þykja nóg um sigursældir Austurríkismanna, og þókti eigi annad líklegra enn María drottníng mundi vilja ná aptur Slesíu, ef hún ynni sigur á öllum mótstödumönnum sínum. Fyrir þá sök rauf hann frid þann er hann hafdi samid vid drottníngu í Breslá, og gjördi samband vid Karl 7da og Frakkakonúng. Tókst nú ófridur ad nýu og fékk Fridrik sigur í tveim orrustum, á Austurríkismönnum hjá Háfafridbergi (Hohenfrjedberg) og Sorr. Sídan samdi hann frid vid drottn-

íngu í Dresden (1745) og sat flest við sama sem eptir Breslàar friðinn. Litlu síðar andaðist Karl 7di, og Frans af Toskana, maður Maríu Tereslu, var kjörinn til keisara yfir Þýzkalandi, og kallaður Frans 1ti. Var það síðan samþykkt á þínginu í Akkensborg 1748, er friður komst á; og þessu svonefnda Austurríkis erfðastríði linnti.

Eptir friðinn í Akkensborg var friður á Þýzkalandi í 8 ár, til þess er hið nafnkunna 7 ára stríð hófst. Friðrik hafði fengið fregn af miklu sambandi móti sér; en því var svo háttað: að María Teresía gat ekki gleymt því að Friðrik hafði náð Slesíu frá sér. Fyrir því fékk hún Elízabetu Rússadrottníngu, Loðvík 15da Frakkakonúng, Svíakonúng og kjörfurstann af Saxlandi í félag með sér til að skipta Rússalöndum milli sín. Þetta fregnar Friðrik konúngur; lætur hann nú spyrja Maríu Teresíu hvað hún hafi fyri stafni og hvað sá hinn mikli herbúníngur skuli. María gaf ekkert glöggt svar. Lét þá Friðrik her manns brjótast inná Saxland, og umkríngja hið saxneska herlið hjá Pirna. Var þá sendur her frá Austurríki til liðs við þá Saxana, en Friðrik vann sigur á Austurríkismönnum, og urðu þá Saxar að gefast upp litlu síðar; hélt Friðrik þeim nauðugum í her sínum og geingu þeir síðan í hópum undan merkjum hans. Síðan hélt Friðrik her sínum inní Bæheim, réðist á fjandmenn sína og fékk mikinn sigur hjá Prag, og átti hann mikið að þakka enum hugdjarfa Schwerin marskálki sínum. Prússar voru þvínær komnir á flótta, þá greip Schwe-

rin merkið, og hljóp á móti óvinunum og menn hans á eptir honum og feingu komið þeim á flótta, en Schverin kappinn féll, og hafði þá 2 um 70. Nú settist Friðrik konúngur um Prag, og mundu borgarmenn hafa orðið að gefast upp, ef aðrir hefðu eigi komið til liðs við þá. María drottníng sendi Dán (Daun) frægan hershöfðíngja með miklu liði til Pragar. Friðrik vildi ekki að hann skyldi koma til hjálpar við Pragarmenn, og fór því móti þeim, varð fundur þeirra hjá Kollín, tókst þar hinn harðasti bardagi, og er að því var komið að Dán léti síga undan, brást flótti í lið Prússa. Í bréfi einu er konúngur ritaði um þær mundir kémst hann svo að orði: Eg veit ekki hvört það má kallast minkun að verða undir, í viðskiptum við svo marga, og svo volduga fjandmenn, en hitt veit eg, að þeim er það lítil sæmd að sigrast á mér.

Meðan þessu fór fram höfðu fleiri af fjandmönnum Friðriks gripið til vopna móti honum. Frakkar höfðu haldið her sínum inní Hannofra ríki, og vann D' Etre hershöfðíngi þeirra sigur á Englismönnum, er voru þeir einustu bandamenn Friðriks, undir herstjórn hertogans af Kúmberlandi. Varð hertoginn að semja frið í Seven klaustri og senda herlið sitt frá sér. En Frakkar héldu her sínum austur á leið til Saxlands. Í það mund héldu Rússar herliði sínu austanað Prússalöndum, Apraxín og Fermór voru fyrir þeim; þeir höfðu óslíandi her, og eyddu bygðum með hinni mestu grimd. Levald hét einn herforíngi Prússa-

hann rédist móti Rúsum og átti við þá orrustu, en fékk ósigur. Nú voru Prúsalönd varnarlaus fyrir fjandmönnum sínum og var eigi annað sýnna enn útgjört mundi um ríki Friðriks konúngs. Þá héldu og Svíar her sínum norðan frá Strælu á hendur konúngi, og hafði hann ekki lið að senda móti þeim. En það er frá Friðriki að segja, að hann lætur eptir nokkurn hluta liðsmanna til varnar móti Austurríkismönnum, en sjálfur fer hann sem fugl flýgi vesturá Saxland móti Frakka her, og þjóðliðinu*) (Rigsarmeen), hittir þá hjá Roßbakk, vinnur þar frægann sigur, og flýa Frakkar og þjóðlið í allar áttir, og þóktu þeir síðan hvörirtveggju eingir garpar. Þetta var nálægt vetur-nóttum 1757, 5ta Nóv. A meðan höfðu þeir Karl af Lótringen og Dán brotist inní Slesíu. Þángað heldur nú Friðrik og vinnur á þeim sigur hjá Leuthen mestann og frægastann í öllum sínum orrustum. Austurríkismenn voru 80 þúsundir, en Prúsar höfðu lið hálfu minna. Þar tók Friðrik höndum frekar 30 þúsundir manna, og 134 fallbyssur, en naumast 20 þúsundir komust undan suðurá Bæheimaland. Var nú Friðrik konúngur óvinum sínum miklu óttalegri enn nokkrusinni áður. Rúsar höfðu eptir orrustuna við Levald, haldið austurá Pólínaland. Snéri þá Levald móti Svíum og rak þá norðurað Strælu. Arið eptir héldt Friðrik til móts við Rúsa, þeir hittust hjá Zornþorpi (Zorndorf), Friðrik hafði 37 þúsundir manna,

*) Þjóðlið þetta höfðu ýmsir höfðingjar á Þýðskalandi gjört út eptir áeggjan Austurríkis keisara, móti Friðriki Prúsa konúngi.

Rúſsar voru 70 þúſundir, og tókſt þar hin grimmaſta orruſta og ſtód í tvo daga. Konúngur var þá ſvo reid-ur ad hann bannadi ad géfa nokkrum Rúſsneſkum manni grid, ſlíkt hid ſama gjørdu og Rúſsar. Um ſíd-ir tóku fylkingar Rúſsa ad ridlaſt, gjørdiſt þá ógurlegt mannfall í lidi þeirra, og lauk ſvo, ad þeir urdu und-an ad hrøkkva, en 19 þúſundir lágu daudar eptir. Padan hélt Fridrik til Saxlands móti Auſturríkis-mønnum. Konúngur hafdi ſett herbúdir ſínar hjá Hákyrkju (Hochkirchen) þar ſem ekki var vígi gott. Pá mælti einn af hershøfdíngjum hans, er Keitir hét: Láti Auſturríkismenn oſs hér í fridi, þá eiga þeir heingingu ſkilid. Eg vona, ſvaradi konúngur, ad þeir óttiſt oſs meira enn gálgann. En þad bráſt honum. Pegar nótt var komin rédiſt Dán á herbúdir Prúſsa, urdu ſumir af þeim ſvo naumt fyrir, ad þeir gátu ekki vopnaſt, urdu þeir þar ofurlida born-ir en Dán tók herbúdir þeirra. Samt høfdu Auſtur-ríkismenn lítil not af þeſsum ſigri, því Fridrik ónýtti jafnan fyrirætlan þeirra med rádum ſínum. Ár 1759 vann Ferdínand Brúnsvíkur hertogi mikinn ſigur á Frøkkum hjá Minden. En Fridrik lét ſér þá meſt um þad hugad ad banna Rúſsum og Auſtrríkis-mønnum ad ſlá ſaman lidi ſínu. Pá var Soltikóf fyrir Rúſsa hér, en Ládon (Laudon) fyrir Auſtur-ríkismønnum. Ládon var einhvør enn meſti hers-høfdíngi er þá var uppi, hann var føddur á Líflandi og vildi fyrſt komaſt í lid hjá Prúſsum, en þeir vildu ekki vid honum taka, og fór hann þá til Auſturríkis-

manna, og vard þeim hinn þarfasti. Fridrik rédist á Prússa hjá Kúnnars þorpi (Kunnersdorf), og hafdi þvínær feingid sigur, en þá kom Ládon til, med ó: þreyttu lidi; réttist þá vid bardaginn, og fekk Kon: úngur svo mikid manntjón, ad eptir bardagann hafdi hann vart 5 þúsundir manna um sig. Hefir Fridrik svo sjálfur frásagt, ad útgjört mundi um sig, ef Rúss: ar hefdu kunnad ad neyta sigursins. En ad þeir hafi ekki verid sem best til reika eptir bardagann, má ráda af bréfi Soltikófs til Elízabethar dróttníngar: þar segir svo: vinni eg adra eins orrustu til, þá verd eg ad taka mér staf í hønd, og gánga sjálfur til Pétursborgar, til ad segja tídindin. Arid eptir (1760) vann Fridrik sigur yfir Ládon hjá Lignitz og snéri eptir þad móti Rússum og Austur: ríkis mønnum, er þá voru komnir til Berlínar, en þeir bidu ekki komu hans, og flýdu til Saxlands og Póllnalands. Nú dróg sortann yfir Saxland. Frid: riki þókti mikid undir því komid ad missa ekki þad land; og fyrir því eitir hann fjándmenn sína þángad, og berst vid þá hjá Torgá og fékk sigur. Í þeirri orr: ustu vard Daun hershøfdingi sár. En þó Fridrik kon: úngur væri hid mesta afbragd allra herhøfdingja, og ynni margann frægann sigur, þarf ekki ad undra þó honum tæki nú ad veita flest erfidara enn ádur, kapp: ar hans voru margir fallnir og ekki var til annard ad leita um lidveitslu edur styrk, sídan Georg 2ar, Engla: konúngur féll frá. Georg 3ji, eptirmadur hans, var spar á ad senda Prússum penínga styrk og hætti loks

með öllu. Aptur á móti voru óvinir hans svo marg-mennir og audugir, að þess gætti lítið þó þeir félli hópum saman fyrir Prússum, þókti mönnum nú auð-sært, að bráðum mundi á enda vörn og ríki Frið-riks konúngs.

Þá geingu forlögin í lið með konúngi og réttu hluta hans. Elízabet Rússadrottníng andaðist, á önd-verðu ári 1762. Pétur hinn 3ji er eptir hana tók ríki, var hinn mesti vinur Friðriks, og sendi strax menn sína til liðs við Prússakonúng. En það stóð ekki leingi. Pétur keisari var settur frá völdum og drepinn í myrkrastofu eptir undirlagi Katrínar (annarar) konu sinnar, en herveitum þeim sagt heim að koma er með Prússum voru. Þó vildi Katrín 2ur hvorki hætta mönnum sínum né fé vegna Austurríkis. Og Austur-ríkismenn æsktu jafnvel friðar, eptirað Friðrik konúng, ur hafði náð aptur Schweidnitz, og Hinrik bróðir hans unnið orrustuna hjá Freibergi. Í öllum þess-um ófriði voru Svíar svo aðgjörðalitlir að á friðar-samkomunni kvaðst Friðrik konúngur ekki vita, að þeir hefði átt í höggi við sig.

Seint um síðir komst friður á í 7 ára stríðinu. 1763 var friðarsamníngur gjörður í Hubertsborg á Saxlandi. Breslár- og Dresdenar-friðurinn voru staðfestir og Friðrik misti ekki þverfótarbreidd af landi sínu, og undrum mátti það gegna að strax ept-ir friðinn, hjálpaði konúngur við þeim héröðum í ríki sínu, með peníngastyrk, er verst voru leikin í stríðinu. Og mátti nú sjá að hann kunni ekki síður að stjórna í

stridi enn í stríði. Hann var ydjumadur mikill og hinn réttvísasti konúngur, unni vísindum og ydkadi þau sjálfur, og hafdi mikil mök vid lærdustu menn þeirra tíma, einkum var Volteri í miklum kjærleikum vid hann og var lengi vid hird hans. Arid 1772 var Pólínalandi skipt í fyrsta sinn, og átti Fridrik konúngur annar, þar hlut ad máli. Katrín Rússadrottníng hafdi sendt her manns inná Lithaugaland (Lithauen). En Austurríkis keisari inní Gallisíu. Lét því Prússa konúngur herlid sitt setjast ad í Nez hérødum, og í þeim hluta Pólínalands nema Dansvík (Danzig) og Torn, er seinna nefndist Vestprússaland.

Þegar kjörfurstinn á Bæaralandi var dáinn (1777), og Austurríkis menn vildu kasta eign sinni á landid, mælti Fridrik konúngur á móti því, til þess ad þeir yrdu ekki miklu voldugri enn adrar þjódir á Þýdskalandi, og sem þad dugdi ekki, bjó konúngur herlid sitt. Þá létu Austurríkis menn undan, og samdi Jósef keisari 2, sonur Frans og Maríu Teresíu, frid í Teschen (1779) og hætti krøfum sínum. Einusinni eptir þad, vard Fridrik konúngur ad rísa móti Austurríkis keisara, er þá vildi hafa skipti á því er hann átti af Nidurløndum fyrir Bæaraland. Hefdi keisarinn aukist mjøg ad veldi, ef þessu hefdi ordid framgeingt, fyrir því fekk Prússakonúngur komid til leidar, enn svonefnda Høfdíngjasambandi. Tilgángur þess var ad vernda réttindi Þjódverja fyrir keisaranum, og vard því ekki af skiptunum. Litlu sídar (1786) deydi

Fridrik 2. Pókti hann hafa verid flestum konúngum meiri, og vard hann þjód sinni mjøg harmdaudur.

## Frá Katrínu Annari Rússadrottníngu, Páli fyrsta og Alexander fyrsta.

Rússland hefir frá því á døgum Péturs mikla, og frammá øndverda vora øld magnast svo mjøg, ad þad má telja med mestu ríkjum Nordurálfunnar. Hefir Katrín 2ur átt þar mestan þátt í. Hún var ættud frá Anhalt-Zerbst, giptist enum rússneska stórfursta og keisaraefni, Karli Pétri Ulriki, og tók þá ena grísku trú, er Rússar fylgja. Opt átti Katrín hørdu ad mæta af manni sínum, og vóx af því sundurþikkja mikil med þeim. Enn þegar Elizabeth drottníng dóttir Péturs mikla andadist (1762), kom Pétur hinn 3ji med því nafni til ríkis; hann vard mjøg óvinsæll af alþýdu fyrir því ad hann helt med Fridriki 2um Prússakonúngi, og fór í ýmsu ekki varlega. Parámóti vann Katrín hvørs manns hylli med mildi sinni og lítilæti. Þetta hagnýtti hún sér, brautst til valda og rak Pétur mann sinn frá ríkjum; hafdi hann þá vidbúnad mikinn og ætladi ad fæera Dønum stríd á hendur. Litlu sídar lét hún drepa hann í myrkrastofu (1762). Nú var Katrín ordin einvøld yfir Rússlandi, og vard fræg af ríkisstjórn sinni. Tveim árum eptir ad hún kom til ríkis, lét hún velja Stanislás Poniatóvsky vin sinn, til Konúngs á Pólinalandi, eptir andlát Agústs konúngs enns 3ja. Med þessu móti fekk hún hønd med í þjódmálefnum Pólskra manna. Um þær mundir voru trú-

arbragða deilur miklar þar í landi, millum tveggja flokka, Katólskra og Dissidenta (Prótestanta og Grikkja). Urðu enir síðarnefndu fyrir grimmum ofsóknum af Katólskum, en Katrín dróttníng tók taum þeirra, og sendi her manns til Pólínalands. Þá sórust Katólskir menn í félag (Conföderatio) móti Rússum, og nokkrir þeirra tóku konúng sinn höndum, og höfðu með sér burt úr Varská (Varschau). En sem þeir voru komnir skamt eitt frá borginni, mættu þeir herflokkum rússneskum, létu þeir þá konúnginn lausan, og einn mann eptir hjá honum, og sá kom honum til mylnu einnar þar í grend, og þaðan komst hann heim til Varskáar. Þessar óeirðir ollu því, að Prússar og Austurríkismenn sendu her á Pólínaland, og skiptu þeir og Rússar í félagsskap með sér landinu (1772). Katrín fekk mestallt Lithaugaland, Friðrik annar, Vestprússaland einsog áður er sagt, Maria Terezja Gallizíu og Lóðómeríu. Þetta var hið fyrsta dæmi til þess á seinni tímum að drottnunargyrnin blygðunarlaust traðkaði rétti heillrar þjóðar og einstöku manna. Nokkrir af enum Katólsku samsærismönnum höfðu flúið til Tyrkjaveldis og leitað þar hælis. Mústafa hinum 3ja Tyrkja Soldáni þókti nóg um aðgjörðir Rússa, á Pólínalandi, og sagði þeim stríð á hendur (1768). Stóð sá ófriður yfir í 6 ár, börðust Tyrkir djarflega, en urðu þó undir, og sást nú hve ógurlegt Rússaveldi var orðið. Rússar héldu flota sínum innum Njörfasund (Gíbraltar), og hittu herskip Tyrkja undir Skíey (Scio) og börðust þar; héldu Tyrkir undan inn á Tesmevík, en tveim dögum

seinnna komu Rússar þar, og brendu upp øll skip fyrir Tyrkjum nema eitt. Elfingstan og Spiritóv hétu skipaforíngjar Rússa. Um þessar mundir geysadi ógurleg drepsótt á Rússlandi og í Tyrkjaløndum. Loksins sømdu þessar þjódir frid í Kútschuk Kainardschi, skyldu Rússar vera frjálsir ferda sinna um Ellipalta og Svartahaf, eignast Assófsborg og ýmsar borgir á Krímskaga, þarmed skyldi þetta land, er ádur hafdi verid Tyrkjum hád, vera laust vid þá. Af þessum fridarsamníngi kviknadi aptur ófridur vid Tyrkji. Høfdíngi þeirra Tataranna á Krím, gaf sig undir vernd Rússa, ístad þess ad eiga med sig sjálfur einsog til var ætlast, og Heraklíus høfudsmadur Georgíulands gaf sig einnig á vald Rússa, og gjørdi Tyrkjum margt til skapraunar.

Katrín drottníng og Jósef 2ar Þýzkalands keisari áttu þá og fund med sér, og þókti Tyrkjum þad ískyggilegt, og søgdu þeir Rússum stríd á hendur. Urdu Rússar heim sigursælir enn sem fyrri. Pótemkín vinur Katrínar, og hinn grimmi Súvaróv unnu margar borgir af Tyrkjum. t. a. m. Oczakóv Bender og Ismail. Stórvesírinn beid ósigur; lág vid sjálft ad Rússar héldu lidi sínu allt sudur til Miklagards, voru nú líka Austurríkismenn komnir til søgunnar undir herstjórn enns fræga Ládons. En Rússar gátu ekki beitt sér vid Tyrki eins og þeim bjó í skapi, því um samaleiti rédist Gustaf 3ji Svíakonúngur á þá, en Prússar litu øfundar augum til Austurríkismanna. Var því saminn fridur millum Austurríkis og Tyrkja í

Siflóva, skildu þeir Tyrkjum flestu aptur er þeir höfdu tekid, og millí Rúsá og Tyrkja í Jassy, feingu Rúsar Oczakóv og landid umhverfis, en Dnísterfljót skyldi adgreina lönd þeirra. Krímlendíngar geingu allir undir Rúsá. Medan þessu fór fram þokudust Pólínalandsmenn smámsaman nær endalykt sinni. Þegar en fyrstu skipti voru gjörd (1772), gáfu Rúsar landsmönnum nýa stjórnarlögun, kvíknadi af því mjög hatur þeirra á Rúsum. Medan á ófridnum stód vid Tyrki, leitudust Pólskir menn vid ad rýmka um frelsi sitt, og sömdu nýa stjórnarskrá og kollvörpudu þeirri er Rúsar höfdu gjört þeim. Var þar ákvedid ad ríkisstjórn skyldi, eptir dauda Stanislás konúngs, gánga í erfdir í enn saxneska ættlegg, og herlidi skyldi fjölga allt ad 100 þúsundum manna. Fridrik Vilhjálmur 2ar Prúsákonúngur, hét Pólökkum ad styrkja þá, ef Rúsar vildu leita á þá. Af því vard þó ekki, og þegar Rúsar ad nýu kostudu eign sinni á nokkud af landinu, gjördi Prúsakonúngur slíkt hid sama, og lýsti því yfir, ad hann yrdi ad gjöra þad til þess ad ekki kveiktist í ríki sínu frelsis andi Pólínalands. Þanníg var landinu skipt í annad sinn (1793). Rúsar gjördu þar alla hina sömu stjórnarlögun og hid fyrra sinnid, og þad med, ad fækka skyldi herlidi Pólakka allt ad 16000. Þá laust upp ófridinum. Voru margir drepnir af Rúsum í Varská höfudborg Pólínalands, en adrir hrukku undan. Kosciúskó hét einn ágætur herhöfdingi á Pólínalandi, hann hafdi barist fyrir frelsi Sambandsríkjanna í Vesturálfu, og nád

mikilli frægð. Hann gjørðist oddviti landsmanna, og hét að verja frelsi ættjarðar sinnar meðan hann stæði uppi. En við ofurefli var að etja þarsem Rúsar voru. Súvaróv og Repnín héldu Rúsa her inná Lithaugaland, og unnu sigur á uppreistarmønnum. Síðan stefnir Súvaróv liði sínu til Varskár, en Kosciúskó heldur til móts við hann, og bar fundum þeirra saman hjá Maczeivits; høfðu Rúsar lið hálfu fleira. Þar tókst hin grimmasta orrusta, og lauk svo að Kosciúskó var lostinn mikið høgg aptaná høfuðið, hneig hann þá til jarðar, og í því bili kallar hann hátt: **Finis Poloniæ!** þ. e. Nú er úti um Pólínaland. Var hann þá handtekinn og fluttur til Pétursborgar, og hafður í varðhaldi til þess er Páll keisari kom til ríkis og gaf honum lausn. En Súvaróv heldur til Varskár eptir handtekningu Kosciúskós, tekur borgina og drepur allt hvað fyrir verður, konur sem kalla, gamla menn og únga. Skiptu þá Rúsar, Prúsar og Austurríkismenn landinu með sér í síðasta sinni (1795). En Stanislás konúngur lagði niður konúngdóminn eptir boðum Katrínar drottníngar, og andaðist litlu síðar í Pétursborg.

Í ófriði þeim er Katrín átti við Svía høfðu ýmsir betur. Meðan Tyrkjastríðið stóð, hafði Gustaf hinn 3ji Svíakonúngur, ráðist á lønd Katrínar drottníngar, og mundi honum hafa orðið vel ágeingt hefði yfirmenn hans við herinn hlýdt honum. En lendir menn undu illa að konúngur hafði takmarkað veldi ríkisráðsins, en aukið sitt, og neitudu fylgd sinni móti

Rúsfum. Feingu þá Rússar ráðrúm, og gátu frelsað Pétursborg. Danir hösðu gjört samband við Rússa, og réðust í það mund á Gautaborg í Svíþjóð, var þar lítil vörn fyrir. Þá geingu Enskir menn á millum, og sömdu Danir frið. Svíar áttu um þetta leiti nokkrar sjóorrustur við Rússa. Það var þá einhvörju sinni að herskip Svía voru kvíuð inni á Vebjargar sundi við Finnland, en komust út með mestu harðfeingi og manuraun. Litlu síðar átti Gustaf konúngur orrustu við Rússa, og lagði í eyði flest öll skip þeirra, og tók 6000 Rússa höndum. Var þá saminn friður í Verela-borg, og allt látið sitja við sama og verið hafði. Þegar konúngur kom heim aptur til Stokkhólms, sórust nokkrir lendir menn í félag, til að myrða hann; og tveim árum seinna (1792), var konúngur að einum grímuleik, (Maskeradi) í borginni, og var þá skotinn til bana af einum af samsærismönnum, er Ankarström hét, og dó með miklum harmkvælum að 13 dögum liðnum.

Katrín Rússadrottníng styrkti framfarir ríkis síns á marga vegu, efldi vísindi, reisti yfir 200 borgir, bauð útlendum mönnum til landsvistar í ríki sínu, og samdi nýja lögbók; en drottnunargyrni hennar stofnaði ríkinu opt í vanda, og svipti margan mann lífi. Katrín drottníng andaðist 1796. Kom þá til ríkis Páll keisari sonur hennar; hann gjörði á ýmsu breytingar, en þókti vera í meira lagi skapstyggur; og ógætinn í ráðlagi sínu, varð hann því mjög óvinsæll af alþýðu. Í fyrstu gjörði hann samband við Austurríkismenn og

Breta móti Frøkkum, og sendi þá herhøfdingja sinn Súvaróv sudrá Italíu, og fékk hann þar mikinn ordstýr; en þegar minnst vardi, snérist Páll keisara hugur, og gjørdi samband vid Svía og Dani móti Bretum. Fyrir þá sök gjørdi Bretakonúngur út flota mikinn, og sendi Nelson med, frægan herskipaforíngja, til Eystrasalts. Rédist Nelson á skipaflota Dana, þar sem hann lág litt búinn fyrir Kaupmannahøfn, stód þar hinn nafnkunni Skírdags bardagi, (2. April 1801). Vørdust Danir vel og drengilega, en feingu þó mikid tjón á mønnum og skipum. Um þessar mundir dó Páll Rússakeisari snøgglega. Kom þá til ríkis Alexander keisari sonur hans, og samdi hann frid vid Bretakonúng, og slíkt hid sama gjørdu Svíar og Danir litlu sídar. Alexander var mildur høfdíngi, og lagdi allan hug á ad efla hag þegna sinna. Verdur enn nokkud frá honum sagt í søgu Napóleons keisara.

## Frá því er Nýlendumenn í Vesturálfu hófu uppreist móti Bretum, og brutust til frelsis. Og frá Bretum í Austur-Indíum, og ødru.

Öndverdlega á 17du øld tóku enskir menn ad sigla vestur um haf, og nema lønd í nyrdri hluta Vesturálfu. Fjølgudu þeir ódum er þángad fluttu búferlum, því jáfnan var þá róstusamt á Englandi af deilum manna um stjórnaréttindi, og trúarbrøgd, en landskostir voru sagdir gódir á enn nýa landi. Landnáms menn þessir áttu í fyrstu erfidt uppdráttar, og

höfdu fullt í fángi ad verjast árásum villiþjóða, er þar bjuggu fyrir í landi, og ekki gátu þeir goldið Engla-konúngi skatt. En smámsaman jókst svo velmegun nýlendumanna, vid kaupverzlun og ýmsa útvegu þeirra, að Englismenn fóru að gefa þeim meiri gaum enn áður. Þá var það leidt í lög á Englandi, að nýlendumenn skyldu sæta nokkrum nýum álögum, skyldu þeir medal annars kaupa konúng-merktan pappír (stimpladan pappír), og ekki annad tegras hafa, enn það er þeir keyptu af enu indversku verlzunarfélagi í Lundúnum. Nýlendumönnum þókti sem var, að þetta væru ólög, og kváðust því að eins mundu gegna nokkrum álögum af hendi Breta, að þeir fengi að senda fulltrúa til þjóðarþíngs á Englandi. Urdu margir til enskir menn að tala máli Vestmanna; medal annara Kattamur lávardur (Pitt enn eldri). En því var ekki gaumur gefinn. Þá laust upp ófridinum í Vesturálfu; ráku landsmenn vída af höndum sér tollheimtumenn Breta, lögdu pappírinn á eld og brendu, var þá pappírs lögmálid látið nidurfalla, en tegras skráin standa vid lidi. En þá tóku Vestmenn sig saman um að kaupa ekki tegras. Enskir menn sendu samt nokkur skip, med þann varníng, til Bostúns, en þá geingu bæarmenn í dularklædum á skip út, og köstudu 327 tekistum fyrir bord. Var það hinn mesti skadi, og krøfdust enir ensku fulltrúar skadabóta. Var þá Gage hershöfdíngi sendur med her manns af Bretlandi, til Bostúns, skyldi hann halda borginni umspenntri til þess er skadinn væri endurgoldinn. Nú tóku Vestmenn

ad æsa sig vid vopn, neitudu krøsu Breta, og létu hardt mæta hørdu. Þrettán fylki gengu þá í féiag, og stefndu allsherjarþíng i Bræðraborg (Filadelfia), 5ta Sept. 1774. Skyldi þángad koma fulltrúar úr hvørju fylki, og rádgast um þad sem øll fylkin vardadi. Þá var því fyrst lýst yfir á þínginu, ad Vestmenn søgdu sig úr øllu verzlunarfélagi vid enska menn. Þvínæst var iandsmønnum bodid ad vopnast þjódvæpni, reisa vigi og stofna fordabúr. En þá høfdu menn ekki barist, en þegar Gage skipadi ad fella fordabúr nokkur í grend vid Bosrún, þá gripu landsmenn vopn sín, og børdust vid Breta hjá þorpi einu, er Lexíngtún heitir. Þad kom fyrir ekki, ad Kattamur lávardur (Lord Chatam) rédi enni ensku stjórn, ad sættast vid Vestmenn, og segdi: ad þad væri henni eins ofvaxid ad kúga þá til hlýdni vid sig, eins og honum ad reka undan sér alla málstofumenn, med hækju sinni. Rádherrarnir kvádust ekki annad vilja, enn sjá Vestmenn flara fyrir fótum sér. Var þá iidsafnadur mikill, og ýmsir smáhøfdíngjar á Þýzkalandi seldu þegna sína á mála, enskum mønnum. Sendu þeir nú mikid iid til Vesturálfu. Hershøfdíngjar Breta voru þeir Klinton, Hósi og Bargini (Burgoyne). Skyldi Klinton rádast á sudurfylkin; Hósi á midløndin, en Bargini ad nordan. Um þessar mundir kjøru Vestmenn Georg Vashington til ædsta hershøfdíngja síns. Hann var en mesta hetja, og enn vitrasti madur, hugprúdur og þrautgódur í øllum mannraunum, hinn vopndjarfasti madur, en þó vel stillrur, mildur og lítiiátur vid hvørn

mann. Var þad bædi ad Washington hafdi flesta kosti til ad bera, enda þurfti hánn og þessa alls vid, þar sem hann átti í höggl vid Englismenn, ena hraustustu þjód og vana órrustum og sem aldrei þraut fé til hvørs sem vera skyldi. En Vestmenn voru félitlir, og litt vanir hernadi. Veitti nú enskum mønnum betur í fyrstu, en frelsis ándi og samheldni og atorka Vestmanna, gjørdi þá ad lyktum sigursæla. Nálægt midju sumri 4da Júlí 1776, lýstu 13 af nýlendu fylkjunum því yfir: ad þau væru frjáls þadanaf, og laus allra mála vid Breta. Arid eptir, nálægt vetur-nóttum vann Geitir (Gates) herforingi nýlendumanna sigur á Bárgíni, og tók hann sjálfan høndum og lid hans allt. Þegar sú fregn barst til Nordurálfu, viðurkenndi Frakkakonúngur frelsi Bandafylkjanna, og sendi þeim herskipaflota, og 6000 landhers, til lidveizlu; ádur høfdu einstøku menn farid af sjálfsdádum úr Nordurálfu, til ad berjast med Vestmønnum, t. a. m. Kosciúskó. Hinn vídfrægi La Faiette hafdi af eginn kaunmleik gjørt út skip, og fór sjálfur med, og gekk Vashingtóni til annarar handar í rádum og dád.

Sá madur sem mest og best gekkst fyrir því, ad útvega Bandafylkjunum lidveizlu hjá Frøkkum, hét Benjamín Franklín *), einhvør hinn frægasti madur á jørdu. Hann var sá sem fann upp þrumuleidirinn, er menn veita med þrumueldi þángad sem vera skal. Því var um hann kvedid versid latínska: eripuit

*) Æfisøgu Franklíns hefir Jón Sigurdsson íslenzkad, en hid íslenzka bókmentafélag gefid út í Kmh. 1839.

cælo fulmen, sceptrumque tyrannis. Þ. e. hann dróg þrumueldinn niður úr loptinu, og veldissprotann úr höndum harðstjóranna.

Auk þess sem Frakkar skáruſt í leikinn með Vestmönnum, tóku Spánverjar og Hollendíngar málstað þeirra, kreppti þá heldur að Bretum, og eyddu þeir ærnu fé til útgjörðar herliði síns. Að sönnu vann Rodney, ennskur herskipa foríngi, sigur á frakkneskum skipaflota í Vestur-Indíum, og tók sjálfan foríngjann, er Gráse hét, höndum, en samt mistu Bretar þar ýmsar eyar, og Spánverjar tóku frá þeim nokkra kastala á Misisippí-fljóts bökkum. Svo tóku og Spánverjar Minorku, er þeir höfðu mist í erfðastríðinu spánverska (1713). En Gíbraltar kastala á Spáni feingu þeir ekki unnið. Sóktu Frakkar og Spánverjar að, og voru saman 100 þúsundir manna, á 49 línuskipum, og í sundvirkjum (svømmende Batterier), er þakin voru korki og uxahúðum, mátti veita vatni um þau öll og slökkva ef eldur kviknaði í. Í virkjunum voru 154 fallbyssur. Voru þau hið mesta furðuverk, og héldu menn þau væru óvinnandi. Elliót hét sá er varði kastalann, og gjörði skothríð svo harða á virkin, að í þeim kviknaði, og feingu menn ekki slökkt eldinn. Hefði þar farist hvørt mannsbarn er á var, ef Bretar hefðu eigi komið úr kastalanum og bjargað þeim, sýndu þeir með því drengskap mikinn og eðallyndi. Urðu þá Frakkar og Spánverjar frá að hverfa.

Nú víkur sögunni aptur til Vesturálfu. Bretar

høfdu lagt undir sig Gyrgisland (Georgiu). og Klin-
ton hafdi tekid borg þá er Karlstún heitir, í Karól-
inu enni sydri. Þar skyldi hann eptir Kornvallis
lávard, med her manns, en hélt sjálfur nordur eptir,
til móts vid Vashington. Kornvallis fór herskyldi
yfir øll nálæg hérød. En er minnst vardi kom Vas-
hington og La Fayette ad honum, þar sem heitir í
Jórvíkurtúni og tóku Lávardinn høndum og lid
hans allt. Vid þetta atvik urdu Bandafylkin frjáls.
Bretar urdu vonlausir um ad kúga þau aptur til hlýdni
vid sig, og kom þar, ad þeir fóru ad tala um sættir.
Seint um sídir komst fridur á í Versølum (Versailles)
1783. Vidurkénndu þá Bretar: ad bandafylkin í
Vesturálfu væru frjáls; létu af hendi vid Frakka
nokkrar eyar í Vestur-Indíum, og Flórídu og
Minorku vid Spánverja. Frá þeim tíma hafa
bandafylkin ad mestu leiti, notid fridar, og nád mik-
illi velgengni; aukist ad mannfjølda, verzlun og audæf-
um. Vashington frelsishetjan, var kjørinn til lands-
stjóra, og stýrdi hann landinu med sama viturleik og
ádur herlidinu. Sídan þá tíd hafa bandafylkin fjølg-
ad, svo nú eru þau 25 ad tølu.

Í þessum ófridi mistu Bretar mørg lønd og mik-
il, en þeir unnu þad upp aptur á ødrum stødum.
Laungu fyrr enn ófridurinn hófst vid Vestmenn, høfdu
Bretar átt lønd í Austur-Indíum. Á midri 18du
øld vann Klíve lávardur Kalkútta, borg þar í
landi, af bengalskum høfdingja, vard hún skjótt mikil
og audug, og høfudborg í landeignum Breta í Aust-

urálfu. Síðan hafa þeir farið þar herskyldi yfir mørg lønd og þjóðir. Ríki hinns mikla Mógúls, er einn af eptirkomendum Tamerlans hafdi stofnað, unnu indverskir høfdingjar, og feingu Bretar nokkurn hluta af því. Enginn af høfdingjum þessara austurheims þjóða, varðist ensknm mønnum eins leingi og Hýder Alí, Mýsóra konúngur, og Tippó Saib sonur hans. Um síðir unnu Bretar sigur á honum og drápu, en tóku Seringapatnam høfuðborgina í ríki hans. Þeir hafa einnig unnið lønd undan Maratta þjóðum og Birmønnum fyrir austan Gangesfljót. Segja menn að Bretar láti sér fremur annt um, að rækta auðæfum saman í løndum þessum, enn efla þar alþjóðlega velgeingni.

Bretar eru enir mestu landnámamenn, og er Kókur (James Cook) einkum frægur orðinn af ferðum sínum. Hann sigldi þrísvar umhverfis jarðarknøttinn (frá 1768 til 1779), fann mørg eylønd og eyar í Suðurhafsálfu (Ástralía), og kannaði betur það, er aðrir høfðu fundið fyrir hann. Hann sigldi umhverfis Nýa Holland og Nýa Sæland. Hann fór og norður um sund það, er skilur Vesturálfu frá Austurálfu, og síðan er við hann kennt. Kókur féll á Sandvíkur-eyum 1779, í ey þeirri er Ovaíhí heitir, er skipverjar hans deildu við eyarbúa. Síðan hafa ýmsir menn farið af Bretlandi í landaleitir, og orðið frægir af, en oflángt yrði hér frá þeim að segja.

## Frá Stjórnarbiltingunni miklu á Frakklandi.

Af øllum þeim atburdum er ordid hafa á seinni tímum med þjódunum, hefir einginn ollad svo mørgum og svo fórkostlegum breytingum sem stjórnarbiltíngin mikla á Frakklandi. En rætur hennar liggja lángt að, má þeirra leita þegar á døgum Lodvíks ens 14da. Þar sem ofríki hans og ójøfnudur olli því, ad Frakkar létu aldrei adrar þjódir í fridi, og eyddu fyrir þá søk ó-grynni fjár. Komst þá ríkid í stór skuldir, er stórum jukust medan Lodvík 15di sat ad vøldum. Þá voru og sidir ordnir mjøg spilltir í landinu, medal ædri manna og lægri. Lodvík 16di hafdi ad sønnu allan vilja á ad hrynda þessu í lag en fékk ekki adgjørt. Drottníng hans og hirdin eyddu øllu, enda var og konúngur of eptirlátur í mørgu. Var þá ýmsra bragda leitad til ad grynna á skuldum ríkisins, og létta skattum á þjódinni. Ríkinu voru settir fjárhaldsmenn (Finants-minister) hver af ødrum, en allt kom fyrir ekki. Skuld-irnar jukust ár frá ári. Þókti konúngi þá sem einu úrrædin mundu vera, ad kvedja menn til ens svo nefnda høfdingjafundar *) (sammenkalde Notablerne), og bidja þá hjálpar (1786). En þeir brugdust líka. Var þá ekki annad eptir enn skora á þjódina sjálfa til lids og trausts, og stefndi konúngur til allsherjarþings ad Ver-sølum (1789).

*) Til þessa þings kvaddi konúngur 140 manns, af lend-um mønnum, klerkum og borgurum.

Nú sýndi það sig fyrst að með þjóðinni var vakn- nd lifandi tilfinníng, bædi af því, sem hún hafði illt þolað, og líka af hinu, hvaða réttindi hún átti; og hvorju hún mundi sá afkostað. Hjá stórvæglegri um- biltíngu varð ekki komist. Hefðu enir skynsömustu af þjóðinni gétað ráðið við, mundi stjórnarbiltíngin hafa orðið fljótgjörð og að öllu leiti heillaðrjúg, en bædi þekkingarskortur, mannvondska, ædi skrílsins, og mót- spyrna stórmenna og útlendra höfðíngja olli því að hún varð svo óttaleg sem kunnugt er orðið.

Á þíngimu í Versölum urðu menn ekki á eitt sátt- ir. Loksins lýsti borgarastéttin því yfir, að hún sjálf væri aðal þjóðfundur (Nationalforsamling). Fylltu þá margir þann flokk af klerkum og eðal mönn- um. Má einkum meðal þeirra nefna Seyes ábóta, hinn viltrasta mann, Mirabeau (Mýrabó) greifa, nafn- frægann mælskn mann La Fayette hershöfðingja og Talleyrand stjórnarvitríng. Áttu þessir menn mikinn þátt í stjórnarbiltíngunni. En er konúngur sá hvar komið var, hugði hann að kúga menn til hlýðni við sig, en þá gripu menn í Parísarborg til vopna, og brutu upp dýblissuna miklu (Bastillen), þar sátu margir saklausir menn frá fyrri tíðum. Tilsjónarmaður dýblissu þessarar var drepinn, og höfuð hans borið í stg- urhröst um borgar strætin. Þjóðfundarmenn tóku nú að breyta mörgu: tign og réttindi lendra manna voru aftekin, klerkalíðurinn skyldi fylgja sömu lögum sem al- þýðan, konúngs veldið var takmarkað, og landinu skipt í fylki (Department). Undu margir illa slíkum breyt-

íngum, einkum klerkar og lendir menn, og leitudn marg-ir af landi burt (Emigranter). Voru brædur Lodvíks konúngs í þeim flokki, en sjálfur vard konúngur ad þola margar skapraunir af skrílnum, er opt var svo æf-ur ad Þjódvørdurinn (Nationalgarden) og La Fayette foríngi hans rédu eingu vid. Þá tók konúngur þad ráð ad flýa, en nádist á leidinni, og var fluttur til Parísarborgar, og vard þá ad sverja, ad hann skyldi fylgja stjórnarskrá (Constitution) þeirri, er þá var fyrir hann løgd. En skríllinn lét ekki sefast ad held-ur, og fór ad konúngi í høll sinni, drap vardmenn hans, tók hann høndum, og setti í hinn svo nefnda musteristurn. Þá voru og margir af konúngsmønn-um vegnir í myrkvastofum, einkum 3ja og 4da dag Septembers mánadar 1792 (af því myndudu menn ord-id: ad septembrisera). Þó var einn flokkur manna miklu ákafastur af øllum fjandmønnum konúngs, var sá kénndur vid eitt forut og nidurlagt Jakobs klaust-ur, og kalladur Jakobs flokkur. Voru einkum teknir menn af þeim flokki í hid nýa Þjódstjórnarrád (Na-tionalconvent), er nú var tilsett, og sem lýsti því yfir, ad Frakkland væri Þjódveldi (fríveldi, Republik), og hóf nýtt tímatal frá 21ta degi Septemb. mán. 1792. Þessunæst var høfdad mál á móti konúngi, en honum þó leyft ad kjósa sér svaramann. Vard kon-úngur sekur landráda madur, og var dæmdur til dauda. Hann var leiddur undir Gvillotíns axir *), og høggv-

*) Þetta nafnkunna mordverkfæri (Guillotinen) er kénnt vid

inn 21ta Jan. 1793. Bráðum hóst sundurþykkja með þeim er sátu í þjóðstjórnar ráðinu. Var flokkur **Jakobs manna** ákafari, en **Gironda menn**, (þeir voru flestir frá Gironda héraði) stilltari. Svo fór, að Jakobsmenn höfðu betur, og létu höndla Girondamenn og drepa. Þá var það að **Róbespierri**, maun niðingurinn, náði mestum völdum, og gjörðist böðull þjóðar sinnar; hann grunaði hvörn mann um svik, og lét drepa alla sem hann náði til. Svillotins öxin var jafnan á lofti, og aftökustaðurinn flaut í blóði. **María Antonetta** drottning, systir Jósefs Austurríkis keisara, og **Elísabet**, systir Loðvíks 16da, voru báðar teknar af lífi. Tóku menn þá, á ýmsum stöðum á **Frakklandi**, að gjöra uppreist móti Jakobs mönnum, einkum í **Lýonsborg** og á **Vendibygð** (Vendée). En þeir sættu enum grimmustu refsíngum, og vildi Róbespierri láta rísa Lýonsborg niður til grunna, og á Vendibygð voru menn drepnir hrönnum. Þjóðstjórnarráðið sendi þángað þann mann er **Karrier** hét, og fór hann fram með ofboðslegri grimmd. Meðal annars lét hann binda saman 2 og 2 menn, kall og konu, og snúa bökum saman og kasta í vatn; kallaði hann það: **Þjóðveldis kvonfáng.** Um síðir þókti mönnum grimmd Róbespierra gánga úr hófi, og gjörðu samtök móti honum, var hann þá gripinn, ákærður fyrir harðstjórn og tekinn af lífi í Júlí mánuði 1794. Tímabil það sem hann réði mestu á Frakklandi, kölluðu menn: **Voða-**

Svillotin læknir, er réði mönnum til að brúka það aptur, en það hafði þá leingi legið kyrrt.

tímann (Skrækperiode, Terrorisme). Helztu aðstoðarmenn Róbespierra voru þeir Danton og Marat. Marat var drepinn af konu þeirri er Karlotta Korday hét, en Danton eptir boðum Róbespierra.

Eptir daga Róbespierra var ný stjórn upptekin á Frakklandi 1795. Þjóðstjórnar ráðið lagði niður störf sín, en skipaði áður mönnum í 2 nefndir. Var önnur þeirra kölluð: Öldúnga ráð, þar sátu í 250 manns, og einginn yngri enn fertugur að aldri. Hin hét: Yngri manna ráð, þar sátu í 500 manns, og einginn yngri enn þrjátýgi ára. Skyldu hvorirtveggju nefndarmenn hafa löggjöf á hendi (den lovgivende Magt). En framkvæmdarvaldið (den udøvende Magt) höfðu 5 menn (Directorer, forstöðumenn), er kalla mætti: Landsstjóra, og stjórn þeirra: Fimm manna stjórn, (Directoriet).

Meðan þessu fór fram á Frakklandi, voru Frakkar komnir í stríð við flestar þjóðir í Norðurálfu, og veitti jafnan betur. Margir af þeim er flúið höfðu úr landi þegar stjórnarbiltíngin hófst, eggjuðu aðrar þjóðir til hefnda. María Antónetta drottníng (er Frakkar höfðu tekið af lífi) var systir Jósefs Austurríkis keisara. Hann andaðist 1790. Tók þá ekki eptir hann, Leopold annar, bróðir hans. Friðrik Vilhjálmur 2ar Prússakonúngur, og Leopold keisari áttu fund með sér í Pillnizborg, og ráðgjörðu að senda herlið á hendur Frökkum, og sefa óstrið landsmanna. En sem Frakkar sáu að ekki varð komist hjá stríði, sögðu þeir Franzi keisara öðrum, er kom til ríkis eptir Leopold keisara

födur sinn (1792) stríd á hendur. Héldu nú Prússar og Austurríkis menn lidi sínu til Fraklands, undir herstjórn Ferdínands Brúnsvíkur hertoga, hann var frægur hershöfdingi úr sjö ára strídinu. Stefndi hinn útlendi her til Parísarborgar, og mætti í fyrstu lítilli mótvörn, en brádum tók annad vid. Ferdínand hertogi hafdi gjört sér í huga, ad Frakkar mundu enn vera likir því sem þeir voru í 7 ára strídinu, en þad brágst honum. Dumouriez hét einn frakknéskur hershöfdingi. Hann fór med her í móti hertoganum, og bördust Frakkar svo djarflega, ad sambandsherinn vard ad halda undan, en Frakkar eltu þá til Nidurlanda, tóku landsmenn þar fegins hendi vid Frökkum, því þeir undu ílla yfirrádum Austurríkis manna. Hafdi þar jafnvel ordid uppreisn á dögum Jósefs keisara, fyrir sakir breytínga þeirra er hann gjördi á ýmsu, og einkum komu nidur á klerkunum. Leópold hafdi ad sönnu fridad þá aptur, en allt fyrir þad gripu þeir tækifærid þegar þad fékkst, til ad sameina sig vid óvini Austurríkis manna. Dumouriez átti orrustu vid Austurríkis menn hjá Jemappa þorpi, (6ta Nóv. 1792), og lagdi undir sig þad er þeir áttu á Nidurlöndum (Belgíalönd). En ári sídar beid hann ósigur hjá Neervindi, og misti þá ordstýr sinn, því hann vildi þá gánga í félag med Austurríkis mönnum, og halda lidi sínu til Parísarborgar, og koma á aptur konúngsvaldi; en lidsmenn vildu eigi fylgja honum. Vard hann þá ad flýja til Austurríkis manna til þess ad komast hjá lífláti. Árid 1793 þegar Frakkar höfdu tekid af líf konúng sinn,

gjørdu 5 þjóðir samband sín á milli móti Frøkkum. Það voru: Bretar, Hollendíngar, Spánverjar, Italir og Þjóðverjar, (1 Coalition); áður áttu bæði Prúsar og Austurríkis menn í stríði við Frakka. En þó fjandmenn þessir væru bæði margir og voldugir, veitti þó Frøkkum jafnan betur. Bretar tóku að sønnu Toulonsborg, og herskip Frakka, þau er þar lágu fyrir, en skømmu seinna urðu þeir að hverfa þaðan aptur. Spánverjar héldu norður yfir Pýrenæafjøll, og tóku nokkrar borgir á Frakklandi, en Dugommier, frakkneskur hershøfðíngi vann þær allar aptur af Spánverjum, og elti þá suður yfir fjøll, átti við þá orrustur á Spáni og féll þar, þó feingu Frakkar sigur. Sømdu þá Spánverjar frið við þá í Basel, um miðsumarsleiti 1795. Létu Frakkar laus lønd þau er þeir høfðu tekið frá þeim, og feingu þann hluta af St. Domingó-ey, er Spánverjar høfðu átt*). Gjørðu þá Spánverjar samband við Frakka og stóð það lengi síðan. Eptir að Prúsar og Austurríkis menn høfðu leingi átt í óeyrðum við Frakka, og einatt veitt erfiðt, og beðið ósigur fyrir enum frakknesku herforingjum Jourdan og Pichegru, sømdu Prúsar frið í Basel, sama sumarið sem Spánverjar. Skyldu Prúsar láta laust það er þeir áttu fyrir vestan Riná, en fá aptur skaðabætur, þegar almennur friður kæmist á. Svo skyldi

*) Frakkar høfðu lítil not af þeirri eyu, Blokkumenn gjørðu uppreisn, og eptir margar styrjaldir brutust þeir undan veldi Frakka. Foringjar blokkumanna hétu: Toussaint, Dessalines og Kristófer. er hvør tók við eptir annan.

og Prúsśakonúngur sjá um að Norður Þýzkaland héldi frið við Frakka.

Eingu miður gekk Frøkkum á Hollandi. Undir árslokin 1794 voru ísaløg þar í landi, og gekk Pichegru með liði sínu á ísum yfir fljót og ár, sem þar eru víða. Lagði hann landið allt undir sig, en landstjórinn, Vilhjálmur 5ti frá Óraníu, flýði yfir til Englands. Var síðan Holland kallað Bataviu þjóðveldi, og stjórnarform allt lagað eptir því sem þá var á Frakklandi, og gjørðu þessi tvø ríki félagskap með sér. Fyrir þá søk hófst ófriður milli Hollendínga og Breta. Mistu þá Hollendíngar margar af nýlendum sínum, og allan herskipaflota sinn, sem hinn enski herskipaforíngi Dúnkan lagði í eyði við Hollands strendur.

Bretar, Austurríkis menn og Þjóðverjar héldu áfram ófriði við Frakka. Var fimm manna stjórnin á Frakklandi einkum heppin með að velja herhøfðíngja, t. a. m. Moreau (Moró), en þó einkum Bónaparte, sem lángt bar af øllum øðrum herhøfðíngjum þótt miklir væru.

## Frá Napóleoni Bónaparte.

Hann er fæddur á Korsíku-ey, í borg þeirri er Ajaccio heitir, 15da dag Agústi mánaðar 1769. Þegar í barnæsku hans, bar á því að eitthvað mikið bjó í honum; var það eitt, að hann vildi ná Korsíku undan Frøkkum og gjøra að fríveldi. Hann kom á únga aldra til Frakklands, og var settur þar í foríngjaskóla, lagði hann þar mesta stund á mælíngafræði,

og allar þær vísindagreinir er herforingjar þurfa að nema. Þegar Frakkar náðu aptur Toulonsborg úr höndum enskra manna, sýndi Bónaparte með hugviti sínu og hreysti, að hann var hið besta foringja efni, enda varð borgin unnin með hans ráðum. Dugomier hershöfðingja fannst svo mikið til um hann, að hann ritaði ríkisstjórninni í Parísarborg, biður hana gjöra Bónaparte að hersveitarforingja (Brigadegeneral), og segir meðal annars; launið vel þessum manni og látið hann ná að framast, því ef þér gjörið það ekki, mun hann gjöra það sjálfur. Nokkru síðar styrkti Bónaparte landstjórana kröftuglega, til að sefa óeyrðir nokkrar í Parísarborg. Í Marts mánuði 1796 var hann settur yfir herlið Frakka á Italíu. Var það að sönnu hið tignarlegasta embætti, en því fylgdi einnig mikill vandi og hætta. Herliðið skorti allt, klæði, vistir og fé, en við ofurefli að etja þar sem Austurríkis- og Sardiníu menn höfðu bæði mikið lið og vel búið, og stýrðu því enir æfðustu hershöfðingjar. Þá urðu einhverjir til að segja við Bónaparte: að nú feingi hann að reyna sig við gamla hershöfðingja; en hann svaraði: að ári liðnu verð eg einnig orðinn gamall, eður að öðrum kosti fallinn.

Þegar hann hafði tekið við herstjórn á Italíu urðu skjót umskipti, vann hann hvørn sigurinn á fætur öðrum. Varð Sardiníu konúngur að beiðast friðar og láta af hendi við Frakka, hertogadæmið Savojen, og greifadæmið Nizza. Þannig afrekaði Bónaparte það á 14 dögum, sem stjórnin frakkneska gat ekki til leiðar

komid á 3 árum. Nú gat hann betur snúist vid Austurríkis mønnum. Hélt hann þá lidi sínu austur á Lángbardaland (Lombardiet) til móts vid þá, þar átti hann mannskæda orrustu hjá Lódíbrú á Addelfu og fekk sigur. Eptir þá orrustu gekk Lángbardaland allt á hans vald, nema hin rambygda Mantúaborg; um hana var barist af miklum ákafa. Wørdu Austurríkis menn, en Frakkar sóktu ad. Fjórumsinnum sendi keisarinn her manns til lids vid borgina; en Bónaparte og herforíngjar hans: Augereau (Osjeró) og Masseна, unnu alla þá herskara og eyddu þeim (hjá Arkole, Rivóli, Kastiglióne og Róveredo). Vard Mantua loksins ad gefast upp. Þar feingu Frakkar 500 fallbissur og annan herbúnad, en veittu hershøfdíngjum keisara heimfararleifi vid nokkra menn. Í øllum þeim løndum sem Bónaparte hafdi brotid undir sig á Efri Italíu, setti hann nýa stjórn, og sameinadi í eitt ríki er hann kalladi: hid Cisalplendska þjódveldi (den Cisalpinske Republik). Seinna var þad kallad: hid ítalska.

Medan þessu fór fram á Italíu, héldu þeir Moreau og Jourdan (Sjúrdan) lidi sínu, yfir Rínà, austur á Þýzkalandi, og er ad því var komid ad þeir mundi sameina hvorutveggja herinn, rédist Karl erkihertogi, Leópoldsson bródir Franz keisara, ad Jourdani, og vann sigur á honum. Vard þá Moreau ad halda lidi sínu aptur vestur yfir Rínà. Vard hann mjøg frægur af þeirri ferd, og hafa menn líkt honum vid Senófon hinn grízka. Þannig frelsadi

Karl erkihertogi Pýzkaland í það sinni. Hélt hann síðan til móts við Bónaparte, er þá hafði lagt undir sig alla efri Ítalíu, einsog áður er sagt. En þó Karl væri afbragðs hershöfðingi, þurfti hann ekki að reyna sig við Bónaparte. Og þegar fundum þeirra bar saman, varð hertoginn að láta síga undan. Nú hélt og Moreau aptur liði sínu austur yfir Rínå. Þókti Franzi keisara þá óvænlega áhorfast, og samdi frið við Frakka í Kampo Formio (1797, 17 Októb.). Lét keisarinn af hendi til Frakka: Belgjalönd, og til ens Elsalplendska þjóðveldis, það er hann átti af Lángbarðaríki, en fekk aptur mestan hluta af Feneya þjóðveldi. Þetta hið forna og volduga ríki hafði ætlað sér að berjast mótí Frökkum, en þeir urðu fyrri til, og sendu þángað her manns, og kollvörpuðu ríkisstjórninni. Slík afdrif hlaut Genúa-þjóðveldi, er nú fekk frakkneska stjórnarlögun, og nefndist: Liguríu þjóðveldi (Ligurische Republik). Eyar þær 7 er liggja í Jóna hafi, urðu þjóðveldi og sjálfra sín ráðandi, en áður lágu þær undir Feneyar. Þetta ár, undir árslokin hófst samkoma mikil í Rastað, var þar leitað um sættir milli Frakka og Þjóðverja.

Litlu eptir friðargjörðina í Kampo Formió (um vorið 1798), var Bónaparte sendur með 40,000 hermanna til Egyptalands, til að fá þar skaðabætur fyrir nýlendur þær, er Bretar höfðu tekið frá Frökkum í öðrum heimsálfum, og að því er sumir segja, til að ráðast þaðan á landeignir Breta í Austur-Indíum. Bónaparte lagði út frá Toulonsborg, kom við Malt-ey

á leiðinni, og lagði hana undir Frakka. Hélt síðan til Egyptalands, og gjörði herhlaup á Alexandersborg, og tók hana. Paðan stefndi hann liðinu til Kairo, høfuðborgar landsins; réðust þá Mamelúkkar til móts við hann. Peir voru hið frœknasta riddaralið í heimi. Bónaparte átti við þá nokkrar orrustur og fekk í øllum sigur. Síðan tók hann Kairoborg, og bjuggu þar fyrir 300 þúsundir manna. Meðan þessu fór fram, var hinn viðfrægi enski herskipaforíngi Nelson farinn af stað að leita herskipa þeirra enna frakknesku er lagt høfðu út frá Toulonsborg. Nelson tók aptur Maltey, og hitti loks flotann á Abúkírshøfn við Egyptaland (1 Agúst 1798). Tókst þar strax einhvør hin mesta sjóorrusta í øllum þessum ófriði. Pegar orrustan stóð sem hæzt, læsti eldurinn sig í púðurhúsið á enu frakknesku foríngjaskipi (Admiralskip). Pað bar 120 fallbyssur, og 1000 manns. Skipið flaug í lopt upp, varð þá brestur svo mikill að landið skalf umhverfis, en hvoritveggju herinn hætti bardaganum um stund. Par fekk Nelson sigur, en Frakkar létu skip sín øll, nema 4 er undan komust. Af siglutré ens frakkneska foríngjaskips eignaðist Nelson líkkistu sína er hann hafði jafnan með sér síðan. Eptir orrustuna hjá Abúkír, hættu að sønnu allar samgaungur milli Frakklands og hersins á Egyptalandi, en Bónaparte fór þó øllu sínu fram sem áður. Hann herjaði á Sýrland, og settist um Akraborg (Acre), en varð frá að hverfa við svobúið. Og með því honum kom sú fregn af Frakklandi, að þar væri ráð manna á reiki, en herinn beðið ósigur

bædi á Þýzkalandi og á Italíu, þá rédi hann þad af, ad setja Kleber hershøfdíngja yfir herinn á Egyptalandi, en fara sjálfur heim aptur til Frakklands. Var þad hin mesta hætta, því Bretar hofdu þá fjølda herskipa í Midjardarhafi, og héldu njósnum hvørjir færu um hafid. Komst Bónaparte fram hjá óvinum sínum heilu og høldnu til Frakklands (9da Oct. 1799). Fékk þá bædi ríkisstjórn og hernadur Frakka adra stefnu, vid komu hans.

Fundinum í Radstad var slitid, fyrir því menn gátu ekki ordid á eitt sáttir*). Frakkar høfdu smeigt sér inní málefni Sveizalands, og þraungvad landsmønnum til ad taka upp nýa stjórnarløgun, og feingu vid þad fótfestu í landinu. Slíkt hid sama høfdu þeir gjørt í Páfaløndum (Kirkestaten) á Italíu. Ad lønnu hafdi Bónaparte samid frid vid Páfa, og páfinn látid hann fá Avignon og þó meira, en allt fyrir þad voru margir óánægdir í Rómaborg, og vildu fá þjódveldisstjórn. Hófst þá uppreistin, og féll Dúfót hershøfdingi, mágsefni Bónaparta. Vard þad tilefni til þess ad Frakkar tóku Rómaborg, stofnsettu þar rómverskt þjódveldi, en høfdu Píus páfa, enn 6ta, áttrædann úiann, til Frakklands, og þar deydi hann.

Þá gjørdu Austurríkis menn samband vid Rússa,

*) Þá ee sendiherrar Frakka snéru heim af fundinum í Radstad, og voru skamt eitt komnir, rédust ad þeim vopnadir menn í dularklædum, og drápu 2 af þeim, en 1 komst undan. Vissir menn aldrei hvørjir unnid høfdu þetta nídings verk, en illa mæltist fyrir því, sem von var.

Breta, Tyrki og Neapels menn (2 Coalition). Höfu Neapelsmenn ófridinn, og héldu her sínum til Róms. Hvíkuldu Frakkar þá undan, en ekki þó leingi. Makdonald og adrir herhöfdíngjar þeirra, snéruſt vid Neapelsmønnum, og unnu á þeim ſigur. Makk hét ſá er þeim ſtýrdi, herhöfdíngi Auſturríkis keiſara. Frakkar færdu ſér í nyt ſigurinn, og héldu til Neapelsborgar. Var þar hid meſta ſtjórnleyſi fyrir. Makk vard jafnvel ad flýa á nádir Frakka, til þeſs ad falla ekki fyrir mordvópnum Neapelsmanna. Konúngur þeirra flýdi til Sikileyar, en Rampionet herhöfdíngi Frakka tók Neapelsborg, og átti ádur hatda orruſtu vid Lazaróna „þorparana, ſem eyda lífsſtundum ſínum í leti og ómennſku". Þar ſettu Frakkar á ſtofn nýtt þjódveldi, og nefndu þad: parþena þjódveldi (Meylendíngarîki, Partenopæiſke Republik). En þad ríki vard ekki lángliſt. Um þær mundir høfdu og Frakkar herlid á Sardiníalandi, því þeir grunudu landsmenn um ſamtök vid óvini ſína. Vard konúngur þeirra ad flýa útí Sardínar ey, og ſettiſt ad í Kagliarborg. En Frakkar bjuggu ſkamma ſtund ad ſigri þeſsum. Rúſsar og Auſturríkis menn ſigruduſt á þeim í mørgum orruſtum, og unnu þvínær alla Italíu undan þeim. Atti hinn grimmi Súvaróv Rúſsaforíngi, mikinn þátt í því. Þá kom og nýr páfi til ríkis, Píus hinn 7di med því nafni, og allt var ſett í ſama horf ſem ádur. Eptir þad vildu Rúſsar og Auſturríkismenn, reka Frakka úr Sveizalondum. Karl erkihertogi brauzt þángad, en Masſena tók djarflega á móti, þó nádi Karl allt

ad því hálfu landinu úr höndum honum. Á ødrum stad brutust inn í Sveiz, Korsakov med Rússa her og Hoze med Austurríkis her. En þar snérist Massena svo kallmannlega vid, ad Hoze féll, en Korsakóv misti nálega allt sitt lid, og flýdi nordur yfir Riná. Litlu eptir þad kom Súvaróv ad sunnan med her sinn, og sem hann fréttir ófarir landa sinna, treystist hann ekki ad leggja til bardaga vid Massena, heldur beygdi hann vid austur á leid og hélt svo nordur á Pýzkaland. Voru Frakkar jafnan í hælum hans, en Súvaróv bardi allt frá sér sem nærri honum kom, og braust leid sína. Eptir þad áttu Rússar lengi ekki í orrustum vid Frakka. Olli því fæd sú er gjørdist med Páli Rússakeisara og Bretakonúngi. Pótti keisara Bretum ekki hafa farist ofvel vid rússneskan herflokk, er ásamt þeim gjørdi landgaungu á Holland *). Auk þessa þótti honum þad vid Breta, ad þeir vildu eigi fá honum aptur Maltey, þótt hann væri kjørinn Kirkhøfdíngi (Stormester) Jóhannesar riddara. Litlu sídar sagdi hann Bretum stríd á hendur.

Frakkar máttu ad mestu leiti kenna Fimm manna stjórninni um óhøpp sín í þessu strídi. Var þad

*) Seint á sumri 1799, rédu Bretar og Rússar til landgaungu á Holland, og voru saman 25000 manna, undir herstjórn Jórvíkur hertoga. Þar kom Brúne herhøfdingi til móts vid þá med Frakka her, og átti vid þá orrustu, lauk svo, ad Frakkar tóku enn rússneska foringja høndum, og marga menn med honum, og litlu sídar vard hertoginn ad gefast upp fyrir Frøkkum, en fékk þó heimfarar leifi, med því skilyrdi ad 8000 Frakka, er sátu herteknir á Englandi, feingi lausn.

bædi, að hún var sjálfri sér sundurþykk, og hafði litla fyrirhyggju fyrir að herinn hefði það hann viðþurfti, enda bar þjóðin lítið traust til hennar. Var þá mikill kurr á Frakklandi.

Nú er að segja frá því að Bónaparte kémur apt-ur af Egyptalandi. Er það þá eitt hið fyrsta sem hann aðhefst, að hann kollvarpar landstjórunum (Fimm manna stjórninni) með ráðum og aðstoð hins fræga Sey-esar og Lúcians bróður síns. Mætti Bónaparte all mikilli mótstöðu, og vantaði lítið á, að það yrði hans bani. Þegar hann kom inn í ráðherra salinn, þar sem enir yngri ráðherrar sátu, æptu menn að honum og sögðu: Vertu á brott hardstjóri! Hopaði hann þá út úr salnum, og hét á liðsmenn sína. Ryðjast þeir inn í salinn, með alvæpni, en ráðherrar hrukku út um gluggana. Þetta varð tíðinda 10 Nóv. 1799. Fimm vikum síðar höfðu menn samið nýa stjórnarskrá. Þar var svo ákveðið: að 3 menn, er nefndust ræðismenn (Consules), skyldu stýra ríkinu. Þau völd skyldu þeir hafa 10 ár. Hinn æðsti af ræðismönnum þessum hafði þvínær ótakmarkað veldi. Og mátti fremur kalla Frakkland einvaldsríki enn þjóðveldi. Napóleon Bónaparte varð æðsti ræðismaður; hinir tveir: Cam-baceres og Lebrun, voru fremur vottar hans, enn valdabræður. Nokkru síðar var Bónaparta heitið ræð-ismanns völdum æfilángt. Þegar Bónaparte hafði koll-varpað Fimm manna stjórninni, og var sjálfur kominn til æðstu valda, var það hans hið fyrsta, að safna liði og frelsa Massena herhöfðingja, þar sem hann

sat í Genúaborg, umkríngdur af Austurríkis mønnum. Þá var það, að hann fór sem Hanníbal fordum með her sinn yfir Mundíafjøll (Alpes). Kom Austurríkis mønnum það mjøg á óvart og høfðu nú viðbúnað á móti. Á fáum døgum vakti Bónaparte aptur til lífs hið Cisalplendska þjóðveldi. En um það leiti varð Massena að gefast upp í Genúaborg, og var þá ógurlega aðþreyngður af húngri. Høfðu Austurríkis menn ráðgjørt að hætta umsátrinu og hverfa frá, þann dag sem Massena gafst upp. Melas Yfirhershøfðíngi Austurríkis keisara, á Italíu, bjóst um þessar mundir að halda með her manns vestur á Frakkland, en sem honum kémur sú fregn, að Bónaparte er kominn suður yfir Myndíafjøll, og tekur hvørja borgina á fætur annari, bregður hann við og heldur til móts við hann, varð fundur þeirra á Marengóvøllum (14. Jún. 1800), tókst þar en harðasta orrusta, og er menn høfðu lengi barist, og bardaganum tók að halla á Frakka, kom Desaix (Deses) hershøfðíngi að, með óþreyttu liði, og réðist á enn vinstra fylkíngararm Austurríkis manna, brast þá flótti í lið þeirra, og feingu Frakkar sigur. Sú orrusta stóð 13 stundir. Desaix varð sár til ólífis þegar í øndverðu áhlaupinu. Þá mælti hann til eins af féløgum sínum: berðu rædismanninum kveðju mína, og segðu honum, að mér svíði það nú sárast, hvørsu litið liggur eptir mig, svo nafn mitt líður skjótt úr minnum eptirkomandi manna. Eptir það andaðist Desaix. Hann var en mesta hetja og enn besti drengur.

Þessi sigur veitti Frökkum aptur allt sem þeir höfðu mist árinu áður á Efra Vallandi.

Á Þýzkalandi unnu Frakkar einnig sigur þetta ár. Moreau átti mikla orrustu við Jóhann erkihertoga hjá Hálindar=Þorpi (Hohenlinden), 3. Dec. 1800, og vann frægan sigur, og rak flóttann til Austurríkis. Samdi þá keisari frið í Lúneville (í Febr. mán. 1801). Skyldi Rínå vera landamerki Frakklands. Keisarinn kannaðist við hið Cisalplendska eður ítalska þjóðveldi, sem það nú kallaðist, og fékk í skaðabætur fyrir Belgjalønd og Lángbarðaland, mikinn hluta af Feneýaríki. Prússar feingu lønd á Vestfali og af Niðursøxum, í stað þeirra er þeir létu til Frakka fyrir vestan Rínå. Toskanaríki, er áður var Stórhertogadæmi fékk hertoginn yfir Parma, og varð nú hvørttveggja eitt konúngs ríki og kallað Etrúría. En Stórhertoganum og hertoganum yfir Módena=ríki, var heitið skaðbótum á Þýzkalandi. Á þjóðfundi í Regensborg voru síðan matin og jøfnuð málefni þjóðverja. Løgðust þá niður mørg forn kjørréttindi ennar andlegu stéttar, en önnur ný komu í þeirra stað.

Nú stóðu Bretar einir eptir af øllum fjandmønnum Frakka, en þeir voru líka enir skæðustu. Frakkar høfðu jafnan beðið ósigur fyrir þeim í sjóorrustum, og látið fjølda skipa. Og uppreist sú, er þeir ætluðu að koma fótum undir á Írlandi, fórst fyrir. Kleber hafði tekið við yfirráðum á Egyptalandi, þá er Napóleon fór þaðan, eins og áður er sagt, og stýrði øllu með stillíngu og viturleik. En hans naut ekki lengi

vid, og var hann myrdtur (14. Jún. 1800) af einum þeirra Mamelúkkanna. Tók þá Menou herShøfdíngi vid stjórninni, en hann var ekki Klebers maki, og vard ad gefast upp fyrir Bretum og fara burt af Egyptalandi med menn sína.

Í Marts mánudi 1802 var fridur saminn milli Breta og Frakka í Amiensborg. Skiludu þá Englismenn øllu því aptur, er þeir høfdu tekid frá Frøkkum, nema Ceylons-ey vid Austur-Indíu strandir, er Hollendíngar høfdu átt, og Þrenníngar-ey (Trinidad) í Vestur-Indíum, er Spánverjar létu af hendi. Þannig komst fridur á í Nordurálfu, en hann stód ekki leingi. Rédi nú Bónaparte einn øllu á Frakklandi, og þókti ærid framkvæmdarmikill. Tóku Frakkar miklum framførum bædi í vísindum og velmegun. En veldi Bónaparta líktist því meir einvaldsstjórn, sem hann hafdi þad leingur. Fjølgudu þá sem mest óvildarmenn hans, vildu sumir hafa þjódstjórn, en adrir vildu hefja aptur til ríkis ættlegg Bourbonna. (Sú ætt sat ad ríkjum á Frakklandi frá 1589, er Hinrik 4di kom til ríkis og til þess Lodvík 16di var veginn 1789). Þá voru og ýmsar tilraunir gjørdar til ad ráda Bónaparta af døgum, en menn komust fyrir þær allar, og fyrir því vard þeim ekki framgeingt. Þá var þad ad Pichegru hershøfdíngi, sá er Holland vann, gjørdi samtøk vid nokkra menn til ad drepa Bónaparte, en svo fór, ad bert vard um rádagjørd hans, var hann þá tekinn høndum og settur í myrkvastofu, og dó þar. Móreau, hinum fræga hershøfdíngja, var og eignad,

að hafa átt þátt í samsærinu; var hann einnig tekinn og gjör útlægur, og varð hann þá að fara til Norður-Ameríku.

Nú varð það þessu næst að hvörirtveggju, Frakkar og Bretar, tóku að búa lið sitt, og hafa mikinn viðbúnað. Sendir Bónaparte hershöfðingja þann er Mortier hét, með miklu liði til Hannøfra ríkis; og fram með Bretlands sundi (Kanalen) lætur hann búa mørg skip og smá, og dregur þángað saman her manns. Ætludu menn að sá her skyldi gjøra landgaungu á Bretland, en af því varð þó ekki.

## Frá því er Bónaparte varð keisari og frá viðureign Frakka og annara þjóða.

Um þessar mundir var uppgángur Bónaparta sem mestur. Frægð hans og veldi fóru dagvaxandi, og loksins varð hann keisari 2. Dec. 1804, og vorið eptir konúngur yfir Italíu. Síðan var hann kalladur: Napóleon enn fyrsti, keisari yfir Frøkkum, og konúngur á Italíu. Mánuði síðar enn hann varð keisari, ritaði hann Georgi 3ja., Engla konúngi, einkar vinsamlegt bréf, og segir þar meðal annars: að hann óski friðarins af hjarta, en þótt hann hafi aldrei hræzt ófrið, né beðið vansæmd af. Georg konúngur lét ráðgjafa sinn, þann er Múlgrave hét, rita aptur Talleyrandi, ráðgjafa Napóleons og segja: að hann yrði fyrst að vita, hvað aðrir þjóðhöfðingjar, vinir sínir, á meginlandinu ætludu sér, áður hann gæti svarað Napóleoni beint til bréfs þess er hann hefði ritað sér. En

hinsvegar létu Englismenn ekki af, ad eggja adrar þjódir til ófridar gégn Frökkum, og báru fyrir sig, bædi ójöfnud þann, er Napóleon hafdi í frammi vid Sardínar konúng og fleiri þjódir, og svo þad, ad hann hefdi látid drepa hertogann af Enghien fyrir eingar sakir; enda munu og Bretar hafa óttast landgaungu á England. Hétu Bretar ærnu fé þeim til styrktar, er gánga vildu í ófrid móti Frökkum, og svo feingu þeir talad um fyrir Rússum, Austurríkismönnum og Svíum, ad þessar þjódir gjördu allar sambánd móti Napóleoni (3ja Coalition). En sem Napóleoni koma þessar fréttir, bregdur hann vid skjótt, og stefnir öllu því lidi er ádur var komid saman, vestur vid Bretlandssund, austur á Pýzkaland, og med snarrædi sínu og herkænsku, fær hann komist ad baki Austurríkismönnum, er haldid höfdu lidi sínu vestur ad borg þeirri, er Ulm heitir, og bidu þess ad Rússa her kæmi austan til lids vid sig. Makk hershöfdíngi, og Ferdínand keisarason, voru fyrir lidi Austurríkismanna. Ferdínand flýdi, en Makk settist í borgina, og vildi verjast til þess Rússar kæmu, en er honn sá sitt óvænna, gafst hann upp fyrir Napóleoni keisara (17. Oct. 1805 *) Héldu nú Frakkar vidstödulaust til Vínar=

*) Um þessar mundir lagdi út frá Kadixborg frakkneskur og spánverskur flori, og voru saman 33 Línuskip, og allmörg smærri. Foringjarnir hétu Villenenve (Villenöv) og Gravína. Vid Trafalgar=höfda kom Nelson, hinn frægi, í móti þeim (21. Októbr.), og hafdi 27 Línuskip. Tókst þar en grimmasta orrusta. En er orrustan stód sem hæzt, vard Nelson sár til ólífis.

borgar. Var Frans keisari flúinn þaðan með hiro sína, til Brunnsborgar á Mæri. Þá var Rússa her kominn austan, undir forustu Kútúsofs og Buxhöfdens, og sem þeir fréttu ófarir Makks, halda þeir fyrir norðan Dóná, austur á Mæri, og slá þar liði sínu saman við Ásturríkis menn. En sem Napóleon hefir komið þeim á þann reit, er hann vill, (en það var hjá Ásterlitz-þorpi), þá mælti hann: nú hefi eg þenna her í hendi mér! Daginn eptir. (2. Dec. 1805) stóð sú nafnkénnda orrusta hjá Ástrelitz, fékk Napóleon þar mikinn sigur. Voru bæði Rússa- og Austurríkis-keisari viðstaddir, og sáu ófarir sinna manna. Mælt er, að þar hafi fallið 30,000 manna af hvorutveggjum, en 15000 manns, og 100 fallbyssur komust í hendur Frakka. Eptir þessa orrustu, sömdu þeir, Napóleon og Frans, frið með sér í Presborg (26 Dec.). Varð Frans keisari að láta af hendi Feneyar lönd, er leggjast skyldu til Italíu, og Tyról er bættist við Bæaraland. En Bæaraland og Wurtenberg, er áður voru kjörfurstadæmi, urðu nú konúngsríki. Feingu og þessi nýorðnu konúngsríki, ýms héröð frá Austurríki. Alexander Rússa keisara voru boðnar sættir, en hann tók þeim fjærri.

Öndverðlega á árinu 1806 sendi Napóleon herlið til Neapels móti Ferdínandi konúngi, fyrir þá sök,

Gjörðust þá Enskir menn svo óðir að ekkert héltvið. Og svo lauk að Gravina flýði með 10 skip til Kadixborgar, og komst nauðuglega undan. Öllum öðrum skipum eyddu Enskir menn eður tóku.

ad Neapels konúngur, en þótt hann ætti ad heita í sátt vid keisarann, hafdi leyst Enskum mønnum og rússneskum landgaungu. og setid adgjørdalaus medan þeir drápu Frakka þar í landi. Flýdi nú Ferdínand konúngur til Sikileyar, en Jósef bródir Napóleons, gjørdist konúngur yfir Neapels ríki. Þetta hid sama ár vard annar bródir Napóleons, sá er Lodvik hét, konúngur á Hollandi. Um midsumarsleiti þetta ár, (12. Júl.) hóf st og félag þad, er kallad var: Rínarsamband, geingu 16 høfdíngjar í þad af Þýzkalandi. En Napóleon setti þad á stofn, til varnar móti enum nordlægu ríkjum, Rússaveldi og Prússaløndum. Skyldu høfdíngjar þeir er í sambandid geingu, ætíd hafa vígbúnar 63 þúsundir manna, þá er Frakkar þyrftu lids vid. Sjálfur var Napóleon verndari (Protector) félagsbrædra þessara. Søgdu þeir nú skilid vid Frans keisara, og vard hann ad leggja nidur nafnid: Þýzkalands keisari, og kalla sig Austurríkis keisara. Hefir þad nafn haldist sídan. Margir af vinum og ættmønnum Napóleons komust þá til upphefdar, og urdu lendir menn, þannig vard Jóakim Murat, mágur Napóleons, Stórhertogi yfir Bergi; Evgen Beauharnois (Evsjen Boharnoa), stjúpsonur Napóleons, og kappi mikill, skyldi erfa konúngstign á Italíu eptir Napóleon, en heita undir konúngur (Vice-konúngur) medan keisarinn lifdi. Berthier hershøfdingi fékk til umráda Nýkastala fylki í Sveiz. Í Feneya løndum enum fornu hófust ýms ný hertogadæmi, er hershøfdíngjar og gædíngar Napóleons feingu: t. a. m.

Dalmatia, Istría, Friál, Zadóre, Bellúno, Ronegliano, Trevíso, og fl. er þessir feingu: Soult Bessieres, Duroc, Champagny, Victor, Moncey, Mortier, o. s. fr.

Snemma á þessu ári andaðist Pitt (æzti rádgjafi Engla konúngs), er verid hafdi hinn skjædasti óvinur Frakka. Kom þá Fox í stad hans. Fox var enn mesti mælskumadur, eins og Pitt hafdi verid, en vinur Napóleons, og dróg þad til þess, ad farid var ad tala um sættir milli Frakka og Rússa og Englismanna, en Fox andadist um haustid sama ár, og vard þá ekki af sættum.

Nú er ad segja frá Prússum, ad þeir sáu, þótt seint væri, ad þeir höfdu setid adgjørdalausir helzt ofleingi, enda hafdi Napóleon gjørt þeim margt til skapraunar. Gjørdi nú konúngur þeirra, Fridrik Vilhjálmur enn þridji, samband vid Rússa og Breta og býr lid sitt. Setur hann Ferdínand Brúnsvíkur hertoga yfir herinn. Hann hafdi verid en mesti kappi en var nú hnígin mjøg á efra aldur, og var ekki vel kunnugt um hernadar adferd Napóleons, en hún var næsta ólík enna fyrri manna. Prússar høfdu mikid lid og fridt, 120 þúsundir manna, en hershøfdíngar þeirra voru annadhvørt gamlir menn edur lítt æfdir. Stefndu þeir nú lidinu vestur á leid til Frakklands. En er þá vardi sem minnst, var Napóleon kominn ad baki þeim, og hjá Jena og Auerstådt vann hann hinn frægasta sigur á Prússum (14. Okt. 1806). Ferdínand hertogi vard sár þegar í øndverdri orrustu, og dó litlu sídar. Gekk þá hvør kastalinn á fætur ødrum á hendur Frøkkum, og 6 vikum eptir orr-

ustuna hjá Jena, hafdi Napóleon lagt allt land undir sig millum Rínár og Oddorár. Í þeim löndum bjuggu 9 milliónir manna. Napóleon hélt sjálfur til Berlínar höfudborgar Prúsáa, en lét á medan hershöfdingja sína: Soult, Lannes, Bernadotte, Murat, Ney og Davoust og fl., elta leifar ens prússneska herlids, og taka alla kastala og borgir, sem ekki höfdu þegar geingid á vald hans. Gjördi Blukker hershöfdingi einna leingsta mótvörn, en sem hann fékk eigi reist rönd vid, hörfadi hann undan, en þeir Bernadotte, Davoust og Soult á eptir. Braúzt Blukker inní Lýbikuborg, og ætladi þar ad verjast, en Frakkar tóku borgina, og urdu Prúsáar ad gefast upp eptir harda orrustu. Svo segja menn ad þar væru fyrir 1590 manns af Svíum í borginni, er sátu þar vedur fastir fyrir mótvidrum, hafi Bernadotte sýnt á þeim mikla mildi, en þeir lofad hann óspart, þegar þeir komu til Svíþjódar, og þad sídan dregid til þess ad Svíar kjöru hann til konúngs yfir sig.

Rússar voru, eins og ádur er sagt, í sambandinu móti Frökkum. Fyrir þá sök hélt nú Napóleon, þá hann hafdi lagt allt Prúsáaveldi undir sig, lidi sínu austurá Pólínaland. Tóku landsmenn þar tveim höndum móti Frökkum, einsog þeir væru sendir þeim til frelsis móti Rússum. Litlu fyrir jól 1806, kom Napóleon keisari sjálfur til Varskár, (þad er höfudborg Pólínalands). Beiddu Pólskir menn hann þá ad hefja ad nýu konúngsríki þeirra, og gjöra þjódina sjálfráda. Keisarinn lofadi ad sönnu hreysti þeirra, en kvad þó

enn margt fyrir standa til þess óskum þeirra gæti ordid framgeingt. Um þessar mundir samdi Napóleon frid vid Saxlands kjørfursta, er þá fékk konúngs nafn.

En þad er nú frá Rússum ad segja, ad þeir héldu lidi sínu vestur á Pólínaland. Hétu fyrirlidar þeirra: Kaminsky, Benníngsen, og, Buxhøfden. Urdu nú margar smá orrustur, og báru Frakkar jafnan hærra hlut, (t. a. m. vid Narew=fljót og hjá Púltúsk). Í Febrúar mánudi, þenna sama vetur, børdust Rússar og Frakkar hjá borg þeirri er Eyla heitir; stód sá bardagi í 2 daga, og var hinn mannskædasti. Póktust hvorutveggju hafa unnid sigur, og héldu kyrru fyrir um hríd. Pó lét Napóleon, hershøfdíngja sína taka ýmsar borgir og kastala á Weiksel= og Oddorárbøkkum. Ein af þeim borgum var Dansvík (Danzig), mikil børg og audig, vid Weikselá, og skamt frá Eystrasalti. Sá hét Lefebvre er hana tók, en Rússar og Prússar vørdu. Eptir þad var leitad um sættir milli Frakka og Rússa, en þad kom fyrir ekki, og munu Englismenn hafa átt þar mestan þátt í, enda hafdi og Rússakeisari ekki ordid fyrir svo stórkostlegum óførum sem Austurríkismenn og Prússar. Hélst því ófridur enn. Urdu þá ýmsar smá orrustur, til þess er hvorutveggi herinn hittist hjá Fridlandi (Friedland), 14 Júní 1807. Þá mælti Napóleon: þessi dagur er heilladagur, á honum vann eg sigur hjá Marengó. Tókst þar en hardasta orrusta, og stód allan dag til kvølds, og feingu Frakkar mikinn sigur. Héldu nú Rússar aptur inná sín landamæri. Eptir þad var saminn fridur í

borg þeirri er Tilsit heitir, (7 Júlí 1807), milli Frakka og Rúsa, og 2 dögum síðar milli Frakka og Prúsa. Fékk þá Rúsakeisari nokkurn hluta Pólínalands. Prúsa konúngur fékk að halda konúngsnafni, af miskunn Napóleons, og sakir virðingar hans við Rúsakeisara, en helfíng ríkis síns misti hann, og fékk Napóleon sumt af því, Saxlands konúngi í hendur; sumt lagði hann til hertogadæmis þess ens nýa, er hann kallaði Varská (Pólínaland); en hin vestlægu hérøð af Prúsa ríki, lagði keisarinn til ens nýa konúngsríkis á Vestfali. Það ríki gaf hann bróður sínum Hieronýmusi. Fékk Napóleon þannig øll yfirráð á Þýzkalandi.

Skømmu eptir orrustuna hjá Jena (1806), meðan Napóleon dvaldist í Berlín, setti hann það í løgum, að Frakkar og bandamenn þeirra í Norðurálfu skyldu einga verzlun eiga við Breta, eður landeignir þeirra í øðrum heimsálfum, en øll þau skip er breyttu móti boði þessu, og allur varníngur enskur skyldi upptækur hvar sem hittist. Hafa menn kallað lagaboð þetta: meginlands bann (Continental System), fyrir þá søk, að Napóleon vildi þraungva øllum þjóðum á meginlandinu til að hlýðnast því. Bretar létu ekki leingi bíða að hefna sín. Trubladist þá øll verzlun manna og viðskipti, nálega um allan heim, fyrir sakir fjandskapar og ofríkis þessara tveggja þjóða.

Ein af þeim þjóðum er var í sambandi við Napóleon, og einna helzt fékk að kénna á harri Englismanna, voru Danir. Seint á sumri 1807, sendu

Bretar flota mikinn til Eyrarsunds, og heimtudu ad Danir seldu sér af hendi herskip sín. Því neitudu Danir. Settust þá Bretar um Kaupmannahøfn og voru frekar 40,000 manns, en Danir høfdu litid lid í borginni, nálægt 5 þúsundum hermanna, og 3 þúsundum ýmsra manna er litt voru vopnum vanir. Sá hét Peymann er þá hafdi herstjórn i Kaupmannahøfn, hann var þá á gamals aldri, og kalladur einginn kappi. En konúngurinn Kristján 7di, og Fridrik son hans, konúngsefnid, voru á Holsetalandi med megin-her Dana, til ad verja landamærin, því þá var mjøg róstusamt á Þýzkalandi. Bretar gjørdu harda skothríd á borgina, og brenndu 300 húsa. Sáu þá Danir sitt óvænna, og beiddust grida. Vard sættum ákomid med þeim kostum: ad Bretar skyldu fá øll herskip Dana, hafa øll umrád yfir kastala og høfn borgarinnar, um 6 vikna tima, en vera á brottu þadan ad þeim tíma lidnum. Bjuggu nú Bretar herskip Dana af miklu kappi til burtsiglingar, og á ákvednum tíma héldu þeir burt frá Kaupmannahøfn, med 18 línuskip, 15 fregátur og 30 skip smærri. Fridrik konúngsson vildi ekki samþykkjast uppgjøf Peymanns, og sagdi Bretum stríd á hendur. Leudti sá ófridur mest í því, ad Bretar og Danir tóku kaupfør hvørir fyrir ødrum. Þá søgdu og Danir Svíum stríd á hendur, því þeim þókti þeir ótryggilegir. Um þær mundir (1808), andadist Kristján konúngur enn 7di, en kom til ríkis Fridrik enn 6ti, sonur hans. Voru þá Danir í vanda miklum, eins og ad líkindum rædur. Þad

ár héldu Svíar her sínum til Noregs. Tóku Norðmenn hraustlega á móti, og ráku þá af höndum sér. Var þá Kristján Agúst, frá Agústaborg, fyrir lidi Norðmanna; hann hafdi þá landstjórn í Noregi fyrir hönd Dana konúngs, og þókti gott höfdíngja efni. Um þessar mundir létu Svíar Finnland fyrir Rússum. Var þá mikill kurr í Svíum, og lauk svó, ad þeir hlupu upp til ófridar gégn konúngi sínum, Gustafi enum 4da, Gustafssyni ens 3ja, og ráku hann frá völdum (13. Marts 1809), en tóku til konúngs Karl hertoga af Sudurmannalandi, födurbródur Gústafs fjórda. Karl var hinn 13di med því nafni. Þad ár sömdu Svíar frid vid Rússa og Dani. Karl konúngur átti ekki barna, og tók sér í sonarstad Kristján Agúst, þann er ádur var nefndur, en hann andadist litlu sídar, og leikur mikill grunur á ad hann hafi dáid af eitri. Kjöru þá þjódfulltrúar enn frakkneska herhöfdíngja Bernadotte til ríkiserfíngja í Svíþjód, og tók Karl konúngur hann sér í sonar stad. Tók þá Bernadotte vid trú Prótestanta, breytti nafni, og nefndi sig Karl Jóhann. Þá er ófridur hófst aptur milli Frakka og Rússa (1812), geingu Svíar í lid med Rússum, med því skilyrdi: ad Rússar styrktu þá til ad ná Noregi undan Dönum. Gjördist þá konúngs efni Svía, ædstur foríngi fyrir lidi bandamanna á Nordur-Þýzkalandi. Eptir orrustuna hjá Leipzig (1813), rédist Karl Jóhann á Holsetaland, og þraungvadi Danakonúngi til ad semja frid í Kíl (1814). Létu þá Danir Noreg af hendi til Svía, en feingu apt-

ur Re-ey, og þaun hluta Vindlands er Svíar áttu. Hefir Dana konúngur síðan látið þau lønd til Prússa, en feingið aptur Láenborg og nokkurt fé í lausum aurum. Vildu Norðmenn í fyrstu ekki gánga undir Svía, og tóku til konúngs yfir sig Kristján Fridrik, landstjóra sinu. Hann var náfrændi Fridriks konúngs eus 6ta, og erfði síðan ríki í Danmørku eptir hann, eins og kunnugt er orðið. En svo fór að Norðmenn urðu undan að láta, og samþykktist Karl konúngur enn 13ði stjórnarløgun þá er þeir høfðu veitt sér, og sem mjøg er frjálsleg, og miðar til að varðveita og efla þjóðfrelsi landsmanna, hefir Noregur síðan tekið stór-miklum framførum. Karl konúngur andaðist 1818. Kom þá Karl Jóhann (hinn 14ði) til ríkis, og hef-ir þókt merkur konúngur að mørgu.

Nú víkur søgunni aptur til Napóleons keisara, og þá fyrst vestur á Spán. Þar réði fyrir sá kon-úngur er Karl hét, hinn fjórði með því nafni, hann var hið mesta vesælmenni, heimskur og dáðlaus, og ó-maklegur þess að stýra Spánverjum, hraustri þjóð og drenglyndri. Konúngur átti þann son er Ferdínand hét. Hvorigur þeirra feðga réði þá miklu þegar hér var komið; en vøldin voru øll í høndum drottníngar og ráðgjafa konúngs, þess er Godi (Godoy) hét; hann var og kallaður friðarhøfðíngi (Fredsfyrste). Litlu fyrir en síðustu aldamót høfðu Spánverjar bundið félag við Frakka, og þókust hafa beðið ógagn af. Eign-aði þjóðin það mest hrekkjum og ódugnaði Goða ráð-gjafa, og var það mála sannast. Ferdinand konúngs-

son var hinn mesti óvinur rádgjafans, og fyrir því hafdi þjódin mikid traust á honum. Konúngur og rádgjafinn létust vera miklir vinir Frakka, en ad vinátta sú hafi verid á voltum fæti, má ráda af því, ad þá er ófridurinn vaktist milli Napóleons og Prússa (1806) reis Godi upp, og eggjadi Spánverja til fjandskapar og lidssafnadar móti Frökkum. Þetta fréttir Napóleon keisari á vígvelliunm hjá Jena. Kémur honum þá til hugar ad Godi skuli til nokkurs hafa vakid ófrid á Spáni, og nú skuli hann reka Karl konúng og ættmenn hans frá völdum. En kænlega vard ad því ad fara. Var keisara þad nokkur huggun, ad sundurþykki og flokkadrættir voru vid hird Spánar konúngs. Þegar Napóleon hafdi sigrast á Prússum, vard Fridarhöfdíngiun hræddur í meira lagi, og vildi fridmælast vid keisara, og kvadst einúngis hafa kallad menn til vopna á Spáni, af ótta fyrir Portúgals mönnum og Marokkum. En keisari mæltist til, ad Spánar konúngur léti sig fá til umráda 16000 vopnadra manna, til ad auka med herlid sitt nordaná Þýzkalandi. Vard konúngur vel vid bæn hans, og sendi hershöfdingja sinn einn, er Rómana hét, med einvala lidi til Napóleons. Nálægt veturnóttum 1807, gjördi Napóleon keisari leidángur á hendur Portúgals mönnum, og gaf þeim ad sök, ad þeir væru sér ekki alltrúir en hefdu mikil mök vid Enskamenn. Lagdi Junot hershöfdingi allt Portúgalsríki undir sig, en konúngur flýdi, og hirdsveit hans öll, til Brasilíu. Á Spáni fór sundurþykki vaxandi milli Karls konúngs og Ferdín-

ands sonar hans. Tók Ferdínand á laun ad semja vid Napóleon, en Godi komst ad því, og var þá konúngs son høndum tekinn. Vard hann ad bidja fødur sinn fyrirgéfníngar, og komust þannig sættir á med þeim fedgum.

Øndverdlega á ári 1808 héldu Frakkar her síns um inná Spán, var Murat mágur Napóleons yfirhershøfdíngi þeirra. Vid þad vaknadi þjódin og sá ad Godi hafi dregid sig á tálar. En Godi rédi konúngi til ad flýa á burt; en er þjódin vard þessa vís, laust upp ófridinum, var Godi høndum tekinn, og meiddur og settur í myrkvastofu. En konúngur vard svo hræddur, ad hann lagdi nidur vøldin, þótt hann vildi ekki kannast vid þad, þegar frá leid. Settist Ferdínand konúngsson í hásæti fødur síns, og tók þjódin vid honum tveim høndum. En litlu sídar halda Frakkar lidi sínu til Madrídar, og vildi Murat ekki kannast vid konúngdóm Ferdínands. Tekur Ferdínand þad rád, ad hann leitar á fund Napóleons, og kýs heldur ad eiga allt undir miskun hans, enn drengskap og fylgd þjódar sinnar. En sem hann kemur á fund keisarans, er honum sagt ad hann verdi ad sleppa øllu tilkalli til ríkis á Spáni, fyrir því ad keisarinn ætli þad ødrum. Stefnir nú Napóleon til sín Karli konúngi, ættmønnum hans øllum, og Goda rádgjafa, og lýkur svo med þeim, ad þeir Karl og frændur hans afsala sér øllu tilkalli til ríkis á Spáni. Setur nú Napóleon keisari, Jósef Neapels konúng brodur sinn, til ríkis á Spáni, en Murat í stad Jósefs yfir Neapelsríki. En þó Karl konúngur

mætti heita sigraður, var hin spánverska þjóð eptir únnin, þókti henni sér gjörð hin mesta vanvirða, er útlendur höfðíngi var settur þar til valda, henni þvernaudigt. Hófst nú ófriður um allt land, og stóð í 6 ár. Sýndu Spánverjar mikla hreysti og samheldni, og þó þeir biðu opt ósigur fyrir Frökkum, má þó segja að Napóleoni tækist aldrei, með öllu, að leggja þá undir sig. En hinsvegar er aðgætandi, að Spánverjar hefðu ei gétað, af egin ramleik, varist alla þá tíð fyrir Napóleoni, ef Englismenn hefðu ekki veitt þeim lið, ófriðurinn á öðrum stöðum kallað Napóleon þángað, og hann í fyrstu sendt of fátt lið til Spánar. Herhöfðíngjar Napóleons héldu liði sínu í ýmsar áttir á Spáni, og höfðu flestir þeirra sigur. Jósef konúngur hélt til Madrídar (20 Júl. 1808) og settist að völdum. En litlu síðar gafst Dupont hershöfðíngi upp fyrir Spánverjum, með 16000 manns, þar sem heitir á Bæli (Baylen). Við það óx Spánverjum hugur, og Bretar sendu ótilkvaddir her manns til liðs við þá og Portúgalsmenn. Þá sögðu menn í Gallizíu, (það er vestan á Spáni) við Breta: Vopn og fé viljum vér þiggja af yður, en menn skortir oss ekki. Sá hét Artúr Wellesley er stýrði liði Breta, og mun hans síðar gétið. Litlu eptir orrustuna á Bæli, varð Jósef að flýa frá Madríd. Um þessar mundir vann Wellesley mikinn sigur á Junot í Portúgal, og lauk svo þeirra viðskiptum, að Frakkar urðu að rýma landið, og fluttu Bretar herlið þeirra sjóleið heim á Frakkland. Þegar Napóleoni komu þær fregnir, dregur hann

saman mikid lid bædi af Frakklandi, Þýzkalandi og Italíu, og býst nú sjálfur til ferdar vestur á Spán; en ádur hann færi þá for, hittir hann Alexander Rússakeisara í Erfurt (27 Sept — 14 Oct.), og bundu þeir þá enn fastar med sér sætt þá, er þeir höfdu gjört milli sín í Tilsit. Sídan ritudu þeir bádir Englakonúngi og budu honum sættir, og mæltust til vináttu, en slíkt var ekki ad nefna. Þessunæst heldur Napóleon med 200 þúsundir manns vestur á Spán; verda þar skjót umskipti, og á rúmum mánudi hefir hann lagt allt landid undir sig, og tekid Madrid. Flýdu Bretar undan til skipa, og mistu ádur fjölda manns, og herhöfdíngja sinn Jón Móra (Moore). Tók nú Jósef aptur vid ríkisstjórn á Spáni. En Napóleon hélt heim til Frakklands, (í Janúar 1809), því hann hafdi spurt ad Austurríkis menn höfdu lidsafnad mikinn og vidbúnad. Og setur eptir á Spáni nokkra af herhöfdíngjum sínum til ad halda áfram ófridi vid Spánverja. Veitti ýmsum betur. Bretar sendu ad nýu Wellesley þángad med miklu lidi, og vann hann sigur á Frökkum hjá Talavera-borg (28 Júl. 1809), og fekk þá viduruefnid Wellington. Þó vard Bretum enn lítid ágeingt eptir þenna sigur, því Napóleon sendi þegar um veturnætur (þá er hann hafdi sigrast á Austurríkis mönnum, og samid frid vid þá) herlid vestur á Spán. Geingu þeir þá fast fram herhöfdíngjar hans: Massen og Soult, og hrukku enskir menn undan. Árid 1810, og 1811 báru Frakkar hærra hlut á Spáni. Fekk þá einn af herhöfdíngjum Napóleons,

er Suchet hét, mikinn orðstýr, gaf Napóleon honum hertoga nafn (Albúfera) fyrir sakir hreysti og framgaungu. En þó Frakkar ynnu margan frægan sigur, létu Spánverjar ekki hugfallast, heldur réðu þeir á Frakka, og áttu við þá margar orrustur og smáar, og veitti stundum betur. Þegar ófriðurinn hófst millum Rússa og Frakka (1812), rann upp nýr vonardagur fyrir Spánverjum. Því bæði var það, að keisarinn boðaði til sín norður, ýmsa herflokka af Spáni, en sendi ekki þángað lið í þeirra stað, svo var og Wellington jafnan viðbúinn, er hann sá sér færi á, að gjöra Frökkum árásir þar í landi; en það sem mest og best efldi Spánverja til öruggrar mótvarnar var, að nýtt skipulag komst á þjóðmálefni þeirra. En því var svo háttað: Hið æðsta landstjórnar félag á Spáni, hafði komið því á, að fulltrúaþíng (Cortes) yrðu sett í landinu, til að rannsaka þjóðmálefni, og semja nýa stjórnarskrá, er nokkuð skyldi takmarka konúngsvaldið. Samþykktist þjóðin stjórnarskrá þessari, og hét að fylgja henni, (18da og 20ta Marts 1812). Sást það skjótt hversu vel hún átti við, og hversu kröftuglega frelsið leiddi þjóðina til framkvæmda. Enda tóku og aðrar þjóðir þessa stjórnarbót gylda. Þessu næst vann Wellington mikinn sigur á Marmont hershöfðingja Napóleons, hjá Salamanka, varð þá Jósef konúngur enn að nýu, að leita burt úr Madrid. Þó tókst Soult, kappanum, að rétta við aptur að nokkru, hluta Frakka, og settist þá Jósef aptur að völdum. En skömmu seinna

bodadi keisarinn, Soult á sinn fund med 50,000 manns; en Jourdan herhsfdíngi kom í hans stad. Stódst þá ekkert vid Bretum úr því, og Wellíngton vann nafnfrægan sigur, hjá Wittoria, á Frøkkum (21ta Jún. 1813), urdu þá Frakkar ad flýa undan nordur yfir Pýrenæafjøll. Var þá útgjørt um ríkisstjórn Jósefs á Spáni, og sá hann aldrei sídan þad land.

Nú er ad segja frá Napóleoni keisara, ad hann bjó ferd sína af Spáni, nálægt midjum vetri 1809, þá er hann spurdi lidsafnad Austurríkis manna, og heldur nú sem hvatlegast til Parísarborgar, og safnar lidi. En þegar um vorid, fyrir sumarmál, heldur Karl erkihertogi, lidi þeirra Austurríkis manna vestur á Bæaraland, og hefir allt ad 200 þúsundum vígra karla. Jóhann, bródir Karls, stefnir, í ødru lagi, lidi sínu til Tyrólalands, og hefir 80 þúsundir; en Ferdínand, þridji bródirinn, heldur med 36 þúsundir til Pólínalands. Er svo sagt, ad þá hafi vopnast í Austurríki alls 400 þúsundir manna. En hér fór sem fyrr, ad Napóleon reyndist hyggnari og hamíngjumeiri enn óvinir hans. Hann rédist á Karl erkihertoga, átti vid hann 5 orrustur, hvørn daginn eptir annan (19da til 23ja Apríl), einkum hjá Ekkmúla (Ekkmühl) og Regensborg, og fékk sigur í øllum, hélt þá Karl undan austur á Bæheimaland, en Napóleon hélt til Vínarborgar, og gafst stadurinn upp fyrir honum (13. Maii). Jóhanni erkihertoga vard í fyrstu nokkud ágeingt á nyrdra-Vallandi, móti Evgeni, stjúpsyni Napóleons, en sídan veitti Evgeni betur og rak hertogann af hønd-

um sér nordur yfir Dóná. Líkt þessu gekk Ferdínandi, hann tók Varsfárborg, en pólskur höfdíngi sá er Poníatówsky hét, enn mesti kappi, rédist í móti honum, og lauk svo, ad Ferdínand hélt undan og sudur á Mæri. Nú þótt Karl erkihertogi hefdi bedid ósigur fyrir Napóleoni, og ekki getad varid höfudborgina, hafdi hann þó enn mikinn her vígbúinn þar í grend fyrir austan Dóná, og beid þess ad Napóleon færi austur yfir ána. Skamt frá Vínarborg rennur Dóná í þrem kvíslum; þar lét Napóleon gjöra brýr á ána, og héldu strax þrír hershöfdíngjar hans, Massena, Bessieres og Lannes, med 35 þúsundir manna austur yfir brýrnar, og fylktu lidi sínu millum Asperns og Eslínga-þorps. Þar rédist Karl erkihertogi ódar ad þeim, med 100 þúsundir; tókst þar en hardasta orrusta. Var lidsmunur ærinn, en Frakkar vördust af mikilli hreysti. Er einkum ord á gjört, hvörsu hardt Massena gekk fram, og hrukku þar allir fyrir, sem hann var í móti; vördust þeir þann dag allan til kvölds. En er nótt var komin segja sumir, ad Karl erkihertogi hafi brotid af brú þá, er Frakkar höfdu gjört yfir ena vestustu og breidustu kvíslina, en adrir segja ad vöxtur hlypi í ána, og hafi hún sjálf brotid brúna af ser, en hvörjir sem hafa réttara ad mæla, þá er þad víst ad megin her Frakka sat fyrir vestan ána, og átti eingan þátt í orrustu þessari. Napóleon var sjálfur kominn austur yfir. Þegar í birtíngu daginn eptir, lagdi Karl aptur til orrustu, og berjast menn af mikilli grimd, en er áleid daginn var keisaranum sagt ad adalbrúin sé brotin af

ánni, sjer hann þá, ad hann mun ekki sigrast, í þad sinni, á Austurrikis mønnum; en býdur Lannesi og fleirum af hershøfdíngjum sínum ad verja orrustuvøllinn, og láta síga undan yfrá ey þá, er næst liggur austari bakkanum, og Lóbá heitir. Var þá barist ákaflega, og létu hvørirtveggju mikid lid; í þeirri svipan kom fallbyssukúla á Lannes, og tók af honum báda fætur fyrir ofan kné., Lét Lannes bera sig þángad sem Napóleon var, og sem keisarinn sá ad hann var særdur til ólífis. fékk hann ekki tára bundist, enda var þar eptir manni ad sjá. Lannes lifdi 10 daga vid mikil harmkvæli, og dó sídan. Fleiri féllu í orrustu þessari, hershøfdíngjar af Napóleoni keisara, þótt ekki séu þeir nefndir hér. Eptir þetta lét keisarinn fyrirberast á Lóbá-eyu, og gjøra aptur brú á ána. Þókttust hvørirtveggju, bædi Frakkar og Austurrikis menn, hafa unnid sigur. En sem Napóleon hefir dregid ad sér allt lid sitt, og Evgen komid til móts vid hann, heldur hann ølln lidinu austur yfir Dóná, og ber nú lítid til tídinda, til þess er hann hittir Karl erkihertoga hjá Wagrams-þorpi. Tókst þar en hardasta orrusta, og stód 2 daga (5ta og 6ta Júlí). Þar fékk Napóleon sigur, en margir féllu af hvørumtveggju. Um haustid, þetta hid sama ár, komst fridur á (14da Okt.) í Vínarborg. Lét Franz keisari þá mikid land laust vid Napóleon, og samþykktist allar adgjørdir hans á Italíu, Portúgal og Spáni.

Eptir ad þessi fridur var saminn, gjørdist Napóleon ríkari og vídlendari enn nokkru sinni ád-

ur. Þó var það eitt er honum þókti vanta, og það var: að hann átti ekki lífs afkvæmi, er tekið gæti ríkið í arf eptir hann. Fyrir þá sök sagði hann skilið við Jósefínu drottníngu sína, og fékk aptur Maríu Lóvísu, elztu dóttur Franz keisara; fór brúðkaup þeirra fram í Parísarborg (1. og 2. Apríl 1810). Ári síðar (20 Marts 1311) ól María Lovísa sveinbarn, var það vatni ausið, og kallað: Napóleon Franz Karl Jósef. Hann var þegar í vøggu kallaður konúngur Rómaborgar. Nú héldu menn að friður og samlyndi mundi haldast milli Napóleons, og annara stórhøfðíngja í Norðurálfu, en sú von brágst. Meðan ófriður sá stóð, er nú var gétið millum Frakka og Austurríkis manna, hafði Napóleon svipt Páfann, øllum veraldlegum yfirráðum, og þó páfinn lýsti banni yfir keisara og øllum hans erindsrekum. fór Napóleon sínu fram, og lætur taka páfann høndum og flytja til Savóna-borgar á Frakklandi, og sat hann þar 3 ár. Árið 1810 kollvarpaði Napóleon stjórn ýmsra smá fylkja bæði á Þýzkalandi og Ítalíu, og um þær mundir jók hann Hollandi við ríki sitt, en Lodvík, konúngur bróðir hans, lagði niður konúngdóminn, fór af landi burt, og lét fyrirberast í Austurríki. Hið frakkneska einvaldsdæmi taldi nú 130 fylki (Departement), og 42 milliónir manna.

Þessu næst bar það helzt til tíðinda, að ófriður vaktist millum Rússa og Frakka. Rússum stóð jafnan ótti af yfirgángi Napóleons, og þó Alexander keisari þættist vera mikill vini Napóleons og hefði lof-

ad honum, ad láta af allri kaupverzlun vid enska menn, þá áttu Rúsar eins eptir sem ádur kaupskap vid þá, enda gátu þeir valla hjá því komist. Öndverdlega á ári 1811, tók Alexander ad safna iidi um ríki sitt; semur frid vid Tyrki, og gjörir samband vid Breta og Svía, og ena spánversku þjódfulltrúa (Cortes). En hinsvegar dregur Napóleon keisari saman óvigan her, bædi af Frakklandi og Italíu, og frá bandamønnum sínum, Prúsum, Austurríkis mønnum og Póiskkum, og stefuir því iidi ad heiman á sudverdu sumri 1812. Er svo sagt ad þar hafi komid saman 500 þúsundir manns. Pessu iidi heldur hann austur á Rússland. Rúsar høfdu iid nokkru minna, og fyrir því tóku þeir þad rád, ad hætta ekki til høfudbardaga vid Frakka, heldur láta síga undan inná eydimerkur og ófærur, eyda bygd allri og vistum, mæda Frakka í mørgum orrustum og smám, og bída svo þess ad veturinn kæmi, og geingi í iid med sér. Héldi nú Frakkar áfram, eins eptir sem ádur, þóktust Rúsar eiga sigurinn vísan. Hvorttveggja vard. Napóleon hélt áfram, en Rúsar hørfudu undan, brendu borgir og vistir, og gáfu Frøkkum aldrei færi á ad eiga vid sig stórorrustur. Sjøunda dag Sept. átti Napóleon vid þá mannskæda orrustu, vid á þá, er Moskwa heitir, og viku sídar heldur hann inní Moskó, ena miklu og fornu høfudborg Rúsaveldis. En keisara hnikkti heldur enn ekki vid, er hann sá hvørsu allt var þar kyrrt og þøgult. Vard hann þess skjótt vísari, ad Rúsar høfdu haldid á burt úr borginni med mestan fjárhlut sinn, en høfudsmad-

urinn, Rostopskín, hafdi látid þar eptir seka menn og ýmsa adra, er leggja skyldu eld í borgina og brenna hana til ösku, svo Frakkar fengi þar ekki fest fót sinn. Gjördu menn þessir dyggilega þad sem fyrir þá var lagt. Brann svo mestöll borgin á 6 dögum, og fengu Frakkar ekki slökkt. Sá Napóleon ad hér var ekki til setu bodid, og fyrir því reynir hann ad ná sættum vid Alexander; en Alexander dregur fyrst lengi ad svara honum, og sídan neitar hann öllum sættum. Rædur þá Napóleon þad af ad halda heim á leid. Þad var um veturnætur (19 Oct). Gekk þá vetur ad med snjóum og hörkum; áttu Frakkar vid margt ad strída, bædi illvidri, vistaskort, og óvinalid er einatt gjördi þeim fyrirsátur og rédist á þá hvenær sem færi gafst. hrundu þá nidur bædi hestar og menn af Frökkum, og í midjum December mánudi komust leifarnar af þessum enum mikla her, þvínær allslausar, vestur yfir Nímelfu (Niemen). Napóleon fór sjálfur litlu ádur frá hernum, og hélt sem hradast til Parísarborgar, því hann vissi ad sín mundi þar vidþurfa, en setti Múrat mág sinn fyrir lidid. Litlu sídar fór Murat frá hernum og heim í ríki sitt á Italíu. Tók þá Evgen vid herstjórn í stad hans, og vard ad hörfa undan ofurefli þeirra er eptir sóktu, vestur yfir Hamborgarelfur; fylgdu Rússar fast á eptir. Þá gripu og Prússar til vopna og gjördu samband vid Rússa. Sýndu Prússar þá all mikla atorku, og hösdu mikid vopnabrak og háreysti. Napóleon var þá og heldur ekki adgjördalaus. Þegar um vorid 1813 hafdi hann komid sútum

undir mikid lid, og stefndi til móts vid óvini sína; átti vid Rússa her og Prússa snarpa orrustu hjá Luzen (2an dag Mai=mán.) og fekk sigur. Litlu sídar átti hann tvær orrustur vid bandamenn (hjá Bäzen og Wurschen) og fór á sömu leid. Var þá vopnahlé samid, og stód þad 10 vikur, töludu menn þá um sættir, en vard þó eigi ákomid. Hófst ófridur ad nýu. Gengu þá Austurríkis menn og Svíar í lid med fjandmönnum Napóleons. Höfdu bandamenn 800 þúsundir vopnadra manna. Nádi sá her nordan frá Eystrasalti og sudrá Italíu *). Napóleon hafdi ad öllu samtöldu allt ad 500 þúsundum manna.

Um þessar mundir brauzt sambandsherinn sunnan af Bæheimi nordur á Saxland, og bjóst ad taka Dresdenar-borg. Þar kom Napóleon til móts vid hann. Vard þar orrusta hörd, og stód 2 daga (26 og 27 Aug.). Fekk Napóleon sigur, en bandamenn flýdu sudur á Bæheimaland. Í þeirri orrustu féll hinn frægi hershöfdingi Moreau. Hann hafdi dvalist um hríd í Vesturálfu, en Alexander Rússakeisari baud honum á sinn fund, og hafdi hann í rádum med sér. Átti Moreau eigi í all litlu strídi vid sjálfan sig, ádur hann gæti gengid í lid med óvinum landa sinna.

En þótt Napóleon fengi sigur í orrustu þessari, bidu hershöfdingjar hans á ödrum stödum ósigur fyrir

*) Þad má ei þannveg skilja, ad madur hafi stadid vid mann í fylkingu á öllum þeim vegi, heldur svo, ad fylkingum bandamanna hafi verid skipad í þeirri, slesuu, og þá vida verid langt bil á milli þeirra.

Blükker hershöfðíngja og Karli Jóhanni, konúngsefni Svía, og fyrir því gat hann ekki spornað við því, að enir smærri herflokkar bandamanna sameinuðust megin hernum á Bæheimi. Pokaðist nú allur sá hinn mikli her nær Napóleoni, og loksins hittist hvorutveggi herinn á Breiðumörk hjá Leipzig. Þar stóð hin nafnfræga orrusta frá 16—19 Octób: mán. 1813 *). Þar bar Napóleon keisari lægra hlut, þótt hann væri öllum hershöfðíngjum meiri að hugviti og dirfsku. Var það bæði, að hann hafði lið miklu minna enn óvinir hans, enda gengu og Saxlendíngar og Wurtembergsmenn undan merkjum hans, þegar orrustan stóð sem hæðst, og í lið með bandamönnum. Varð þar ógurlegt mannfall af hvorutveggjum, en þó meira af Frökkum. Lagði þá Napóleon á flótta undan til Frakklands. En er hann lagði upp frá Leipzíg, setti hann Poniatovsky og Makdonald og 2 aðra af hershöfðíngjum sínum, með sveit manna, skyldu þeir geyma þess að óvina herinn gæti ekki bannað Frökkum leið yfir brú þá á Elsterfljóti, er þeir urðu yfir að fara. Var svo ráð fyrir gjört, að þá skyldi brjóta brúna af ánni, er allur her Napóleens væri yfirum genginn. En svo bar til ógæfusamlega, að sá maður er það verk átti að vinna, varð fyrri til að eyða brúnni, enn þeir Poniatóvsky kæmust að ánni. Var þá Napóleon og megin herinn kominn vestur yfir, en hinir sátu eptir

*) Þann 18 Oct. gengu Saxlendíngar og Wurtembergsmenn í lið með óvinum Napóleons, og sá hann þá hvar endir mundi á verða orrustunni.

fyrir austan med einar 12 þúsundir manna. Sóktu nú bandamenn ad þeim sem fastast, og høfdu óflýanda her. Urdu Frakkar þar ofurlidi bornir, sem vid var ad búast, og annadhvørt høgguir nidur edur handteknir. Fóruft og margir á sundi, þeir er hlaupid høfdu í fljótid og viljad leggjast yfir. Pad sáu menn seinast til Poníatóvskys, ad hann keyrdi hestinn sporum og hleypti útí fljótid, og hvarf þar. En Makdónald syndti yfir.

Napóleon hélt lidi því, er þá var eptir med honum, vestur ad Riná, en ádur hann nædi þángad, rédst i móti honum hershøfdingi sá, er Wrede hét, med 60.000 manns af Bæaralandi og Austurríki. Vard fundur þeirra þar sem heitir ad Haná. Napóleon tók svo á móti, ad 10 þúsundir féllu af Þjódverjum, en hinir flýdu vídsvegar er af komust. Eptir þad hélt hann leidar sinnar vestur yfir Riná, og steig ekki fæti sídan á Pýzkaland.

Odar enn Napóleon var kominn heim á Frakkland, risu upp þær enar Pýzku þjódir er hann hafdi haldid í ánaud. Aldinborgar, Hessa og Brúnsvíkur høfdingjar settust aptur ad vøldum. Engla og Prúsa konúngur kostudu aptur eign sinni á lønd þau, er Napóleon hafdi unnid undan þeim. Nidurlendíngar hófu og uppreist, og tók Vilhjálmur frá Oraníu, landstjóri þeirra, þar aptur vid yfirrádum. Austurríkis menn héldu her sínum sudrá Italíu, en þar var Evgen, konúngsefnid, fyrir, og tók svo hreystilega á móti, ad þeir fengu litlu áorkad. Þá bar þad til tídinda (í Jan. mán. 1814,) ad Murat Neapels

konungur, sleit félagskap við Napóleon, mág sinn og velgjörðamann, en gekk í lið með Austurríkis mönnum. Atti Eugen þá að verjast á tvær hendur, og tókst honum það svo vel, að kalla mátti hann héldi mest öllu landinu, þegar stjórnarbreytíngin gjörðist á Frakklandi, og Napóleon varð að leggja niður völdin.

Þannig breyttust viðburðirnir á einu ári. Þjóðirnar streymdu nú að úr öllum áttum, til að hefna sín á Napóleoni, er þær litlu áður höfðu lotið af mikilli auðmýkt. Höfðu menn aldrei séð jafnmikinn mannfjölda samankominn, síðan krossferðir lögðust niður.

Undir árslokin 1813 fóru menn milli Napóleons og fjandmanna hans og báru sættar orð, skyldi Frakkland halda þeim landamerkjum er náttúran hafði sett því; eru það: Pýrenæafjöll, Mundíafjöll og Riná. Lét Napóleon sér það lika, en Bretar tóku því fjærri. Bjóst þá Napóleon til varnar sem best hann kunni. En óvina herinn hélt innyfir landamerki Frakklands á ýmsum stöðum. Sendi Napóleon hershöfðingja sína í ýmsar áttir móti þeim, en sjálfur hélt hann (í Jan. mán. 1814) norður í lánd til móts við Rússa, Austurríkis menn, Prússa og Þjóðverja, og þótt hann hefði lið miklu minna, fékk hann sigur í hvörri orrustu sem hann sjálfur var viðstaddur; stóð óvinum hans svo mikill ótti af honum að þeir þorðu vart á hann að ráða, hefði hann að líkindum sigrast á þeim, ef hershöfðingjar hans hefðu ekki á öðrum stöðum farið halloka fyrir bandamönnunum, og sumir þeirra brugðist honum þegar mest lág á. Atti nú megin her óvin-

anna einúngis fárra daga leid til Parísarborgar. Þá tekur Napóleon það fángaráds, ad hann heldur nordúr fyrir þá, og ætlar svo ad koma ad baki þeim, og berjast vid þá í löndum þeim er liggja millum Rínár og Mósel ár. Var það ad vísu hið djarfasta tiltæki og hefdi ridid bandamönnum ad fullu; en vid því sáu þeir, og fyrir því héldu þeir öllu lidi sínu vidstödu- laust til Parísarborgar. Napóleon hafdi sett Jósef bródur sinn til höfudsmanns í borginni. Eu er hinn útlendi her kom ad borgarhlidum, vard það bert ad borgarmenn voru ekki allir einshugar. Vildi þjódvörd- urinn (Nationalgarden) verja borgina medan nokkur stædi uppi, og margir voru þeir er þannveg hugdu, en stórmenni flest og höfdíngjar létu þá annadhvört hug- fallast, edur skutust undan skyldu vid keisarann, sinn lán- ardrottinn. Prítugasta dag Marts mánadar (1814), áttu borgarmenn harda orrustu vid sambands herinn, og bidu ósigur. Héldu þá Rússakeisari og Prússa- konúngur daginn eptir sigri hrósandi inní borgina. Settust þeir þegar ad rádstefnu. Hélt Talleyrand svörum uppi af Frakka hálfu. Hann var madur störs vitur, en margt má segja um það, hvörsu hollur hann reyndist Napóleoni keisara. Pær urdu málalyktir á rád- stefnu þessari, og mest fyrir áeggjan Talleyrands: ad Napóleon skyldi leggja nidur völdin, og eiga aldrei sídan tilkall til, né heldur ættmenn hans. En Lodvík (hinn 18di) af Bourbonna ætt, og bródir Lodvíks 16da skyldi setjast ad völdum á Frakklandi. Maria

drottníng Napóleons, hélt med syni sínum, til Austurríkis á fund födur síns Franz keisara.

En þad er frá Napóleoni keisara ad segja, ad þá er honum kemur sú fregn, ad bandamenn haldi öllu lidinu til höfudborgarinnar, bregdur hann vid skjótt, og veitir þeim eptirför. Gjörir borgarmönnum þau ord, ad hann komi sjálfur til lids vid þá, og bidur þá verjast vel og drengilega þángad til. Ad kvöldi ens 30ta Marts, var hann kominn í grend vid borgina. Þá fréttir hann, ad borgarmenn hafa barist um daginn, bórid lægra hlut fyrir bandamönnum, en gefid borgina á þeirra vald. Sjer hann þá í hvört efni komid er, og tekur loks þad rád ad samþykkjast vilja og gjörd bandamanna, og afsala sér og ættmönnum sínum öllu tilkalli til ríkisstjórnar á Frakklandi. Því næst kom mönnum ásamt um ad láta hann fá ey þá til umráda er Elba heitir. Þad er lítil ey, og liggur framundan Toskanaríki á Italíu. Skyldi hann halda keisara nafni, hafa hirdmenn nokkra um sig, og fá allmikid sé af ríkissjódi Frakka, til uppeldis sér og mönnum sínum. Seint í April hélt hann til eyarinnar. Gjördu óvinir hans honum þad til skaprauar, ad þeir leyfdu hvörki drottníngu hans né syni ad koma á fund hans ádur hann fór úr landi. Þessu næst var saminn fridur í Parísarborg (30ta Mai 1814). Létu þá Frakkar af hendi allt þad, er þeir höfdu unnid undan ödrum þjódum sídan 1792, nema lítid eitt af Savoyasveit, nokkur hérsd í Belgíu og vid Rínú, og greifa dæmid Avignon og Venaissin. Frakkland

skyldi heita konúngsríki eins og fyrr. Sveitsaland, Holland, og þau lönd á Italíu er Austurríkis menn ekki fengu, urdu ríki fyrir sig. Hin mörgu smáríki á Pýzkalandi, gjördust sambandsríki. Pá var og rádgjört, ad höfdíngjar allir, þeir er átt höfdu í ófridi vid Napóleon keisara, skyldu fund eiga í Vínarborg, á því ári, til ad ræda um, og jafna med sér öll höfud málefni Nordurálfu-byggja.

Ekki leid lángt um, ádur fridnum væri lokid. Var þad bædi, ad stjórn Lodvíks konúngs ens 18da vard brádum mjög óvinsæl allri alþýdu á Frakklandi, og hinsvegar hófust deilur miklar med höfdíngjum á fundinum í Vínarborg. Visti Napóleon þetta hvorttveggja. Og þá er minnst vardi, var hann kominn aptur til Frakklands (1ta Marts 1815). Flykktist þá landsfólkid til móts vid hann, og mátti kalla ad hann væri borinn á höndum til Parísarborgar. En er þetta spyr Lodvík konúngur, flýr hann sem skjótast nordur á Belgíalönd. Voru þá settar til höfuds Napóleoni 2 milliónir fránka*); en engiun madur var sá á Frakklandi er legdi hendur á hinu mikla herhöfdíngja; gekk allt landsfólkid þegar til hlýdni vid hann, og urdu hvörki mannavíg né bardagar.

Nú spyrjast þau tídindi til Vínarborgar, ad Napóleon er kominn til ríkis, en Lodvík konúngur stokkinn úr landi. Bregdur þeim þá heldur enn ekki í brún höfdíngjunum, og týsa því yfir, ad Napóleon

*) 1 fránki er svo til ad jafna, sem 30 skildíngar danskir.

skal hvørgi grid hafa, og falla óheilagur fyrir hvørjum manni. Stefna þeir nú lidi saman um alla nordurálfu, og segja menn ad þá hafi vopnast 1 millión og 365 þúsundir manns móti Napóleoni. En þad er frá honum ad segja, ad hann stefnir þegar til móts vid Breta og Prússa; høfdu þeir lid hálfu meira enn hann, og bjugguft fyrir sunnan á Belgíalandi. Wellington og Blukker stýrdu því lidi. Napóleon rédist fyrst á Prússa og vann á þeim mikinn sigur hjá Ligný (16. Júní). Í þeirri orrustu var hestur skotinn undir Blukker, og féll hann til jardar og ridu Frakkar á hann ofan, en þekktu hann ekki, og fyrir þad komst hann undan. Því næst heldur Napóleon til móts vid Wellington. Vard fundur þeirra þar sem heitir ad Waterló. Þar stód hin nafnfræga orrusta (18da Jún. 1815), børdust hvoritveggju, Frakkar og Bretar, af enni mestu grimmd, en er bardaganum tók ad halla á Breta, kom Blukker ad, med Prússa her, og réd-ist þegar á Frakka. Setti þó Napóleon hershøfdingja þann er Grouchy hét, til ad hafa gætur á Prússum, en þeir komust fram hjá honum svo hann vissi ekki. Brast nú flótti í lid Napóleons keisara, og fekk hann ekki rétt vid bardagann. Vard hann þá ad flýja til Parísarborgar, og leggja nidur voldin ad nýju. Vildi hann ad sonur sinn erfdi ríkid eptir sig, en því neitudu menn. Hélt hinn útlendi her vidstødulaust til Parísar og gáfust borgarmenn upp fyrir honum. Þá bjóst Napóleon ad fara til Vesturálfu, en enskir menn høfdu njósn á um ferd hans, og komst hann ekki af

landi burt, fyrir herskipum þeirra, er þar lágu fyrir landi. Tók hann þá það ráð, að gánga á vald Breta, og æskti helzt að taka sér bólfestu á Englandi, en hin enska stjórn leyfði honum ekki að stíga þar fæti á land, en lét færa hann í útlegð í ey þá, er Elínarey (St: Helena) heitir. Hún er 320 vikur sjáfar í hafi, undan Svarthöfða á Afríkuströndum. Sat Napóleon þar í straungu varðhaldi, og 4 af vinum hans, er Bretar leyfðu að vera hjá honum í útlegðinni (Bertrand, Montholon, Gourgaud, Las Cases). Hafði hann sér helzt til dægrastyttínga, að rita það er á daga hans hafði drifið. En er hann hafði dvalist nokkra vetur í eynni, tók heilsa hans mjög að spillast; eignuðu menn það átumeini í innisluni, magnaðist sá sjúkleikur óðum, og dróg hann til dauða. Hann andaðist 4 dag Maí mán. 1821. Þá hafði hann lifað 2 vetur og 50. Var útför hans gjörð (þar á eynni) með hinni mestu vegsemd. En síðan er lík hans flutt til Frakklands (1840) og hvílir það nú í Parísarborg, eins og hann hafði sjálfur fyrir sagt litlu fyrir andlát sitt.

Þannig lauk æfi þessa merkis manns, er verið hefir einn hinn vitrasti meðal mannkynsins, og svo framkvæmdar mikill að hann breytti ástandi og kjörum því nær allra þjóða í Norðurálfunni; en orðstýr hans er floginn svo lángt sem lönd eru bygð.

## Frá frelsisstríði Grikkja. (1821—1829).

Ár 1453 unnu Tyrkir Miklagarð, og brutu undir sig Grikkland, sem kunnugt er orðið. Héldu þeir síð-

an landsfólkinu í þúngri ánaud, því nær um 4 aldir. Mátti það svída Grikkjum því sárar, sem þeir høfdu erft marga af mannkostum forfedra sinna, bædi hugvit, frelsis anda og hreysti, en hvíklyndir voru þeir og mets ordagjarnir og tortryggir sem forfedur þeirra, enir vídfrægu Forn-Grikkir. Hinsvegar voru Tyrkir fákænir í mørgu, en héldu fast vid forna villu fedra sinna, og þóktust upp úr því vaxnir ad nema sidu annara þjóda, enn þótt betri væru. Voru valla tvær þjódir hvør annari ólíkari enn Tyrkir og Grikkir. Má af slíku ráda, ad Grikkir hafi ekki sem best unad hag sínum, og borid harm sinn í hljódi, allt til þess tíma er høfundi þjódanna þókti mál komid, ad þeir tæku til starfa, og brytu af sér þrældóms ok Tyrkja.

Ár 1814 stofnudu nokkrir menn grískir félag það, er þeir kølludu Vinafélag (Hetæria). Midadi það í øndverdu einúngis til ad efla vísindi, medal Grikkja, en sídan létu félagsbrædur sér einkum annt um ad snúa hugarfari landa sinna til stjórnar málefna Grikklands. Sást og vottur þess, þá er ófridurinn hófst, hvørsu vel þeim hafdi ordid ágengt.

Alexander Ypsilanti er madur nefndur, hann var grískur ad ætt, en hafdi verid hershøfdingi i lidi Rússakeisara; hann gjørdist oddviti ad því, ad Grikkir hófu uppreist móti Tyrkjum í Moldáar fylki. Það er nordast á Tyrkjaløndum. Þetta vard tídinda øndverdlega á árinu 1821. Skoradi Ypsilanti á Grikki, ad þeir skyldu varpa af sér ánaudar oki Tyrkja, og kvad Rússa mundu verda því medmælta. En sem Alex-

ander Rússakeisara kemur sú fregn, brást hann reidur vid, rekur Ypsílantra úr tølu hermanna sinna, en gjør-ir Soldáni þau ord, ad hann megi óhultur treysta á vináttu sína, og engan hlut vilji hann ega ad máli Grikkja. Nú sem Soldán fréttir ad Grikkir hafa hlaup-id upp til ófridar vid sig, verdur hann ákaflega reid-ur, og hyggst ad brjóta uppreistarmenn til hlýdni vid sig þegar í stad. Sendir nú her manns í móti þeim, og fara Tyrkir fram med skélfilegri grimmd, og drepa hvørt mannsbarn af Grikkjum er þeir ná. Atti Ypsí-lanti orrustur vid Tyrki, og lauk svo, ad hann beid ó-sigur; féllu nálega allir menn hans, en sjálfur komst hann undan á flótta til Austurríkis; þar var honum svo tekid ad hann var settur í vardhald. Ar 1828 var honum gefid frelsi, og á því ári andadist hann. En þótt Tyrkjum tøkist ad kúga uppreistarmenn í Moldáar fylki og Vallakkíu, hófst um sømu mund-ir ófridur mikill á Pelopsey (Peloponnesos, Mó-rea), og á eyunum í Grikklandshafi, og þann ófrid fengu Tyrkir ekki sefad. Fyrst tóku þeir þad rád, ad ná med brøgdum øllum høfdingjum Grikkja á Pelops-ey, á sitt vald, og annadhvørt drepa þá, edur halda í fjøtrum, og fyrir því stefndu þeir þeim til fundar í Trípólíza, høfudborg þar í landi. Voru þeir og marg-ir er þann veg létu leida sig, en Germanos erkibiskup, sá vid Tyrkjum, og fer hann ekki til fundarins, held-ur stefnir ad sér lidi og hefur uppreistina. Komu þá til lids vid hann høfdingjar 2, Kolokotróni og Má-romikkalí, med sveit manna. Lýstu þeir því yfir: ad

Grikkir hefdu hugfest ad brjóta af sér ok Tyrkja, og hefja ad nýu Grikkjaveldi hid forna, og beiddu því kristna menn í Nordurálfu ad senda sér vopn og fé, og leggja sér góð ráð. Tóku menn all misjafnlega undir það. Þjódirnar glødduſt í hjarta og bádu frelsishetjunum alls góds til handa, en høfdingjar þjódanna, þeir er halda vildu øllum í ánaud, søgdu á reidi sína, kølludu Grikki upphlaupsmenn og spillvirkja og ýmsum illum nøfnum. Og ekki var sendimønnum Grikkja leyft ad bera upp erindi sín á fundinum í Veróna. En á þeim fundi sátu ríkustu þjódhøfdíngjar Nordurálfunnar. Vid árslokin (1821) høfdu Grikkir unnid undir sig nálega allar borgir á Pelopsey, drepid Tyrki edur hrakid úr landi. Kusu þeir þá sjálfir stjórnendur sína. Høfdu þeir menn adsetur sitt fyrst í Argos, því næst í Korintuborg og sídan í Náplía-borg (Napoli di Romania). Um þær mundir sem Grikkir hófu ófrid á landi uppi, hlupu eyamenn til vopna á Grikklands eyum (einkum á Hýdra-ey, Spezzía, Ipsara, Tíne og Samos-ey). Eyaienn voru kaupmenn miklir og skipasmidir, og áttu aud fjár. Kaupskip þeirra voru svo gjørd ad hafa mátti í orrustur í vidløgum. Adur enn menn vardi høfdu eyamenn vopnad 180 skipa, voru þar á margir vaskir menn og fengu Tyrkir ad kenna á hreysti þeirra og hardfengi; eyddu þeir mørg skip fyrir Tyrkjum, en tóku vistir þeirra og fé. Ari fyrr enn Grikkir hófu frelsisstridid, ófridadist med þeim Alí jarli í Janínaborg og Soldáni. Kom það Grikkjum mjøg í gódar þarfir, því Soldán vard

ad snúast vid Ala; stód sá ófridur 2 ár til þess er Ali jarl var af dögum rádinn. Snéruſt þá Tyrkir vid Grikkjum med miklu ofurefli, og sóktu ad þeim bædi á sjó og landi. Sendi Soldán ædsta herskipa foríngja sinn, þann er Kapúdan Paska kallast á tyrknesku, med flota mikinn til Pelopseyar. Setti hann þar á land herlid mikid, en hélt skipum sínum til Kíeyar (Chios), gekk þar á land og gjördi hid mesta hervirki. Ætladi sídan ad herja um fleiri eyar Grikkja, en honum audnadist þad ekki. Madur hét Stefán Kanaris, hann var fæddur þar á eyunum. Hann var hinn mesti kappi. Hann fór á brennuskútum þremur þar ad, sem floti Tyrkja lág fyrir akkérum á Kíeyar sundi, lagdi ad foríngja skipinu, og kveikti í. Flaug skipid í lopt upp, og fórust þar á 2300 manns af Tyrkjum. Kapudan Paska vard sár til ólífis og dó litlu sídar. Brenndu Grikkir þar fleiri skip fyrir Tyrkjum. Í þad mund var ófridurinn sem mestur á landi. Héldu Tyrkir her sínum nordan ad Laugaskardi (Thermopylæ). Þar kom til móts vid þá kappi sá, er Odysseifur hét, átti hann vid þá orrustu harda, og komust Tyrkir ekki yfir skardid. Margir voru þá uppi adrir menn á Grikklandi, er vordu sjör og frelsi þjódar sinnar og nádu mikilli frægd. Má hér til þess nefna: Demetríus Ypsílanti, Nikítas, Márakordató og Markús Bozzari. Þeir tveir, enir sídastnefndu, vördu Messólongi-borg af mikilli hreysti. Flaug ordstýr þeirra um alla Nordurálfu, og gjördust þá margir til ad lidsinna Grikkjum, og sendu þeim annadhvört vopn edur

sé, edur hvorttveggja. Einn af þeim mønnum er þá kom til lids vid Grikki, var hld vidfræga enska skáld Býron lávardur. Hann vardi fé og fjøri til hjálpar Grikkjum, og orkti kvædi um hreysti þeirra og framgaungu. Hann andadist í Messólongi 1824, og vard Grikkjum mjøg harmdaudur. Margir komu og adrir menn til Grikkja, hér nordan úr álfunni, og gengu í lid med þeim, þótt ekki séu þeir hér nefndir. En er Soldán sá, ad hann mundi ekki af símum ramleik sigrast á Grikkjum, tók hann þad rád, ad fela Ala, jarli sínum á Egyptalandi á hendur, ad leida til lykta ófridinn á Grikklandi, og snúa þjódinni aptur til hlýdni vid sig. Sendi Ali jarl þegar son sinn, Ibrahim (1825) kappa mikinn, med her manns til Pelopseyar. Fór Ibrahim yfir landid sem logi yfir akur, og fengu Grikkir ekki rønd vid reist. Pá var og sundurþykki nokkurt med Grikkjum innbyrdis, og vard því minni vørn þeirra á landi enn vera mátti. Pá settust Tyrkir og Egyptalandsmenn um Messólongi, vørdust Grikkir þar enn af dæmafárri hreysti, en um sídir unnu fjendur þeirra borgina. Brutust ádur margir af borgarmønnum út ígegnum fylkíngar Tyrkja, og komust vel undan til landa sinna á ødrum stødum.

Pessu næst tóku stjórnendur Breta og Frakka ad bera rád sín saman, til ad gjøra endir á ófridi þessum, var þad bædi ad þeir dádust ad hreysti og framkvæmdum Grikkja, enda áttu þá Grikkir marga góda menn ad, er veittu þeim ad máli hjá høfdíngjunum þessum. Pá var og grund Tyrkja svo vidurstyggileg í augum

kristinna manna, ad þeir gátu ekki horft á adgjørdalausir, ad þeir eyddu, og brytu undir sig slíka þjód sem Grikki. Þá var hinn mikli stjórnarvitríngur Kanníng uppi á Englandi, kom hann því til leidar, ad Wellington hertogi var sendur til Rúslands (1826), þess erindis, ad tala máli Grikkja hjá Nikulási keisara, er þá var settstur ad vøldum eptir Alexander keisara, bródur sinn, og fá hann til ad gánga í félag med Bretum og Frøkkum og sefa ófridinn milli Tyrkja og Grikkja. Árid eptir (6 Júl. 1827) gjørdu þessar 3 þjódir samníng med sér í Lundúnaborg; skyldi Soldán annadhvørt med gódu edur íllu vidurkennast þjódfrelsi Grikkja, þó svo, ad skatt skyldi honum gjalda á ári hvørju af landinu. En Soldán tók því øllu saman fjærri. Medan þessu fór fram, hafdi Ibrahim unnid undir sig lønd og borgir frá Grikkjum, og midur gekk þeim nú í sjóorrustum enn ádur, olli því hvørutveggja, sundurþykki med høfdíngjum Grikkja. Um þær mundir var ad sønnu hinn enski herskipaforíngi Cochrane, hinn mesti kappi, ordinn ædstur foríngi fyrir herskipum Grikkja, en þó hann tæki mørg skip og eyddi fyrir Tyrkjum, var þó lidsmunur svo mikill ad útgjørt mundi um Grikki, ef Bretar, Frakkar og Rússar hefdu þá ekki skorist í leikinn. Tyrkir gjørdu þá vopnahlé vid Grikki, en er minnst vardi rufu Tyrkir þann samníng og hófu ófrid ad nýu. Tyrkir og Egyptalandsmenn høfdu lagt flota sínum inná Navarínar høfn, og voru á annad hundrad skipa. Þar komu Sambandsmenn ad þeim (20ta Okt. 1827). Fengu Frakkar og Rússar enum enska

herskipaforíngja Kodríngtoni í hendur, en ædstu yfir-
ráð yfir öllum skipahernum. En er Kodríngton hefir
lagt skip sín í lagi, og umbúist, sendir hann mann á
fund ens tyrkneska foríngja. Hær sendibodinn hær
vidtökur hjá Tyrkjum, ad þeir skjóta hann til bana.
Þá lét Kodríngton blása til atlögu öllum skipum sín-
um, og tókst þar en hardasta orrusta. Vörduzt Tyrk-
ir vel og drengilega; en svo lauk ad kristnir menn fengu
mikinn sigur, og komust ein 16 skip af öllum Tyrkja
flota undan, og þó illa til reika. En sem Soldán
fréttir ófarir herskipa sinna, segir hann sig lausan allra
mála vid Breta, Frakka og Rússa; og litlu sídar (í
April mán. 1828) hóf hann ófrid vid Rússa. Urdu
Tyrkir mjög undir í þeim vidskiptum. Mundu þá
Rússar hafa lagt undir sig allt Tyrkjaveldi, nema fridur
hefdi ádur komist á (í Hadriansborg 1829). Sum-
arid 1828 sendu Frakkar herlid til Pelopseyar, til ad
reka Ibrahim þadan af landi. Maison stallari (mar-
skálkur) stýrdi því lidi. Lauk svo med þeim ad Ib-
rahim vard undan ad láta, og sneri heim á Egyptaland
med lidsmenn sína, um haustid. Póktu Frakkar hafa
gjört góda landhreinsun á Pelopsey. Eptir þad unnu
Grikkir aptur nokkrar borgir frá Tyrkjum. Arid 1827
tóku Grikkir til landstjóra (ríkisforseta, Præsident)
yfir sig, höfdingja þann er Kapódistria hét, hann var
grískur ad ætt, og hafdi ádur verid einn af rádgjöfum
Rússakeisara. Hann var vitur madur og framtakssam-
ur, og leitadist vid ad færa alla hluti til betra vegar,
hann stökkti víkíngum öllum í Grikklandshafi, hélt á

fridi innan ríkis; og reisti skóla í landinu. Átti hann við margt að stríða, því bæði voru Grikkir gjarnir á óspektir, og líka vantaði hann fé til þess er framkvæma þurfti. Meðan stríðið stóð yfir, höfðu menn ákveðið, að landamerki Grikklands skyldu, að norðanverðu, gánga frá Vólófirði vestur í Artafjörð; og á friðnum í Hadríansborg 1829, samþykktist Soldán það. Síðan breyttu menn þessu svo: að Grikkland skyldi vera ríki fyrir sig, landamerkin þokast lítið eitt suðrá Grikkland, Krítey og Samos koma á vald Tyrkja. Þá buðu þeir og Leópoldi frá Saxa-Kóburg konúngdóm á Grikklandi, en hann vildi eigi þyggja, einkum af því honum þókti þeir færa landamerkin of mjög inná landið að norðanverðu. Hafði þá Kapódistría landstjórn á hendi sem áður, til þess er flokkur manna hófst móti honum, þókti þeim mönnum hann gjörast of einráður, og hlýða of mjög fortölum Rússa, og þar kom, að þeir sátu um líf hans, og veittu honum bana (7da Okt. 1831). Litlu síðar kjöru bandamenn, (Bretar, Frakkar og Rússar) Ottó, Lodvíksson af Bæaralandi, til konúngs yfir Grikkland. Hefir hann þegar setið þar að völdum nokkur ár, og komið á samlyndi, og betri skipan í mörgu. Ottó konúngur situr í Atenuborg, og rís hún nú aptur úr rústum sínum eptir lángan aldur.

## Frá Stjórnarbiltíngunni á Frakklandi 1830. (Júlí-Revolútionen).

Þegar höfdíngjaskipti urðu á Frakklandi árið 1814, og Napóleon keisari varð að láta af stjórn, en

kom til ríkis Lodvík konúngur enn 18di, var það að lögum gjört þar í landi, að takmarka skyldi konúngsvaldið, og þjóðin ega þátt í allri landsstjórn með konúnginum. Varð það með þeim hætti: að hvorirtveggju skyldu kjósa menn fyrir sína hönd, konúngur og landsfólkið; skyldu þeir enir kosnu menn ráða lögum með konúngi. Þá menn sem þjóðin velur hafa menn kallað þjóðarfulltrúa, en þá konúngsfulltrúa er konúngur kýs *).

Nú var við því að búast, eins og raun gaf síðar vitni, að þjóðin mundi tvískipta sér, og mundu sumir halda fram konúngs máli (Royalistar, konúngsmenn), en sumir þjóðar máli (Liberalistar, frelsis menn). Urðu svo mikil brögð að því, að nokkrir menn sórust í félög til að drepa konúnginn og ættmenn hans. Maður hét Lúvel, hann var söðlasmiður, hann vann það fólskuverk (1820) að hann myrdti hertogann frá Berry, bróðurson Lodvíks konúngs enns 18da. Urðu þá konúngs menn óvægir, og kreptu nokkuð að mótstöðumönnum sínum, frelsisvinunum. Ár 1824 deydi Lodvík konúngur enn 18di. Tók þá ríki eptir hann, Karl bróðir hans, hinn 10di með því nafni. Hugðu menn all gott til ríkisstjórnar hans, var það og eitt hið fyrsta sem hann aðhafðist, er hann var settstur að völdum, að hann veitti þjóðinni aptur prentfrelsi. En litlu áður

*) Konúngsfulltrúar (Pairar, Jafníngjar) á Fraklandi, ega þíngsetu sér í Jafníngjastofunni (Pairskammeret), eins og Lávarðarnir í efrimálstofunni á Englandi; en þjóðfulltrúarnir (de Deputerede) í þjóðmannastofunni (de Deputeredes Kammer), einsog alþýðufulltrúarnir í neðri málstofunni.

hafdi það verid tekid af henni. Ari sídar báru stjórnarherrar upp vid fulltrúa, frumvarp eitt, er laut að því, að höfdíngjar þeir er farid höfdu af landi burt í stjórnarbiltíngunni miklu, fengju 1000 milliónir fránka í skadabætur. Frumvarpid vard mjög óvinsælt hjá alþýdu, sem vid var ad búast, en fulltrúar félluſt þó á það. Um þær mundir reyndi og enn katólski kennilýdur og kristmúnkar ad ná enum sömu völdum, sem þeir höfdu fyrr haft þar í landi. Studdi stjórnarráð konúngs ad þeísu hvorutveggju af miklu kappi. Sá hét Villele er ædstur var í því rádi. Gjördist hann svo óvinsæll, ad honum vord ekki vært, og svo lauk, ad konúngur kvaddi hann og alla samstjórnendur hans frá völdum. Kom þá annad stjórnarráð í þeirra stad, og var það vinsælla hjá alþýdu. Stjórnarráð þetta kom því til leidar ad Frakkar sendu herlid til Pelopseyar, til ad reka þadan Ibrahim illa, eins og ádur er sagt, og var þad hid þarfasta verk. En stjórnarherrar þeísir komust í mikinn óþokka hjá klerkum og konúngi, og er minnst vardi svipti konúngur þá völdum, og setti annad stjórnarráð í stadinn. Sá hét Polignak er efstur sat í því rádi, þókti mönnum þad all ill umskipti, og sögdu margir alþýduvinir af sér völdum sínum. Leitudst þá enir nýu stjórnarherrar vid, ad fá nokkra menn af alþýdu flokki í lid med sér, en enginn vildi verda til. Hugdu menn nú ad stjórnarrádid mundi draga öll völd úr höndum alþýdunnar og fá konúngi í hendur, urdu þá margir skorinordir um þad í dagblödum og tímaritum, en þad leiddi aptur til þeís, ad margir voru dæmdir í sébætur fyrir

orð sín, og þókti nú óvænlega áhorfast. Margir frelsis vinir tóku sig saman um, að eigi skyldu þeir gjalda skatta, ef stjórnarskránni yrði breytt. Biðu menn nú þess tíma að stefnt yrði til fulltrúaþings, og þóktust margir sjá fyrir að verða mundi nokkuð söguligt. Vorið 1830 setti konúngur sjálfur fulltrúa þíngið, og sagði svo: að hann efaðist ekki um, að fulltrúar vildu styrkja sig til enns góða, en tækist svo til, að sér yrði mótspyrna sýnd, kvaðst hann hafa næg ráð og nógan mátt til að hafa sitt fram. Fulltrúar svöruðu konúngi, og var þetta eitt í svari þeirra: að landstjórnarskráin heimilaði þjóðinni rétt til að ráðgast um alþjóðleg málefni landsins, réttur þessi væri umgirðtur nákvæmum takmörkum og mundu menn ekki una því, að þeim yrði raskað. Stjórnin tortryggði landsfólkið án sakar, og fengi það þjóðinni áhyggju mikillar, því slík tortryggni væri henni til óvirðíngar, kváðust bera það traust til konúngs, að hann rétti við aptur samlyndi milli sín og þjóðarinnar, þar honum væri það innanhandar. Litlu síðar bauð Karl konúngur að skjóra á frest fulltrúaþínginu til haustsins. Sleit þá þínginu við það, með miklum þys og óhljóðum.

25ta dag Júlí mán. 1830 lýsti Karl konúngur því yfir, að hann hefði ónýtt prentfrelsis lögin í ríki sínu, og gjört ræka þjóðfulltrúana, skyldi því kjósa aðra í þeirra stað, eptir öðrum lögum enn áður hefði verið.

Við þessi tíðindi urðu menn hljóðir mjög í Parísarborg, og þókti konúngur færast mikið í fáng. Þeir menn sem störfuðu að dagblöðum og tímaritum, urðu fyrstir til að gjöra nokkra mótstöðu. Gjörðu þeir það

þegar heyrum kunnugt: ad hollústa og hlýdni vid Karl konúng væri enginn skyldu skattur, þar hann hefdi svo stórkostlega rofid eida sína og raskad stjórnarskránni. Fyrir þá sök eggjudu þeir þjódina til öflugrar mótstödu, og jafnframt því treystu þeir þjódfulltrúum til ad vernda frelsi og réttindi landsmanna, og láta ekki vidgángast ad konúngur trædi þad fótum. Þá feis upp múgur manns í Parísarborg, og fóru menn hópum saman um borgarstrætin, en höfdust ekki ad, fyrr enn konúngsmenn komu til og skutu á þá. Tóku þá borgarmenn á móti, og vördu sig med grjóti, féllu þá menn nokkrir, en margir urdu sárir. Daginn eptir, (27. Júl.) á álidnum degi, hófst uppreistin algjörlega. Vopnudust menn þá, slökktu ljós öll á strætum úti, og felldu stórvidu millum húsa. Vard þá riddaralidi konúngs mjög ógreidt yfirferdar. Konúngur flýdi þegar úr borginni med hird sína, en setti Marmont herhöfdíngja yfir herlidid, og skyldi hann sefa med því uppþlaup borgarmanna. Var þad ekki audgert, því borgarmenn voru allir einshugar og enir hardsnúnustu, svo gekk og þjódvördurinn (Nationalgarden) í lid med þeim, og tveir enir ágætstu hershöfdíngjar La Fayette og Gérard. Var nú barist ákaflega í 2 daga, og ad kvöldi ens 29da Júlí, höfdu borgarmenn allstadar borid hærra hlut, en konúngsmenn annadhvört hrokkid fyrir, edur gengid í lid med þeim. Sagt er ad 2 þúsundir hafi fallid af borgarmönnum, en nokkru færra af konúngsmönnum. Þann 30ta Júlí ráku borgarmenn Karl konúng

frá völdum, og tóku að semja um nýa ríkisstjórn. Urðu þeir flestir er mæltu með takmarkaðri konúngsstjórn, og skyldi Lodvík Filippus hertogi. af Orleans ætt, (sonur Lodvíks Egalité er hálshöggvinn var í stjórnarbiltíngunni miklu, 1793) takast ríkisforráð á hendur á Frakklandi fyrst um sinn. En svo lauk, að þjóðarfulltrúar kjöru hertogann til konúngs. Þág Filippus hertogi það, og vann stjórnarskránni, með þeirri umbót sem þá var gjörð, trúnaðar eið 9da dag Agúst mánaðar. Hann er kallaður Lodvík Filippus hinn 1ti; hefir hann stjórnað með mikilli stillíngu og staðfestu, og þykir vera enn vitrasti höfðíngi.

Þessi hin merkilega stjórnarbiltíng vakti margar þjóðir í Norðurálfunni af dvala þeim, er þær höfðu verið í um stund, urðu einkum að því mikil brögð á Pólínalandi og í Belgíu. Og má með sanni segja, að sá atburður hefji nýtt tímabil í sögu mannkynsins.



